*Fólkið:*

Við litlu má gera;
látum svona vera;
þeir ýtast þá með árum
á bárum.

*Forsöngvarinn:*

Nú eru líka níu menn,
sem nóttina eiga að stytta,
þó varla nokkur viti enn,
hve vænlegt ráð þeir hitta.

*Fólkið:*

Segðu ekki lengur!
Seinna veit, hvað gengur.
Mættum við fá meira
að heyra!

*Forsöngvarinn:*

Á einum stað býr einnig fólk,
sem alt af vantar brýni;
það lifir þar á mysu og mjólk,
en mest á brennivíni.

*Fólkið:*

Æ, hvaða skrambi!
Ætli þeir standi á þambi?
Mættum við fá meira
að heyra!

*Forsöngvarinn:*

Þar hefir verið sofið sætt,
en sungið nokkru miður,

og ullin fremur illa tætt,
en allra bezta fiður.

*Fólkið:*

Ætli það sé undur,
þótt á þá renni blundur!
Mættum við fá meira
að heyra!

*Forsöngvarinn:*

Þar eru blessuð börnin frönsk,
með borðalagða húfu,
og yfirvöldin illa dönsk
á annari hverri þúfu.

*Fólkið:*

Hættu nú, herra!
hér mun koma verra,
sem þér er betra að þegja um
en segja um.

---

## SÉRA BESSI.

Bessi á sér berhross,
breiðir snoturt áreiði,
gæsarham, og guðvís
getur fettur rétt setið,
skeiðar svo, og lífs leið
lýðum kennir dag þenna;
gumar, sem hans gabb nema,
grýtast til helvítis.

## BÓSI.

---

Bósi! geltu, Bósi minn!
en bíttu ekki, hundur!
ella dregur einhver þinn
illan kjaft í sundur.

Hafðu ekki á þér heldra snið
höfðingja, sem brosa,
en eru svona aftan-við
æru manns að tosa.

---

## SUNNAN-PÓSTURINN.

---

*Pósturinn* er sálaður *Sunnan-*,
syrgir bæði halur og nunnan,
af því hann var allra ánægja,
utan lands og innan „að sægja“.

„Fóta gat ei fram róið árum“,
forarhlandsins sökk hann í bárum,
liggur þar í leðju á botni.
— „Lifir dyggð, þó fjöræðar þrotni“.

---

## HALLGRÍMUR VESLINGUR.

---

Halli vesli, heyrðu mér,
hér er ég með busa
og ætla að sníða eyra af þér
eins og Malakusa.

Holur lækur grefur gróf;
grynnist flæður hafin.
Veit ég öngan verri þjóf
en Vesling bólugrafinn.

Þegar hangir Hallgrímur,
hrafnar snauðir skoppa:
„Heimskur búkur, hangdu kjur!“
— og hætta í þig að kroppa.

Uppgangsfífl, sem áður var,
allt í flærð og prettum,
heimskur búkur hangir þar,
hrafna gæddur slettum.

---

## FINGURBJÖRGIN.

Á ég mér kvæða efni mörg,
— þótt engum manni fríum. —
Ég réðist í að reisa hörg,
regin! yður og díum,
sem eilíflega eruð fjörg
og á það setið dæmaförg, —
en þessi fagra fingurbjörg
flytur mig ofar skýjum.

---

## BÁGINDI.

„Illa er mér við óleik þinn,
eta máttu pútuskinn,

en láttu vera líkama minn.
lifandi sálar kroppinn!"
Eg hefi fundið arga kind,
á henni var háðsleg mynd;
það var líkast lús eða synd; —
ég lagði hana í koppinn.

---

## SPARNAÐUR.

Eg er kominn upp á það,
— allra þakka verðast, —
að sitja kyr í sama stað,
og samt að vera að ferðast.

Ef enginn talar orð við þig,
— á það skylduð hlýða! —
þá er að tala við sjálfan sig,
og svo er um það að ríða.

---

## VALDI.

Valdi! virztu nú halda
vel mér í stél, séra!
Eg skal gefa þér afar-
ætilegt sælgæti:
lambasteik, svo þér líki,
ljómandi skyr og rjóma,
Valdi! viljirðu halda
vel mér í stél, séra!

---

## MÁLSVÖRN.

Feikna þvaður fram hann bar, —
fallega þó hann vefur!
Lagamaður víst hann var,
varði tófu refur.

## UM MOSFELLINGA.

Bóndinn situr á bæjarstétt,
bindur hann reipi, hnýtir hann hnúta;
heyið er upp í sæti sett,
konan ætlar að kaupa sér fyrir það klúta.

## SKÁLDIÐ MITT —.

Skáldið mitt var skjótt í leik,
skauzt úr eldhúss brælu
líkt sem flygi langt frá reyk
ljóss í veldis sælu.

## RÍMNA-STÆLINGAR.

### 1. MEYJAR-HJARTA.

Yndis bezta elskan mín,
ástum festa baugalín!
Hjartað góða þekki eg þitt,
það er ljóða-efnið mitt.

Það er hreint, sem bregði blund
blómstur seint um morgunstund,
djúpt sem hafið heims um hring
heitri kafið tilfinning.

Það er gott, sem gaf það þér
guð, og vottinn hans það ber;
engum skugga á það slær,
auma huggað bezt það fær.

Það er hlýtt af ástar-yl,
öllum blítt og mest í vil;
logann ól það elskunnar
undir skjóli miskunnar.

Það í heima horfir tvo,
huganum sveima leyfir svo;
það er gefið og þó sig á.
. . . . . . . . . . . . .

### 2. HÁRIÐ.

Fagurljósa lokka safni,
litla Rósa!
þínu hrósa hafnanafni*)
helzt man kjósa.

Móinsbóla morgunsólu
mærð að góla.

*) Hafna-nafni er sjálfkenning, eins og séra Eiríkur heitinn í Vogshúsum myndi hafa búið hana til, og þýðir einhvern fjörð, svo sem Breiðfjörð, Hestfjörð, Skötufjörð, Fáskrúðsfjörð eða Arnarfjörð, o. s. frv. — Eins vel hefði mátt standa hrafnajafni = „kramsi“ (samanber Tístransrímur). Svona má sjá, hvernig skáldin geta velt orðunum fyrir sér.

tel eg ólag eftir jól
og utan tóla.*)

---

## RÍMNAERINDI.

Vona eg dúna dreka lín
á Dáins fleyi náms um haf
við gull-húna hengi fín
hýru-þvegið náðartraf

---

## NÝHENDA.

Er hann að syngja enn sem fyr,
arnar-vélið sá hann — attan:
„klingling" hringja kleprarnir
við karlinn hélugráan — skrattann.

---

## ÞORKELL ÞUNNI.

Friðar biðjum Þorkeli þunna,
þagnar er hann seztur við brunna;
óskemmtileg ævi mun vera
ekkert sér til frægðar að gera.

Fyrrum hann í söngmanna sessi
sagt er gæti tekið á vessi:

---

*) Ég bið forláts! Þetta erindi er svo gott sem stolið allt úr eldri mansöngvum.

há-beljandi glumdi við gleði,
golufylltur naumast sér réði.

Uppstigningar æðstum á degi
engin von er söngmaður þegi.
Hermdu, Bragi, höfðingi ljóða!
hvernig gekk þá „skrímslinu góða“?

Að er komið útgöngusálmi; —
eins var það sem gneistar í hálmi,
þegar rauðum þeytir upp glóðum:
Þorkell verður allur að hljóðum.

Hausinn upp að kórstaf hann keyrir,
kúgast, svo úr nefinu dreyrir,
úr sér másar óskapa-roku,
álíkt dimmri leirhvera-stroku.

Eins og þegar flugdrekar forðum
fleyttu um loftið glóandi sporðum,
skygðu fyrir sólina sælu,
sátu menn í gjörninga-brælu. —

Svo var inni í kórnum að kalla;
kreppist hý á öldruðum skalla;
sumir hættu sjálfir að drynja,
sumir fóru að emja og stynja.

Allir snéru augum frá jörðu,
upp í rjáfrið grátandi störðu;
skalf og sveigðist þakið út þanda
Þorkels fyrir losnuðum anda.

Geggjast allur guðsorða lestur,
á grátunum tvístígur prestur,

hleypir nú í hempuna vindi,
hrökkur út úr kirkjunni í skyndi.

Í sama bili er sálmurinn búinn,
situr Keli móður og lúinn;
öllum finnst sem eitthvað sig dreymi,
aldrei meiri þögn varð í heimi.

Djákni fyrstur raknar úr roti,
rann sem mús úr nauðungar-skoti,
fær sér bók og hættir að hrína,
herðir sig með bænina sína.

En á meðan út er að klykkja,
á er komin söguna lykkja. —
Þorkell æpir: „Hættu að hringja!
Hef ég ekki lof til að syngja?“

Að svo mæltu aftur hann byrjar,
upp og niður gengur og kyrjar;
flýr þá, eins og fæturnir toga,
fólk, sem stæði kirkjan í loga.

Seinna var hann sóttur í kórinn
(svartur var þá á honum bjórinn)
örendur og oltinn á hnakkann; —
á útgöngu-versinu sprakk hann.

---

## TÍKAR-MANGI.

Tíkar-Mangi! Tíkar-Mangi!
tveir eru hérna menn á gangi,
og eru svona aumir snáðar,

ekkert vita þeir fáráðar.
Gaman, gaman, gleðjumst nú,
gott er að koma á prófasts-bú.

---

## LITLA DÓRA.

Litla Dóra, litla Dóra!
lengur megum við ei slóra,
en við skulum áfram halda
út í veðrið hvassa og kalda.
Allur lifnar andi minn,
er ég hugsa um kaupstaðinn.

---

## VEÐURVÍSUR.

### 1 HART VOR.

Hóla bítur hörku-bál,
hrafnar éta gorið,
tittlingarnir týna sál; —
tarna er ljóta vorið!

### 2. VORNÆÐINGUR.

Út um móinn enn er hér
engin gróin hola;
fífil-tóin fölnuð er —
farðu í sjóinn, gola!

### 3. SUNNANVINDUR.

Sunnanvindur sólu frá
sveipar linda skýja;

fanna-tinda, björgin blá,
björk og rinda ljómar á.

4. SUMARHRET.

Nú er sumar í Köldukinn, —
kveð eg á millum vita; —
fyr má nú vera, faðir minn!
en flugurnar springi af hita.

5. MOLLA.

Veðrið er hvorki vont né gott,
varla kalt, og ekki heitt;
það er hvorki þurt né vott,
það er svo sem ekki neitt.

6. NIÐAÞOKA.

Búðaloka úti ein
er að gera á ferðum stanz; —
úðaþoka, hvergi hrein,
hún er úr nösum rækallans.

7. RIGNING.

Skuggabaldur úti einn
öli daufu rennir;
skrugguvaldur, hvergi hreinn,
himinraufar glennir.

8. ÚTSYNNINGUR.

Útsynningur yglir sig,
eilífa veðrið skekur mig;
ég skjögra eins og skorinn kálfur, —
skyldi ég vera þetta sjálfur!

---

## ROBB OG GRÍMUR.

Öllum fyrir Ingólfur sér opinn geiminn,
þegar teiknin taka heima
tvíræð yfir landið sveima.

Robb og Grímur rogast nú með rauða hettu.
— Engill verndar, allra gættu
ólærðra í nýrri hættu!

Robbur gamall rauna fer að rétta helsi;
yngra teiknið, Grímur, í galsa
guð og menn er nú að falsa.

Ideuna — eða hvað hún annars heitir —,
svo fjárinn sig ei fyrirliti,
fundu þeir í hverju riti.

Þegar skröggur skeggið helga skekur á bringu
— skegglaus enn — og skatnar þinga,
skapar hann heillir Íslendinga.

Tímarímu-teiknin standa tvö í vindum,
sitt yfir hvoru líða landi,
lafa samt á einu bandi.

Annað þeirra áðan heyrðum eitthvað grenja:
„Bosje, tsarja, blessaður, chrani!"
Beljaði annað: „Rule, Britannia!"

Meistarar tveir á mesta lofið manna stunda;
annar vegur vit í höndum,
vörur hinn á reizluböndum.

## SKRÆLINGJA-GRÁTUR.

Ein sorgleg vísa útaf alþingi,
samansett
af
Ívari Bárðsyni.
Viðeyjar-Klaustri.
Þryckt seinast af öllu, þegar bókþryckiríið niðurlagðist.

---

Naha, naha!
Báglega tókst með alþing enn,
naha, naha, naha!
Það eru tómir dauðir menn;
naha, naha, nah!

Það sést ekki á þeim hams né hold,
naha, naha, naha!
og vitin eru svo full af mold;
naha, naha, nah!

Og ekkert þinghús eiga þeir,
naha, naha, naha!
og sitja á hrosshaus tveir og tveir;
naha, naha, nah!

Þeir hafa hvorki kokk né pott,
naha, naha, naha!
og smakka hvorki þurrt né vott;
naha, naha, nah!

Og hvergi fá þeir kaffibaun,
naha, naha, naha!
og eru svangir og blása í kaun;
naha, naha, nah!

Og bragða hvorki brauð né salt,
naha, naha, naha!

og þegja allir og er svo kalt;
naha, naha, nah!

Þeir deyja aftur úr kulda og kröm,
naha, naha, naha!
Og holtið er grátt og kvölin söm;
naha, naha, nah!

---

Ein nýgjörð og gamansöm
bindindisvísa,
er heitir:
„VESTURFÖR VELBORINS HERRA
BRYNJÓLFS SÝSLUMANNS P. S.“
og öðru nafni

## KAUPFARAR-SKÁL.

Að utan og sunnan og austan eg spyr,
að á séu vestrinu stóreflis-dyr,
og eins langt og mannsauga út um þær sér
sé ekkert af neinu og í hurðinni gler.

Hann Brynjólfur veltist um bárur á kút
að búðarhurð þeirri og gægðist þar út
og kallar og segir: „Eg kom hér um sinn
að kaupa mér seytil á legilinn minn“.

Og svo er mér frá skýrt, að lýður þess lands
það léti, sem til var, á pyttluna hans;
og svo valt hann aftur og settist í bú
og segir: „Guð-velkomnir! Drekkið þér nú!“

Vér lofum og prísum þann metnaðarmann;
til mikilla stórlauna kaupför hans vann;

því ókeypis veitir hann öllum og jafnt,
og aldregi lækkar á pyttlunni samt.

Hann lifi og ríki nú leglinum á!
Vér lofum og prísum hann héðan í frá;
en tappann úr vestkútnum taka er mál
og tæma svo höfðingjans kaupfararskál.

---

## ÓLUND 2 OG ÓLUND 3 OG 15 ERU NÚ.

Svarblá alda sogar mig,
samt er eg enn á floti;
skrúðafaldi skreytir sig.
— Skyldi eg aldrei kyssa þig?

Gott er að búa geddum hjá;
gleymir lúa nárinn;
heimi frúa horfnum frá
að honum snúa sílin blá.

Einhver kindin óþekkt mér
að sér vinda myndi;
þær eru að synda þar og hér;
— það er yndi Cuvier!

---

# GAMANVÍSUR TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR.

## I.

### ALLSHERJARGOÐINN.

Smámey, fegursta bæjarblóm,
brosið þitt glatt og fjörið unga,
hjartað þitt sælt og tárhrein tunga,
það er nú „öll þín eigindóm“. —
Svo ætla ég hann orði það,
allsherjargoðinn, hágrátandi,
þegar hann „ellers er í standi“
að biðja þig „að tiggja tað“.

## II.

### UM ÞAÐ HVERNIG ALLSHERJARGOÐINN SKRIFAR MÓTI ÞÉR Á 20 ÖRKUM.

Aldrei sá eg mjórri mann
meira hlassi aka;
í tuttugu berum togar hann
taðið út á klaka.

---

# TIL GÍSLA.

Hundskinns-bjálfa-herðari!
(Fluga kom og truflaði mig;
hún settist á pennann minn).
Heimdals-álfa-serðari!
koðuvandur, kvæðasár!
klofaþandur, æðablár!

Markaði ljótum eg var á,
arkaði blótum meður,

sparkaði grjótum stinnt með stjá,
slarkaði fótum til og frá!

Klifraðist ég um klettaris
og klungrin hörðu,
leirskálpotta-dyngjudys
á danskri jörðu.

Hvað er dyngja? hermdu mér
í hróðrarblandi;
(öngvir syngja utan vér
á Ísalandi!).

Duggálsblossadyngjufress
við dyngjur kúra,
þiggja kossa, kveða vess
og koðrann púra.

Hvað er að púra? hermdu mér;
heimsins skúra nauðsynjar,
því bezt er að lúra gegnum gler
gleði súra hér og hvar.

Margt er fleira úr ferð að segja
furðanlegri;
en nú skalt heyra aðra, eia!
öllu fegri.

Rask að skoða fór eg frjáls
fram á Niðjaleysu.
Þar var Koð og þundur stáls
að þæfa voð í húsi báls.

Báls í húsið brá eg sjónar-tíru;
þar var drós og þornagrér
að þæfa hósur, sýndist mér.

Rekkurinn þessi, Rask, var ekki í ranni góðum,
en húsfreyjan með horsklegt æði
heima kúrði fyrir þau bæði.

Höfuðstóran darradör, ef dreng má kalla
ársgamlan, eg sá á svelli
sitja niðrá þúfnavelli.

Málfræðingurinn mælti fátt úr munnagreyi.
Konan heldur Konráð eigi hann,
Kristján heiti og bráðum deyi hann.

Háttalykil hendi
hnísunárafló,
sem að henni sendi
suðrúr Kúrriró
saura-paura-þoku-þór,
skörðóttur í skeggstæðið,
skáldaður á bjór.

---

## HUGNUN.

Nautgæfa fóðurgrasið grær
á leiði móður þinnar þjáðu.
Því ertu hljóður, frændi? Sjáðu,
hvar bóndi góður björg sér fær.

Þúfu, sem slær hann, undir er
sú ein, sem kæran haft þig hefur,
í hjúpi væran dúr hún sefur.
— Heytuggu nær hann handa sér.

Þar er nú prýðin fljóða frægst,
móðurorð blíð á mjúkum vörum,
málfærið þýða, ljúft í svörum,
upplitið fríða, ástarnægst.

Seinna meir skaltu sama veg;
raunar er kalt í rúmi þröngu,
og rökkrið svalt, — en fyrir löngu
veiztu það allt eins vel og ég.

Nú færðu ekki að sjá um sinn
meira af rekkju móður þinnar,
maðkurinn þekkir skrautið innar. —
Því hlærðu ekki, herra minn?

---

## GAMANVÍSUR

TIL HALLDÓRS KR. FRIÐRIKSSONAR.

Dóri litli, dreptu yður
í dag eða gær, sem nú er siður;
enginn kveður þig upp né niður,
ef þú ferð að lifa mig;
vonin okkar! vara þig!
Eg skal gera átta kviður,
ef yður væri dáinn.
Komdu á skjáinn! Komið þér á skjáinn!

Það er illt að læra lengi,
létt er þaufið heimsku mengi;
sá sem rær og ristir þvengi
af ræfli þeim, sem heitir trú,
japlar eins og ég og þú;
hinir lifa í góðu gengi,

gotuna sem að snapa
undir Stapa, undir Vogastapa.

Hvað er þetta? Boli eða bokki,
bukkur eða hjól í rokki?
Eða skyldi skekið í strokki
í skjólinu við gluggann minn?
Ekkert vit ég í því finn.
Nú er eins og *h*nældu-hnokki
*h*nerti lær á kellu!
Skotið mellu! Skotið eins og mellu.

Myndi það vera illur andi
eða sál úr dauðra landi
eða sjálfur svarti fjandi
syngjandi við þetta lag
raunalegan rellubrag? —
Ég er ær og ekki í standi
að yrkja um þetta meira;
leggst á eyra, leggst á kalið eyra.

---

## EIN VELMEINT BÆNARÁMINNING

TIL G. M.

Með lag: „Við urðar situr uppi brunn“, eða þó fremur: „Nú bið eg, guð, þú náðir mig“.

Þegar þú kemur þar í sveit,
sem þrímennt er á dauðri geit,
og tíkargörn er taumbandið
og tófuvömb er áreiðið,
og öllu er snúið öfugt þó
aftur og fram í hundamó,
svo reiðlagið á ringli fer
og rófan horfir móti þér, —

veittu þeim draugi blundar-bið,
bölvaðu ei né skirptu við;
en signdu þig og seztu inn
sunnan og fram í jökulinn;
lúttu þar að, sem loginn er,
og láttu bráðna utan-af þér,
og seinna, þegar sólin skín.
sendu geisla með boð til mín.

---

## IÐRUNARVÍSUR

TIL GÍSLA ÍSLEIFSSONAR.

Eg á bágt,
  mér er amað allt um kring,
innra lágt
  einhver hulin tilfinning:
Gísli minn,
  get ég hafa gjört þér mót?
Æ, minn vin,
eg vil gjöra yfirbót.

— — — —

## ÓLÁN!

Hraparlegt ólán, að á hvítasunnu
einhver mannskratti segir fyrst í hljóði,
— taktu það ekki illa upp, karl minn góði! —
ég vilji ólmur eignast hana Gunnu.

Svo er nú kann-ske kallað o'n-í tunnu,
svo fregnin berist fljótt um Víkur stræti;
svo kom upp óp og ys og borgalæti,
rétt eins og þegar Barnhýsingar brunnu.

En það kom í mig hræðsla, og fór að hrína;
hefði það svo sem verið eitthvað — — — —

---

## GRENIÐ.

Komið er að dyrum,
kallað er úti,
skotmaður spyr:
Er skolli heima?
Lambsfót sé eg liggja
og legg úr sauði,
ræfil af rjúpu; —
reiður er eg þér!

*Tófa* (inni fyrir):
Heima segi eg mig.
Heill og sæll, vinur!
gestur inn göfugi,
gakk nú til stofu.
Dyr eru lágar,
dimmt er í húsi
fáráðs frumbýlings;
fyrirgefðu það.

*Skotmaður:*
Út er að ganga
og undir renna
vopn voveifleg
og að velli falla;
báðu mig bændur
belg þinn að hrjá
og blóðdrekki
að bana verða.

*Tófa:*
Annt er mér inni
í ofan hrundum
urðar hóli
orpnum moldu;
margs ber að gæta
móður ungri
sona fjögra
og sex dætra.

Ein sit eg inni
og annast hlýt
kafloðna hvolpa
í krá dimmri;
hlaupa þeir um holur
hrökklast þeir í gjótur,
steðja þeir um steina,
stunda á útkomu.

Höfuðlaust heita
heimili má,
er bóndinn er
á burtu genginn;
rann refur minn
til rjúpna-veiða,
búi sínu
bjargir að fá.

---

## AUGUN ÞÍN.

---

Kærðu þig ekki neitt um neitt,
þó nú sé farið að verða heitt;
brenndu mig upp til agna.
— — — —

Augun raunar eru þín,
upplitsbjarta stúlkan mín,
hitagler, ef hlýna;
sólargeislum innan-að, —
eg er búinn að reyna það,
safna þau, svo bríma-bað
brennir vini þína.

---

## ÚR KVÆÐI UM VÍKINGAFERÐIR.

*R.:*

Seg oss lengur sögu;
sælt er á að hlýða
þrautafarir þínar,
þrekverk öll að vita,
meðan sólin sígur
sæl í djúpar unnir
og á heiðum himni
hvítur lýsir máni.

*Á.:*

Skemmtir það litlu lambi,
líti það varga bítast?

*R.:*

Ojú, Ásmundur,
ef það stendur
óhult innangarðs.
Óhultur nú
héðan af ertu,
því héztu mér,
aldrei að velkjast
í víkingu framar.

# Í ÖXNADAL.

Þar sem háir hólar
hálfan dalinn fylla,
þar sem hamra-hilla
hlær við skini sólar
árla, fyrir óttu,
enn þá meðan nóttu
grundin góða ber
græn í faðmi sér.

## UPPHAFIÐ AF „CARRIC-THURA“.

EFTIR OSSIAN.

(Breytt).

---

Hvort ertu hniginn
af himin-stöðvum,
gullhærði röðull,
og götum blám?
Nú hefir vestur
votum hjörum
svefngrindum snúið
og sæng þér gjörva.

Velta öldur
að veðhlaupi,
fýsast þig allar
fyrstar um sjá;
hægt þær hefjast
með hafriðu
og halla höfðum
að helgri sjón.

Fagurt er að líta
á ljós-geislum
hvílu hafða,
hægt blundandi,
brosfagra sól,
bregður öldum,
bráð er burtför,
brennur ísgrá kinn.

13*

Fellur þá faldur
inn fagurreifði
hallur af höfði
hafi bornri mey;
þýtur í flótta
þrungin mæði,
felmtruð áður felst
í faðmi móður.

Blunda þú vært
í blæjum svölum,
ylsköpuður!
und unnum blám;
hafin er höll þín,
hvílir þögn yfir,
en aldin værð vakir
að védyrum.

---

Heim sé eg hverfa
á himin-ásum,
daprar eru stjörnur,
dagsbrún veldur;
nú muntu, ljósfari,
á loft um stiginn;
leiddu þá und armi
unað, — hár glóa.

---

## PHYSICA NECESSITAS.

Má-at inn megin-
máttki guð
vindi valda,
þeim er fer vog yfir;

né um varnað fær
vetrar-stundum,
þeim er í árdaga
áður skóp*).

---

## KVÆÐI EFTIR HORATIUS.

### I.

CUR ME QUERELIS etc.
(Upphafið).

Hví með sárum þú
sorgartölum
dapran dauða
dregur mér um höfuð?

Er-a það goða
né mín eigin vild,
að þú mér fyr úr heimi hallist,
Mæcenas!
minn mikli sómi,
vernd og styrktar stoð.

Helft míns hjarta!
hrífi þig á braut
skjótar skapadægur,
hve um skerður
þann skilnað lifa
minnur ástsæll má eg?

---

* Vide Plutarchi Cæsar, cap. 37: ὥραν δὲ χειμῶνος καὶ πνεύματος ἐν θαλάττῃ καιρὸν οὐδὲ θεῷ βιάζεσθαι δυνατόν.

Ótrúan eið
hefi eg ei svarið;
nær þú burtu býst,
förum og förum
fúsir ganga
helveg að hlið vini.

Er-a sú vættur,
að mig af þér slíti; —
svo hafa okkur sköp á skilið; —
ekki eldgálkn
eða, upp þótt rísi,
hundraðhentur þurs.

## II.

QUIS MULTA GRACILIS.

Hver er hinn ungi,
ilmsmurði sveinn,
er á rósa-reit
ríkum og mjúkum
faðmar þig fast,
undir fögrum skúta,
svölum og sælum?
Seg mér það, Pyrrha!

Lokka ljósgula
leysir þú, honum
skemmtunar skoðun,
skart þitt óbrotið.
Ó, hve oftlega
ástir rofnar
og gremi goða
hann gráta skal!

Dynjandi dröfn
fyrir dimmum vindi
undrast hann, úfnum
óvanur sjó,
sá er nú nýtur
náveru þinnar
og gulli hreinni
þig getur vera.

Einum hann vonar
þú unir sér
æ, og aldregi
öðrum sinnir;
veit hann víst eigi,
að veður hvikult
skamma stund skipast
í skýlofti.

Aumir eru allir,
óreynd er þú
ástar alglæst
í augu gengur.
Forðað hef ég feigu
fjörvi mínu,
sem á hám, helgum
hofsvegg má sjá.

Hangir þar heitspjald
hermandi svo:
að ég efnt hafi
upp að festa
sjóföt mín samtöld,
salti drifin,
drottni djúps
til dýrðar ríkum.

## LOFSÖNGUR.

EFTIR CLAUS FRIMANN.

Líti ég um loftin blá
skýin, sem sigla fram silfurglitaðan boga,
hálftungls gullnu hornin á,
herinn stjarna, þann tindrandi loga,
þrungna þrumu-heimkynnið,
þar sem að skruggan skæð skekur dunandi hamar,
rekur fjalli högg á hlið,
hittir skóginn og stórviðu lamar:
    Þú ert mikill, hrópa eg hátt
    himna guð! ég sé þinn mátt;
    fyrir þinni hægri hönd
    hnígur auðmjúk í duftið mín önd.

Líti eg langt um útþönd höf,
þar er skjót skipamergð skundar vængjuðum húnum,
sökkur djúpt í sjávar gröf,
sést svo aftur á aldnanna brúnum,
þar er sé ég sverðfiskinn,
hnúðurbak, hrosshvelið hart við stökkulinn glíma,
þar er flögur-flokkurinn
ferðast rjettum á vegi og tíma:
    Þú ert mikill, hrópa eg hátt
    hafsins guð! ég sé þinn mátt;
    sjór og hvað þar inni er
    órækt vitni um guðdóm þinn ber.

Líti eg liljum skrýdda jörð,
skoði ég skóg og strönd, skoði eg dali og fjöllin;
skoði eg bugðu-breyttan fjörð,
breiðar elfur og vatnsbunu-föllin,
skoði eg skepnufjöld ótal,
allt frá þeim ormi, sem undir duftinu skríður,

yfir féð í fögrum dal
fjær til himins þar beinfleyg örn líður:
    Þú ert mikill, hrópa eg hátt
    heimsins guð! ég sé þinn mátt;
    lofið, himnar, haf og jörð,
    hann, hvers mætti þið af eruð gjörð!

---

## Í KIRKJUGARÐINUM.

ÚR „ALADDIN".

EFTIR ADAM OEHLENSCHLÄGER.

Bíum, bíum,
barnið góða!
sofðu nú sætt
og sofðu lengi,
þó að höll
og hægindislaus
og grafkyr
í grundar skauti
vagga þín standi;
vertu í ró.

Heyrirðu stynja
storminn úti
yfir mínum
missi þunga,
og átfreka
yrmlinga-fjöld
furu-kistu
kroppa þína?

Nú kemur inn hljóðfagri
næturgali.

Verð ég að víkja
vöggu þinni frá;
kalt er að búa
við brjóst þitt, móðir,
og ég á mér
ekkert hæli
aftur að verma
inni mig.

Bíum, bíum,
barnið góða!
sofðu nú sætt
og sofðu lengi,
þó að höll
og hægindislaus
og grafkyr
í grundar skauti
vagga þín standi;
vertu í ró.

---

## KVÆÐI EFTIR SCHILLER.

### I.

DAGRÚNAR-HARMUR.
(Die Kindesmörderin).

Heyri eg kirkju
klukkur dimm-gjalla;
vísir er runninn
vegu sína alla.
Sé það svo, — sé það
svo í guðs nafni!
Líkmenn! leiðið mig
á legstað aftöku.

Heyrirðu mjúkan
munaðarklið?
Var það áður,
er þú vaggaðir mér;
nú skal ég, veslingur!
vagga þér aftur.

Hresstu huga þinn
hans við söng;
allt skal eg þér
til yndis velja;
heyrirðu dimma
við dauðans hlið,
barn mitt, hringja
bjöllu þína?

Sé ei hjarta þitt
hart sem steinn,
sjáðu, móðir,
mína iðju:
ég skal af grátviðar
grein þessari
hljóðpípu smíða
handa þér.

Hresstu hug þinn
við hennar róm,
er hún einmana
úti kvakar
eins og vindur
á vetrarnótt
villur vakandi
í votum greinum.

Kyssi eg þig hinstum
kossi skilnaðar,
veröld! ó veröld!
væti eg þig tárum.
Sætt var eitur þitt,
er það nú goldið,
eiturbyrla
ungra hjartna!

Kveð eg yður, geislar
guðs sólar!
flý eg yður frá
í faðm dimmrar móður;
kveð eg þig, blómævi
blíðra ásta,
mey sem margblindar
munaðs töfrum.

Kveð eg yður drauma,
dregna gullstöfum,
himinbörn fögur,
hugarburði smáa,
dána blómknappa
í dagsljósi skæru,
aldrei um eilífð
aftur að gróa.

Sat eg fyr hvítbúin
sakleysis klæði,
rauðum reifuðu
rósa böndum:
brostu í ljósu
lokka safni
fögur blóm;
þá voru friðar-dagar.

Hræðilegt, hræðilegt!
helvítis fórn
situr enn í hvítu
sakleysis-klæði;
en í hinna rauðu
rósa stað
hrafnsvart líkband
er að höfði snúið.

Grátið mig, meyjar,
er guð veitti
sakleysis
síns að gæta,
er hin mikla
móðir léði
afl til að kefja
ólgu veiks hjarta.

Mannlega hrærðist
hjarta mitt áður;
nú skal mér blíða þess
banasverð vera.
Fláráðum manni
í faðm eg hneig;
dó þar Dagrúnar
dyggð í tómi.

Nú er eg úr höggorms
hjarta slitin,
þess, er aðra
ástum glepur;
veit eg hann brosir
og veigar kýs.
meðan eg geng
til grafar minnar.

Leikur hann að lokkum
ljósrar meyjar
kjassmáll og kyssir
og kossa þiggur,
meðan að bunar
blóð mitt unga
á hörðum höggstokki
hálsbenjum úr.

Friðþjófur fagri!
Á fjarlægri strönd
duni þér Dagrúnar
dauða hljómur,
gjalli ógnefldar
um eyru þér
söngdimmar bjöllur
úr sálarhliði, —

svo, er af mjúkum
meyjar vörum
ástar orð
þér unað færa,
særi hann harðri
helvítis und
yndis blóm ykkar,
svo þau öll hjaðni.

Hrærir þig að engu
harmur Dagrúnar —
svívirt meyja,
svikarinn vondi?
— barn okkar beggja?
eg bar það undir hjarta, —
allt, sem vargs vanga
væta mætti tárum?

Siglir hann, siglir, —
svífur skip frá landi,
grátþrotin augu
grimmum manni fylgja;
fláráður heilsar
á fjarlægri strönd
heitmey nýrri.
Svo er hjörtum skift.

Barnunginn blíði
bjó á móður skauti
ástfalinn ungri
algleymis-værð;
brostu björt augu
bláfögur móti
móður augum
morgunrósar.

Og ástfagur
allur svipur
auma margminnti
á mynd hins horfna;
varpar hann í brjóst
vesalli móður
ástar óviti
og örvæntingar.

„Hermdu mér, kona!
hver er faðir minn?“
svo spyr hin þögla
þrumurödd ómálgans.
„Hermdu mér, kona!
hver er maður þinn?“
Hló við helvíti
í hjarta mínu.

„Skelfing! ó skelfing!
skal til háðungar
föðurlaus sonur
að föður spyrja?
Bölva muntu
þínum burðardegi,
saurlífis sonur! —
ó svívirðu-nafn!

Brennur mér í hjarta
helvítis glóð,
einmana móður
í alheimi víðum;
sit eg síþyrst
að sælu-brunni,
er eg aldrei má
augum líta.

Æ! því eg blygðast
barn mitt að sjá;
rifjar upp rödd þín
raunir allar mínar,
barn! og úr blíðu
brosi þínu
hel-örvar harðar
á hjarta mínu standa.

Helvítis kvöl
er mér hann að þrá;
vítiskvöl verri
verða þig að skoða;
vondir eru kossar
vara þinna,
hans er af vörum
mér að hjarta streymdu.

Eiðar hans allir
í eyrum mjer hljóma, —
meineiðar allir
margfaldlega,
— allir um eilífð!“ —
Andskotinn þá
þreif mér þjófs-hönd lífs,
að þjakaði eg syni.

„Friðþjófur! Friðþjófur!
á fjarlægri strönd
elti þig vofan
hin ógurlega,
hrífi þig hvarvetna
helköldum greipum,
svifti þér sárlega
úr sælum draumi!

Stari þér í augu
úr stjörnu skínandi
helbrostið auga
hnigins sonar!
elti þig ógnmargt
um alheim víðan,
hneppi þig burtu
frá himindyrum!“

Sjáið og skiljið!
sonur mér að fótum
dauðsærður lá
og dreyra roðinn;
sá eg blóð blæða; —
blæddi þá ei minnur
fjör úr æðum
fáráðrar móður.

Harðlega knúðu
hurðir mínar
dólgar dýflissu;
dimmt var mér í hjarta;
flýtti eg mér fegin
í faðm dauða
sálar-bruna
sáran að slökkva.

Friðþjófur fagri!
faðirinn góði,
mildur miskunnar,
mannkindum vægir;
bið eg þann föður
þér fyrirgefa,
syndum særð,
sem eg sjálf það vil.

Gefa vil eg jörðu
grát minn og harm,
hefnd mína alla
og hjarta-þunga.
Nú hefi eg ljósan
loga kyntan,
fórn að færa
sem eg fremsta má.

Vel er og vel er!
vafin eru loga
bréf hans, og eiðar
eldi gefnir;
hátt loga kossar
heitir og sætir!
Hvað var mér á foldu
forðum kærra!

Trúið þér ei yðar
æsku-blóma, —
aldregi, systur!
eiðum manna.
Fegurð varð að falli
farsæld minni;
bölva verð eg henni
á blóðstöð aftöku.

Hvort er þér nú, böðull!
hungur í augum?
Bregðið mér bráðlega
bandi fyrir sjónir.
Hikarðu, böðull!
blómknapp að slá?
náfölur böðull!
neyttu karlmennsku.

II.

MEYJAR-GRÁTUR.

(Der Eichwald brauset).

Dunar í trjálundi, dimm þjóta ský; —
döpur situr smámeyja hvamminum í;
bylgjurnar skella svo ótt, svo ótt; —
öndinni varpar á koldimmri nótt
brjóstið af grát-ekka bifað.

„Heimur er tómur og hjartað er dautt,
helstirðnað brjóstið og löngunarsnautt.
Heilaga! kalla mig héðan í frá,
hef eg þess notið, sem jarðlífið á;
því eg hefi elskað og lifað“. —

„Tárin að ónýtu falla á fold,
fá hann ei vakið, er sefur í mold;
segðu, hvað hjartanu huggunar fær,
horfinnar ástar er söknuður slær, —
guðsmóðir vill þér það veita“.

„Tárin að ónýtu falli á fold,
fái hann ei vakið, er sefur í mold;
mjúkasta hjartanu huggunin er,
horfinnar ástar er söknuður sker,
á harminum hjartað að þreyta“.

### III.

#### ALHEIMS-VÍÐÁTTAN.

(Hugmyndin er eftir Schiller).

Eg er sá geisli,
er guðs hönd skapanda
fyr úr ginnunga
gapi stökkti;
flýg eg á vinda
vængjum yfir
háar leiðir
himinljósa.

Flýta vil eg ferðum, —
fara vil eg þangað,
öldur sem alheims
á eiði brotna,
akkeri varpa
fyrir auðri strönd
að hinum mikla
merkisteini
skapaðra hluta
við skaut alhimins.

Sá eg í ungum
æsku blóma
stjörnur úr himin-
straumum rísa,
þúsund alda
að þreyta skeið
heiðfagran gegnum
himinbláma.

Sá eg þær blika
á baki mér,
er eg til heima
hafnar þreytti;
ókyrt auga
sást allt um kring. —
stóð eg þá í geimi
stjörnulausum.

Flýta vil eg ferðum, —
fara vil eg þangað,
e k k e r t sem ríkir
og ó s k a p n a ð u r;
leið vil eg þreyta
ljóss vængjum á,
hraustum huga
til hafnar stýra.

Gránar í geimi, —
geisa eg um himin
þoku þungaðan
þjótandi fram;
dunar mér á baki
dökknaðra sólna
flug-niður allra,
sem fossa deyjandi.

Kemur þá óðfluga
um auðan veg
mér í móti
mynd farandi:
„Bíddu, flugmóður
ferðamaður!
Heyrðu! hermdu mér, —
hvert á að leita?“

„Vegur minn liggur
til veralda þinna;
flug vil eg þreyta
á fjarlæga strönd,
að hinum mikla
merkisteini
skapaðra hluta
við skaut alhimins“.

„Hættu! hættu!
Um himingeima
ónýtisferð
þú áfram heldur;
vittu, að fyrir
framan þig er
ómælis-undur
og endaleysa“.

„Hættu! hættu!
þú, sem hér kemur,
ónýtisferð
þú áfram heldur;
belja mér á baki
bláir straumar,
eilífðar ógrynni
og endaleysa.

Arnfleygur hugur!
hættu nú sveimi;
sárþreytta vængi
síga láttu niður;
skáldhraður skipstjóri,
sköpunar-magn!
fleini farmóður
flýttu hér úr stafni".

---

## KVÆÐI EFTIR JOSEPH ADDISON.

Festingin víða, hrein og há,
og himinbjörtu skýin blá,
og logandi hvelfing, ljósum skírð,
þið lofið skaparans miklu dýrð.
Og þrautgóða sól, er dag frá degi
drottins talar um máttar-vegi,
ávalt birtir þú öll um lönd
almættis-verk úr styrkri hönd.

Kvölda-dimman er kefur storð,
kveða fer máni furðanleg orð
um fæðingar-atburð, heldur hljótt,
hlustandi jarðar á þögulli nótt;
og allar stjörnur, er uppi loga
alskipaðan um himinboga,
dýrðleg sannindi herma hátt
um himinskauta veldið blátt.

Og þótt um helga þagnar-leið
þreyti vor jörð hið dimma skeið,
og öngva rödd og ekkert hljóð
uppheima-ljósin sendi þjóð,

skynsemi vorrar eyrum undir
allar hljómar um næturstundir
lofsöngur þeirra, ljóminn hreinn:
„Lifandi drottinn skóp oss einn!“

---

ÚR LEIKRITINU

## CARL DEN FEMTES DØD.

EFTIR CARSTEN HAUCH.

---

5. þáttur.

Snemma morguns, í birtingu, úti, nálægt Klöru-klaustri í Valladolid.

Gonzales. Alonzo.

*Alonzo:* Hver er þar?
*Gonzales:* Einn, sem
þig engu varðar!
*Alonzo:* Gonzales, heyri eg,
mér gegnir nú.
*Gonzales:* Hann að vísu.
En hver ert þú?
*Alonzo:* Vinur keisarans.
*Gonzales:* Vitum hann dauðan.
*Alonzo:* Svo er það sagt
og sízt að dylja,
hentleg að heimför
hans er orðin.
*Gonzales:* Ert þú hér kominn
Alonzo?
*Alonzo:* Heyrðu! —
*Gonzales:* Nú grær grund
yfir gröf vors herra.
*Alonzo:* Heyrðu, Gonzales,
hún er mér sögð

ekki auðfundin
undir moldu.
*Gonzales:* Ég við skiljumst.
*Alonzo:* Ég held það með.
*Gonzales:* Ætlan okkar
er upp að vekja
grafbúa dauðan,
get eg að sé?
*Alonzo:* Það er og mest
mér í skapi.
*Gonzales:* Full hef eg fimm hundruð
fylgdarmanna,
einbeitt lið
allt að reyna.
*Alonzo:* Þei, þei, einhver
er hér á slóðum.
Gætum vor, Gonzales,
göngum úr vegi.

(Þeir skýla sér bakvið klausturmúrinn).

Filippus. Carranza erkibiskup.

*Carranza:* Herra konungur!
Hvort má nú dirfast
eg að trúa
augum mínum?
Svo er mér hugtítt
um heilsu yðra,
að eg í auðmýkt
andsvars að leita,
dýrstur einvaldur,
dirfast hlýt:
Hvað hefir úr húsum
höfðingjann þjóða,
aldrei sem áður
var einn á ferð, —
hvað hefir úr húsum

höfðingjann góða
langt of leitt
lífvarða sinna
dökkum alfalinn
dularklæðum,
kallað út svo,
að koldimmri nótt
og flærða-fullri
sér fyrir trúir?
Virðist, ó virðist
hinn vegsamlegi
satt mér að segja
það er sízt eg skil.

---

## SMÁKVÆÐI EFTIR HEINE.

I.

Ómur alfagur,
ómur vonglaður,
vorómur vinhlýr
vekur mér sálu;
ljóðið mitt litla,
léttur vorgróði!
lyftu þér, leiktu þér
langt út um sveit.

Hljóma þar að húsum,
er heiðfögur
blómin í breiðri
brekku gróa;
lítirðu ljósasta
laukinn þar,

berðu, kært kvæði!
kveðju mína.

II.

Berst mér þá hjarta,
hugur er á reiki,
þá er mál munni
mínum horfið,
bláeyg, bjarteyg,
brosfögur mær,
inndæl, ástúðleg
er á mig lítur.

Augun þín blá
fyrir augum mér
sædjúp og hrein
sí og æ standa;
bláöldur blíðastar
blárra drauma
hjartað mitt ungt
yfir haf bera.

III.

ÁLFAREIÐIN.

Stóð ég úti í tunglsljósi, stóð ég út-við skóg; —
stórir komu skarar, af álfum var þar nóg;
blésu þeir á sönglúðra og bar þá að mér fljótt
og bjöllurnar gullu á heiðskírri nótt.

Hleyptu þeir á fannhvítum hestum yfir grund, —
hornin jóa gullroðnu blika við lund, —
eins og þegar álftir af ísa grárri spöng
fljúga suður heiði með fjaðraþyt og söng.

Heilsaði hún mér drottningin og hló að mér um leið,
hló að mér og hleypti hestinum á skeið.
Var það út af ástinni ungu, sem ég ber?
Eða var það feigðin, sem kallar að mér?

## IV.

### NÆTURKYRÐ.

Ganga gullfætt
um götur bláar
og læðast léttfætt
ljósin uppsala;
varast smástjörnur
að vekja sofandi
foldina fögru
faðmi nætur í.

Hlustar hinn dimmi
Dalaskógur,
öll eru lauf hans
eyru grænlituð;
sefur nú Selfjall
og svarta teygir
skuggafingur
af Skeiðum fram.

Hvað er það er eg heyri? —
Hljómur ástfagur
og blíðmælt bergmál
í brjósti mínu.
Eru það orð
unnustu minnar
eður sælla
söngfugla kvak?

## V.

### STRANDSETAN.

Hvítur í lofti ljúfu
líður í næturblæ
már yfir myrku djúpi;
máninn er hátt yfir sæ.

Hákarl úr hafi lítur
og horfir upp að bæ;
már yfir miði grúfir;
máninn er hátt yfir sæ.

Sálin mín *h*vikula, kæra!
þú kvíðir sí og æ;
mundar-nær mari þú situr;
máninn er hátt yfir sæ.

## VI.

### MÁRINN FORVITNI.

Márinn, hann vita vildi, hvað
af vörum fögrum streymir þér,
þig er hann sér á þessum stað
þrýsta þeim fast á eyra mér.

Márinn flögrar við fjöruborð,
forvitinn spyr hið ljósa kvöld:
„Mundu það vera eintóm orð,
eða brennandi kossafjöld?“

Sízt veit nú, kæra, sálin mín,
hvað svo mér friðar hug og geð;
orðin kossunum eru þín
svo undarlega vafin með.

VII.

Hispursmey stóð við ströndu
og stundi þungt og hátt;
því sólin var að setjast
við svala vesturátt.

Hispursmey, verið hressar!
hér á ég góð kann skil:
röðullinn rennur frammi
og rís hér baka til.

VIII.

Fegin í fangi mínu
felur þú augun þín;
þinn er ég himinn og þú ert
þekkasta stjarnan mín.

Djúpt undir okkur iðar
ósnotur manna her,
aggast og æðir og blótar
og allt hefir rétt fyrir sér.

Í fíflúlpum þeir flaksast
og finnast, og allt í einu
hlaupast á eins og hrútar,
svo höfuðin verða ekki að neinu.

Sæl erum við í sóla-
-sali þeim látum fjær;
þú hylur í himni þínum
höfuð þitt, stjarnan mín kær!

IX.

VORVÍSUR.

Vorið góða, grænt og hlýtt,
græðir fjör um dalinn;
allt er nú sem orðið nýtt,
ærnar, kýr og smalinn.

Kveður í runni, kvakar í mó
kvikur þrasta-söngur;
eins mig fýsir allt af þó
aftur að fara í göngur.

X.

Lán, er vilt ei láta mér,
leikinn vil eg skakka þér; —
gríp eg þig með hörðum höndum,
hertek þig og reyri böndum.

Fella skal eg ok þig á,
erja og sveitast skaltu þá;
loks úr mæddri mundu fellur
mækir þér, — en und mér svellur.

Blóðrás döpur mæðir mig,
mitt á köldum banastig
hlýtur að slokkna lífið ljósa;
læzt eg í því eg sigri hrósa.

XI.

Kveðið í útlegð.

Hlegið var og sungið, —
úr heiði skein,

lék að ljósgeislum
á legi sunna;
bárur fluttu bát
borða milli
vonglöðum varinn
vinum mínum.

Brotnaði bátur
í bermola; —
var lítt lagið
lagsmönnum sund; —
fórust þeir farvana
á fósturjörðu.
Sveif mig úr svaki
að Seinar-strönd.

Nú er eg stiginn
á nýja súð
öðrum með ýtum;
öldur mig bera
ókunnar allar
aftur og fram;
harla fjær heimkynni
að hjarta þröngir.

Hlæjum enn og syngjum
og á haf leitum!
Belja brimhviður,
brakar í kili;
slokknar á himni
stjarnan seinasta;
þröngir að hjarta
heimkynni fjær.

## XII.

### STRIT.

(Brot úr kvæði).

Sól rís sæl
úr svölum straumum
austurdjúps,
að eyða dimmu;
leiðinda langverk
á ljósgjafi:
heimskan hnött
úr húmi að slíta.

Er þú glöðum
geislum hefir
hálfan heim
himni unnið
og skundar skært
skin margauka,
æ og sí austræn
þig eltir nótt.

Stritar við stein
sterkur Sisýfus,
dætra Danausar
drýpur æ úr keri,
svo veltir sífelt
sér úr ljóma
sjálfri fold
í sorta nætur.

## XIII.

### SÆUNN HAFKONA.

Þokan yfir vík og vogi
votu fangi þögul grúfir,

gnauðar fyrir svölum sandi
sjór, en þegja vindar ljúfir.

Báran smáa strýkur steini
(steinn er fyrir þangi bleikur)
eins og sér á köldum karli
konan ung að hári leikur.

Hvað er á vogi? Hafmey fögur!
Hratt hún fer og snýr að landi,
leika fyrir björtu brjósti
bárur ungar síkvikandi.

*Skáldið:*

Hafmey fögur! Hvaða, hvaða!
hárið bleikt af salti drýpur;
vel skal strjúka vota lokka
vinur þinn, sem hjá þér krýpur.

*Sæunn:*

Djúpt á mjúkum mararbotni
marbendlar mér reistu höllu;
hingað svam eg hafs um leiðir,
hárið er því vott með öllu.

*Skáldið:*

Hafmey fögur! Hvaða, hvaða!
hönd og fótur, — aldrei slíka
sá eg mynd í sólarheimi;
sinn þau eiga hvergi líka.

*Sæunn:*

Ein er gyðjan öllum fremri,
áður löngu úr hafi gengin,

fljóða prýði, fíra gleði,
fegri mér, og síðan engin.

*Skáldið:*

Hafmey fögur! Hvaða, hvaða!
háls og brjóst að þúsundföldu
álitlegri eru og skærri
en Albert hjó úr steinum völdu.

*Sæunn:*

Ástarguð við brjóst mér beygði
boga sinn í fyrri daga,
fyrirmynd því fann hann enga
fegri; — það er gömul saga.

*Skáldið:*

Hafmey fögur! *H*vaða, *h*vaða!
köld ert þú sem mjöll á ísi;
enginn roði kviknar á kinnum,
kærum yl þótt augun lýsi.

*Sæunn:*

Bý ég undir kristalls-krossi,
kaldri skemmu straumar svala;
bleikar eru báru dætur,
blóðið er rautt í þernum dala.

*Skáldið:*

Hafmey fögur! Hvaða, hvaða!
hjartað slær og berst af mæði;
hallaðu að mér höfði þínu,
hvíldu þig svo og þiggðu næði.

*Sæunn:*
Hjartað berst og hjartað titrar,
hjartað slær og berst af mæði;
því eg ann þér miklu meira,
mannsmynd kær, en um eg ræði.

---

## ILLUR LÆKUR!

Kveðið eftir þjóðkunnu, spánsku kvæði.

---

Lækur rennur í lautu,
liggur og til þín sér:
Allt af eftirleiðis
eg skal gá að mér.

Nú fór illa, móðir mín!
mér var það samt ekki að kenna;
sástu litla lækinn renna
græna laut að gamni sín,
breikka þar sem brekkan dvín,
bulla þar og hossa sér?
Vertu óhrædd, eftirleiðis
eg skal gá að mér.

Lækur gott í lautu á,
leikur undir sólar-brekkum,
faðmar hann á ferli þekkum
fjóla gul og rauð og blá;
einni þeirra eg vil ná
og svo skvettir hann á mig.
Illur lækur! eftirleiðis
eg skal muna þig.

Klukkan mín svo hvít og hrein,
hún er nú öll vot að neðan;

hefðirðu þá heyrt og séð 'ann,
hvernig ertnin úr honum skein;
ég hef orðið ögn of sein,
og svo skvetti hann á mig.
Illur lækur! eftirleiðis
eg skal muna þig.

Lækur fer um lautardrag, —
leikur sér að væta meyna,
þegar hún stígur þar á steina;
það er fallegt háttalag!
Ég fer ekkert út í dag,
uni, móðir góð! hjá þér.
Vertu óhrædd, eftirleiðis
eg skal gá að mér.

---

## ÉG VIL KYSSA!

EFTIR ADELBERT von CHAMISSO.

---

Ljúfi! gef mér lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum!
Vel eg mér hið væsta hnoss, —
vinur! gef mér lítinn koss!
Ber eg handa báðum oss
blíða gjöf á vörum mínum.
Ljúfi! gef mér lítinn koss,
lítinn koss af munni þínum!

Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda,
listin sú ei leiðist mér,
leikur kossa fimur er,

einatt reyni eg það hjá þér, —
þiggja, taka, endurgjalda.
Leikur kossa lipur er,
lætur þeim, er á kann halda.

Vinur! gef mér enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum!
— einn fyrir hundrað, ungur sveinn!
einn fyrir þúsund, — réttan einn!
Einn enn! þú ert ofur seinn,
eg er betur greið í svörum.
Vinur! gef mér enn þá einn
ástarkoss af ríkum vörum!

Rétt sem örskot tæpur telst
tíminn mér við kossa þína;
tíminn, sem ég treindi helzt,
tæplega meir en örskot dvelst;
sárt er að skilja, gráti gelzt
gleðin, — þiggðu kossa mína!
Rétt sem örskot tæpur telst
tíminn mér við kossa þína.

Kossi föstum kveð ég þig,
kyssi heitt mitt eftirlæti,
fæ mér nesti fram á stig, —
fyrst ég verð að kveðja þig.
Vertu sæll! og mundu mig,
minn í allri hryggð og kæti!
Kossi föstum kveð ég þig,
kyssi fast mitt eftirlæti.

---

## NIHILISMI.

Brot eftir Ludwig And. Feuerbach.*)

Ó mikli guð!
ó megn hörmunga!
ekkert að ending,
eilífur dauði;
sálin mín blíða
berðu hraustlega,
sárt þótt sýnist,
sanninda ok.

Eilífð á undan
og eftir söm, —
orðinn að engu
og ósjölfur!
Það getur þér augu
þvegið hrein,
ljós veitt og lá
og litu góða.

Ljós er alls upphaf,
ekkert er bjart,
ljóstær er þeirra
lífs uppspretta;
upphaf er ekkert,
ekkert er nótt,
því brennur nótt
í björtum ljóma.

---

*) Gedanken ueber Tod und Unsterblichkeit. Aus den Papieren eines Denkers.

## UPPHAFIÐ AF „ABELS DØD“.

EFTIR FR. PALUDAN-MÜLLER.

---

Uppi stóð Kain
og á hlýddi
grama guðs dóma,
glataður, rekinn,
útskúfaður einn
öllum í heimi.
Skalf hann og skarst hann
og skyggndist um,
og á frám fótum
flótta sinn hóf.

En á græna
grundar hvílu
bleikur bróðir
var í blóð hniginn;
Abel að annast
ástúðleg kom
móðir manns sona
mjúkhent sjúkan.

Álengdar hún sá,
að upp lyfti
hjartkærum syni
hennar í móti
heiftar hendi
hárri bróðir;
að kom þar Eva,
er hann öndu sleit.

Farið er fjörvi; —
fagur titrar,

ungur ástarson
andar þungan;
rennur rautt blóð
úr rofnum vanga,
lokki ljósgulum
lit festir á.

---

## ARNGERÐAR-LJÓÐ.

EFTIR P. L. MÖLLER.

---

I.

Fædd er eg þar sem fjallatindur
fólgið ylgott hreiður ber,
skjótt inn hvassi hvirfilvindur
hossaði mér í fangi sér;
breiðir og greiðir vængir verða,
væn úr hreiðri móðir sá
mig að fara minna ferða
megni vinda ósamgerða
hátt yfir ský að heiði blá.

Dunaði loft um dökkar fjaðrir,
dimmum stormi fló eg gegn,
sólin há, og engir aðrir,
augna minna glæddi megn;
þekkti eg hættu ei né ótta,
æ á flugi glöð og hlý,
lítið hremmdi eg lamb á flótta,
lyfti því upp til sólar-gnótta,
drakk þar barka-blóð úr því.

Einhvern daginn ofan fló eg
ilskuramma jörð að sjá;

eldur og hvellur — og svo dó eg,
allt varð dimmt, eg féll í dá;
lík hef eg verið lágt á jörðu,
legið í rauðu blóði þar;
vaknaði svo til harma hörðu,
hjarta mitt er sundur mörðu.
Hví dó eg ei til eilífðar?

Vaknaði eg í hörmum hörðum;
heil var sál, en megni stytt;
hnjúkur minn með hamragörðum!
hvar eru skýin, yndið mitt?
hvert er horfin gleði geima,
góði fjaðurhamurinn?
Eg, er svam um sólarheima,
sit nú, orðin stúlkufeima,
eins og gimbur grannvaxin.

Hrynur mér af höfði niður
hárið sítt og mjúkt og ljóst,
varla þolir veðrahviður
varið líni meyjarbrjóst;
fyrir háan himinboga
hef ég fengið bæ og fjós,
fyrir bláa bergið troga-
-búr, og dapran hlóðaloga
fyrir skærust skrugguljós.

II.

Ó, að þeir fjötrar aftur brystu!
Ó, eg lifði þá sælutíð,
að mig vindarnir aftur hristu
eldinga gegnum dyn og stríð!
Ó, að flugvana fjaðrir spryttu

fram um mjallhvíta öxl og háls!
Ó, að vindar mig aftur flyttu
upp yfir höfði glaðrar skyttu,
skundaði ég um skýin — frjáls!

Ónýtis til mín löngun leitar
ljósu heimkynni mínu ná,
vart yfir mínar varir heitar
veldur hún sér í skýin há,
flugsterka vængi fyrir, greiða,
fékk eg handleggi mjúka, smá,
sem megna eg ekki móti breiða
manni kærum og sælan neyða
mínum að brenna munni á.

Frjálsa lofthafið, föðurbólið,
fríðan og breiðan himingeim,
mist hefi ég og móðurhólið;
mannkinda hrakin niður í heim
hlýt eg að sitja í svartri treyju
saman við smá og huglaus börn
og kúra hér á kaldri eyju,
kalla mig allir fagra meyju
og vita ekki, að eg er örn.

---

## DEN 19DE JUNI 1829

(da det regnede).

---

Hvi saa mørk, o Himmel, hvorfor græde? —
Hoppe gaar dog ikke straks i Dag. —
Klar din Bue! Kom, o Vind, med Glæde,
kom at vifte gennemblødte Flag.
Maa du end din Æt, din Hoppe, savne,
ikke derfor svandt, o Land, dit Haab!
Han, som kom, han ved og vil os gavne.
Vi modtage ham med Fryderaab.

Gammel Ø, med isbesatte Kroner,
Ingolvs kolde, bølgeskyldte Strand,
fjernet langt fra hine hede Zoner,
hilser da sin nye Stiftamtmand.
Dig, o Krieger, dig os Kongen giver;
du os lette Hoppes tunge Savn;
vær os Kriger, værn om os med Iver,
og vi skal nævne en Klippe ved dit Navn.

---

## VED EN FEST I REIKEVIG

I ANLEDNING AF PRINS FERDINANDS FORMÆLING.

---

Ensom, halvset af Himlens Sol,
højt under Nordens kolde Pol

Bjergøen frem af Bølgen rager,
den barske Storm i Fjældet knager
fra kolden Pol.

Ned fra knejsende Klipperad,
hvor Kæmper ofte í Natten sad,
tordnende Elv saa traurigt bruser,
og tungt genstønne vilde Sluser
et Oldtids Kvad.

Og tit en Aand ved ukendt Navn,
som ensomt vogter Fødestavn,
set gennem Taagesvøb, begræder
den svundne Styrke, glemte Hæder,
det faldne Navn.

Men tit der ruller Tordenbrag,
der truer alt med sidste Slag;
en himmelsk Lue højt sig tænder,
se Haabets Ild paa Fjældet brænder, —
en Højtidsdag!

Se, Glædens Lys fra Strand til Strand
straaler over det elskte Land.
Saa kær er nu de Klippers Susen,
saa klar er dine Elvers Brusen,
vort elskte Land.

Og højt i alle ædles Bryst
i Øens Dal. paa Fjæld og Kyst
staa Hjerter fulde af Fryd og Ære
for Frederik den ejekære,
de danskes Lyst.

Ren er den Fryd, som Strand fra Strand
nu straaler over elsket Land!
Alle for Folkets Fader bede,
for Frederiks Datter, Landets Glæde,
for Ferdinand.

Ja, Himmel, du har hørt vor Bøn!
Himlen velsigner Christians Søn;
giv Kongehuset glade Dage,
giv Danmark alt sit Ros tilbage
til Retfærds Løn.

---

## JULESANG FOR BØRN

ved Bal 1829.

Festlige, favre Dage,
saa fulde af Munterhed
I svandt! I svandt saa fage
og sank i Vesten ned!
Nu stimle op af østlige Vover
alle Stjerner smaa;
de vil mens Dagen sover
danse paa Himlens Blaa.

Men Julens stille Stjerne
den staar i delte Sky
og smiler fra det fjerne
henover Land og By;
langt udi Østerlande
den søger paa Bjerg og Skov
og vil over Hytten stande
hvor Julebarnet sov.

Smil ned, du Nattens Lue,
smil ned til dunkle Jord
fra Himlens høje Bue,
hvor Herren oppe bor,
hvor snehvide Englebørn danse
paa Maanens gyldne Rand
og række Stjernekranse
til Jordens frelste Mand.

Blandt dem skal alle komme,
som elsked Far og Mor,
var glade, gode, fromme
og gavned her paa Jord.
Der faar de paa Sølv-vinger svæve
i Solens Flammeskær
og danse, og lege og leve
hos Lysets Fader kær.

Du skønne, skyldfrie Glæde,
som skænktes Jordens Søn,
lad ingen, — ingen græde,
lad ingen sørge i Løn!
Luk trættes Øjenlaage,
o, lad dem slumre i Fred. —
Men vi skal danse og vaage;
værn om vor Munterhed!

*Pigerne:*

Vi gaa mod Glædens Alder
ved gode Mødres Haand.

*Drengene:*

Did hvor hen Kærlighed kalder
og knytter Rosenbaand.

*Pigerne:*
Se, Uskylds-englen smiler;
vi ane vor Fremtids Glans. —

*Drengene:*
O, kommer, kommer, iler! —
vi klappe op til Dans.

---

## IMPROMTU PAA BAL.

Vil du bytte Himlens Hal,
hvor de Stjerner ile,
med vort raske, muntre Bal,
hvor de skønne smile?
Himlen har vel smukke Ting, —
men Jorden har ej færre.
Tag kun Glasset, kom og kling,
tak saa glad din Herre. —

---

## SERENADE.

Skønne Pige,
hulde, elskelige,
tør jeg bringe dig en lille Sang?
Tør jeg røre
Strengen for dit Øre,
vil du gerne lytte til dens Klang?

Vil du lytte? —
Klage uden Nytte
skal ej sitre gennem Harpens Guld.

Hjertet bæver
vel, men Sangen hæver
sig fra rørte Hjerte, ren og fuld.

Rørte Hjerte,
med din søde Smerte,
med din bange Fryd, — o Hjerte, sig,
tør du tale? —
Tør du dristigt male
hendes Billed, som er alt for mig?

Hendes Billed, —
o, den Dag, som stilled
dette himmelskønne Ideal
for mit Øje —.
Engel fra det høje,
vandrer du i Jordens mørke Dal?

Skønne, blide!
Vaarens Liljer hvide,
Sommerrosen kan ej ligne dig;
smal i Midje,
rank som Skovens Vidje
svæver du ad Markens Blomstersti.

Som dit Øje
Stjernen i det høje
smiler ikke blidt i natlig Dans.
Lasten bæver,
naar du Blikket hæver,
Sorgen flygter for dets muntre Glans.

Glans, sem blænder, —
Jomfrukinden brænder.
Blide Toner hæve kyske Bryst; —

søde Stemme,
lad, o lad mig glemme
al min Smerte, aande salig Lyst. —

Hulde Engel!
Blomsten paa sin Stængel
ser dig venlig, bly og undselig.
Skønne, blide!
Vaarens Liljer hvide,
Sommerrosen kan ej ligne dig.

---

Strengen bæver —.
Hvi mon Sukke hæver
saa mit Bryst ved Harpens sidste Klang?
Skønne Pige!
Hulde! Elskelige!
Har du gerne lyttet til min Sang? —

---

## DEN 26DE MARTII 1831.

Vi her Anledning ser til Glæde
ved Mindet om en Fødselsfest. —
O, Munterhed, kom, tag du Sæde
og vær en ret velkommen Gæst.
Vor Stemme højt maa høres naar
vi nævner Ulstrup fylder Aar.

I dig, o Ulstrup, har vi fundet
en ædel Ven, paa Glæder rig;
du Venskabs Baand med os har bundet
og elskes af os inderlig.
Oprigtighed i Ordet bor;
bliv længe her hos os i Nord.

5. er., 4. l., er „-spellis“ í ehr. og frumútg., en „-spella“ í 1.—3. útg.; í 8. l. er „eiturblend“ í 1.—3. útg., en hér er fylgt ehr. og frumútg., nema að því leyti, að hér eru sett 2 orð fyrir 1 („eitriblend“, „eitriblend“). Í 7. er., 5. l., er „þar“ í ehr. og frumútg., en „þar er“ í 1.—3. útg. Í 8. er., 1. l., er „þröm“ í ehr. og frumútg., en „þremi“ í 1.—3. útg. Í 9. er., 7. l., er „sem að“ í ehr. og frumútg., „sem“ í 1.—3. útg. Í 12. er., 2. l., er í 1.—3. útg. „lognmegins“. Í 13. er., 4. l., stendur „er“ í 1.—3. útg. f. „nær“, sem er í ehr. og frumútg. Í 14. er., 6. l., er „fjöri“ í ehr. og frumútg., „fjörvi“ í 1.—3. útg. Í 15. og 18. er., 5. l., stendur „þar“ í ehr. og frumútg. f. „þar, er“, en í 1.—3. útg. „hvar“; í 8. l. er „hin“ sleppt í 1.—3. útg. Í 16. er., 2. l., „þás“, „þá“ í ehr. og frumútg., en „er“ í 1.—3. útg. Í 20. er., 8. l., ehr. og frumútg. „vígðu“, 1.—3. útg. „vígði“. — Í 3. útg. er „ofan“ breytt í „ofar“ í 1., 7., 15. og 20. er., 4. l.; „ofan“ er s. s. „fyr(ir) ofan“, sbr. „fyr ofan sæ“ í Ólafs drápu sænska eftir Óttar svarta.

Í 2. útg., bls. 393, er sagt, að Magnúsar-kviða sé ort „fyrir þá Viðeyinga“, og að Jónas hafi að sögn fengið 50 dali fyrir. Jónas hefir skrifað 7.—8. l. í 3. er. framan-á 1. bl. í vasakveri sínu frá 1840. Það er mjög sennilegt, að hann hafi ort eða ætlað að yrkja kvæðið þá um haustið. Af áfangaskrá hans í kverinu má sjá, að hann hefir farið út í Viðey 8. Okt., en óvíst er, hve lengi hann hefir dvalið þar. Verið getur, að Ólafur sekreteri Stephensen hafi þá beðið Jónas yrkja erfikvæði eftir föður sinn, því hann ætlaði senn að fara að gefa út öll erfiljóðin, sem ort höfðu verið, þegar Magnús féll frá, 17. Marz 1833. Sýnilegt er, að ehr. af Magnúsar-kviðu er ekki frá 1833—34, heldur einmitt frá síðari árum Jónasar, enda segir Páll Melsted yngri í bréfi til Jóns Sigurðssonar 1. Ág. 1842, að Jónas hafi þá „nýort drápu um Magnús konferentsráð, fallega að gagni. — Gísli Thorarensen ætlar að taka afskrift af henni og fara með hana“, o. s. frv. Sbr. Bréf P. M., bls. 30—31. — En svo menn geti séð, hvers virði bragarlaunin voru, má vísa til minnisbókar Jónasar, Bmf. 8, 8vo, sem hér er prentuð í III. b., bls. 260—66.

*Bls. 79—81.* — ALÞING HIÐ NÝJA. — Tvö ehr.; annað er á sérstakri smáörk (st. 20 × 16,6 cm) í J. S. 401, 4to, skrifað í 2 dálkum á 1.—2. bls. og 1 á 3.; en að öðru leyti er örkin auð; hitt er í sendibréfi til Konráðs Gíslasonar, skrifuðu á Stað á Ölduhrygg, 2. Ág. 1841 (sjá II. b., bls. 79—84). Þessi ehr. eru nærri samhljóða, nema 2 síðustu línurnar. Jónas hefir ort kvæðið veturinn áður, fyrir 6. Marz.*) Fyrir árin, sem hann var heima,

*) Sbr. bréf til Konráðs Gíslasonar þann dag, II. b., bls. 68—69.

1840—42, kom Fjölnir ekki út, eins og kunnugt er,*) og var kvæðið hvergi prentað fyr en Fjölnir hóf göngu sína á ný, með VI. árg., 1843; þar er það á bls. 7—10. Sbr. Fundabók Fjölnisfél., Eimr. 32. ár, bls. 271 og 273, og e. fr. bls. 276 og 361. Í þessari frumútg. í Fjölni er kvæðið dálítið breytt frá því, sem það er í ehr. Milli 2. og 3. er. er í þeim er., sem hljóðar svo:

Göfgan konung
sæmir gildur þegn,
vitran, vel kunnandi.

Frjálsan son getur
faðir alsnotur;
þý er þræla kyns.

E. fr. er í ehr. eitt er. á eftir því, sem í Fjölni og hér er 5. er.; er það því 7. er í þeim og er svona:

Ást mætir ást,
svo fær einn um laðað
hundrað — ótal huga.

Margur dropi
verður móða fögur
og brunar að flæði fram.

Þetta erindi hefir Jónas notað í „Kveðju“ til Uppsala-fundarins 1843, er hann orti fám mánuðum eftir að þetta kvæði var prentað; er það breytt þar, í 2. og 3. l., sjá bls. 119. — Aðrar breytingar eru þessar helztar: 5. er., 1. l., ehr. „búir“, f. „bý“; 3. l. „hver að hýsi“, f. „hvert að húsi“; 6. er., 3. l., í J. S. 401, 4to, er (líkl. óvart, sbr. 9. er., 5. l.) „steini“, f. „stóli“; 8. er., 4. l., „vita að“, f. „munu“; 9. er., 2. l., ehr. „göfgur“, f. „ríkur“; 10. er,, 7.—8. l. eru í bréfinu eins og í Fjölni og hér, en í J. S. 401, 4to, eru þær svona:

gramur hinn glöggsæi
góðráðan þegn.

Tilefni kvæðisins var úrskurður eða bréf Kristjáns konungs áttuna til kansellíisins, dags. 20. Maí 1840,**) þar sem hann bauð því að láta embættismannanefndina í Reykjavík ráðgast um, hvort ekki myndi vel til fallið, að sérstakt ráðgjafarþing yrði stofnsett á Íslandi, þing, þar sem við hlið nokkurra helztu embættismanna landsins, er konungur tilnefndi, gætu átt sæti hæfilega margir menn, er til þess yrðu kjörnir af íbúum landsins, en einkum myndi nefndin þá jafnframt þurfa að ráðgast um, hvort það þing ætti ekki helzt að nefnast alþing og vera háð á Þingvelli svo sem alþing fyrrum, og vera að öðru leyti svo líkt

---

*) IV. og V. árg., sem komu út meðan Jónas var heima, voru fyrir árin 1838 og 1839.

**) Sbr. Lovsaml. f. Island, XI., 614—28; útlegging í N. félagsr., I., 87—88.

háttað sem unnt yrði. Sbr. e. fr. Tíð. frá nefndarf. 1841, bls. 9—10, Skírni 1841, bls. 82—83, og nú ævis. J. Sig., II., 108 o. s. frv. Dönsk þýðing af þessu kvæði, nær öllu, er til, eftir Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 90—91).

*Bls. 82—83.* — HULDULJÓÐ. — Ehr. í K. G. 31 b V, sem er lítil skrifbók (st. 17,3 × 11 cm.), og er kvæðið á 16½ bls. fremst. — Síðar (8. Jan. 1844) hefir Jónas snúið bókinni við og byrjað að skrifa í hana hinu megin, að aftanverðu, ritgerðir, kvæði o. fl. Í bréfi til Konráðs Gíslasonar, dags. 6. Marz 1841 (II. b., bls. 68—69), skrifar hann: „Eg er nú — — — að yrkja „Hulduljóð".“ Hann virðist þó ekki hafa lokið við kvæðið fyr en nokkrum árum síðar;*) niðurlagið og vísur smalans, sem standa aftast, virðast jafnvel vera frá 1845, en af því að meginhluti kvæðisins mun vera frá því snemma á árinu 1841, er það sett hér í röð.**) — Handritið er frumrit, og mun Jónas aldrei hafa hreinskrifað kvæðið. Í 1. útg. (og síðan í 2. og 3., auðvitað) hefir það verið kallað „brot“ og prentað eftir uppskrift, sem þá hefir verið gjörð af þessu frumriti. Jónas hefir sjálfur skrifað orðið „niðurlag“ ofan-við er. „Sólfagra mey! Nú seilist yfir tinda“, o. s. frv., og þau 3 er. Hann hefir skrifað síðast erindi smalans. Þeim hefir verið skotið framfyrir niðurlags-erindin, og mun það rétt, enda hefir Jónas ekki sett orðið „niðurlag“ áður en hann skrifaði þau, heldur bætt því inn síðar, líklega eftir að hann hafði ort erindi smalans og ásett sér að skjóta þeim inn-í, eins og gjört hefir verið. Þeir Brynjólfur og Konráð, sem gáfu kvæðið út í fyrsta sinn, kunna að hafa vitað um, að Jónas vildi hafa þetta svona. — Það verður ekki séð á kvæðinu né handritinu, að hér sé um „brot“ að ræða; kvæðið virðist ekki hafa átt að vera lengra. Fyrir neðan síðasta er. (í vísum smalans) hefir Jónas sett sams konar merki og hann setti oft fyrir neðan kvæði sín, lykkjudrátt með tveim skástrikum yfir.***)

Á handritinu má sjá, að erindin fyrir framan vísur Eggerts hafa í fyrstu verið 15, skrifuð og tölusett í þeirri röð, sem þau eru í hér; síðan hefir komið sú 1., 3. og 4. af vísum Eggerts. Neðst á sömu bls. og 4. vísan er, hefir Jónas skrifað með blýanti uppkast að því er., sem hann hefir skotið inn, svo sem 8. er. Síðustu 2 línurnar af því eru á næstu bls. efst og þar næst 4

---

*) Sbr. bréf þeirra Brynjólfs og Konráðs til Jónasar 11. og 23. Marz 1844.

**) Sbr. einnig Bréf Páls Melsteds, bls. 13.

***) Þetta er gamalt og algengt merki; það kann að vera orðið til úr F, skammstöfun fyrir F i n i s, endir.

línur með blýanti af því er., sem verður 19. er. („Brosir við honum bærinn heillagóði“ o. s. frv.), síðan innskots-er. (8. er.) aftur, skrifað með bleki, og nú sett talan *8* hjá; á eftir því koma svo 2 síðustu línurnar af 19. er., neðst á bls. Á næstu bls. er blýantsuppkast af 20. er. og 2. Eggerts-vísan, skrifuð fyrst með blýanti, og síðan farið ofan-í stafina með bleki; hún er merkt inn á sinn stað, en ekki eru þær vísur tölusettar. Í næstu opnu koma 17. og 18. er. (sem fyrst hafa verið tölusett sem 16. og 17. er.), og 19. og 20. er., hreinskrifuð, þau 4, sem eru á eftir vísum Eggerts. — Svo koma niðurlags-erindin 3, ótölusett, og loks smala-vísurnar, sömuleiðis ótölusettar.

Sem vænta má í þessu frumriti, hefir Jónas gert ýmsar breytingar; sumar hefir hann hætt við og strikað út, og skal þeirra ekki getið, en drepið skal á sumar hinna. 2. er., 5. l., „óbrotinn“, sett f. „óbreyttur“; 6. l., „úr“, f. „í“. — 3. er., 3. l., „mey, djúpt“, f. „meyja“. — 5. er., 3. l., „fornu“, f. „fögru“ („beztu“). — 6. er., 1. l., „Huldu“, f. „hennar“. — 7. er., 1. l., „eg sé — nú leit minn“, f. „nú sér minn skelfdur“. — 8. er., 5.—6. l. hafa fyrst verið svo, þar sem er. er skrifað upp með bleki:

„hann veit það bezt, og vill það eitt, að sjái
veröldin guð og sig í hverju strái“.*)

— 9. er., 2. l. hefir fyrst verið svo: „ástjarðar þinnar heill og von og ljós“, og í 3. l. „blessaða stund!“ — 10. er., 1. l., „er“, f. „mun“. — 11. er., 3. l., „mey! því“, f. „meyja“, og í 6. l., „stoð“, f. „ljós“. — 12. er., 4. l. hefir fyrst verið svo: „Hann kyssir sína blíðu fósturjörð“. — 15. er., 2. l., „mér“, f. „því“; 5. l. hefir fyrst verið svo: „Sérðu nú, hvernig seint fær góður njóta“; í 6. l. „er“, f. „sem“. — 1. Egg.-v., 5. l., „þér“, f. „þið“. — 3. Egg.-v., 7. l., „hægur er dúr á“, f. „svalur er dropi“. — 4. Egg.-v., 5. l., „aldrei“, f. „ekki“. — 17. er., 2. l., „mér og“, f. „mínar“; 6. l., „fjallareitinn“, f. „vatnahjallann“. — 20. er., 2. l., „vitri“, f. „mikli“. — 21. er., 1. l., „seilist“, f. „svífur“. — 23. er., 4. l., „smíði“, f. „skrauti“.

Í 1.—3. útg. hefir kvæðið verið prentað eins, að heita má, og höf. hefir skilið við það. — Í 7. er., 2. l., er þó sett „þanns“ f. „þann“.

---

*) Í 3. útg., bls. XII, segir, að það eigi óefað að lesa „hvel“ og ekki „hval“ í 3. l. Í frumritinu (með blýanti) og í uppskriftinni (með bleki) er greinilega „hval“, enda er ekkert athugavert við það. — Skáldið bendir með þessum fáu orðum á hinar ýmsu stórfenglegu mótsetningar í ríki náttúrunnar. — Fjallaljósið er blómið, er svo heitir; einnig nefnt ljósberi, ilmjurt og ununarjurt (*viscaria alpina*).

Nokkuð af þessu kvæði var lagt út á dönsku af Olaf Hansen (í Ny-isl. Lyrik, 43—46) og á þýzku af J. C. Poestion (í Isl. Dichter d. Neuzeit, 346—50).

*Bls. 88—89.* — HEIMA. — Ehr. í K. G. 31 a I, á lausu blaði úr ferðabókinni (frá 1837 og 1841), sem nú er Bmf. 10 fol.; það er brotið saman langsum, og kvæðið skrifað á 1. bls., fyrirsagnarlaust. Kallað „brot" í 1.—3. útg. Upphafið er stælt eftir Höfuðlausn Egils Skalla-Grímssonar. — 7.—8. l. í 1. er. hafa fyrst verið svo:

„aldri slít eg þar,
er eg alinn var".

En síðar hefir Jónas dregið yfir þær línur og skrifað með blýanti þær, sem hér eru. — Hann hefir fyrst ætlað að enda 3. er. öðruvísi og skrifað sem 7. l.: „miklu meir en Danir", en dregið yfir það aftur.

Systkin og móðir Jónasar voru þau, sem nefnd eru í aths. á bls. 321.

*Bls. 89—91.* — EFTIR TÓMAS SÆMUNDSSON. — Ehr. í K. G. 31 a, í bréfi frá Jónasi til Konráðs, skrifuðu á stað á Ölduhrygg 2. Ág. 1841 (II. b., bls. 79—84).*) — Kvæðið var ekki prentað fyr en í 1. útg.; þar er það á bls. 229—32. Í þeirri útg. eru fáein orð öðruvís en í ehr. í bréfinu og hafa útgefendur þó varla haft annað hr. fyrir sér; í 1. er., 5. l., er „ella", f. „annars", í 2. er., 2. l., „lifandi", f. „lifanda", og í 3. er., 3. l., „fólginn", f. „falinn".

Í 2. útg. er þessi aths. við kvæðið á bls. 393—94: „*Eftir Tómas Sæmundsson.* Þegar Jónas frétti lát hans, var hann staddur í húsi Jónassens, er síðar varð háyfirdómari, og sagði þá þegar „dáinn, horfinn". Þess vegna eru þau orð með úrnámsmerkjum. Sumir segja, að hann hafi ort allt kvæðið þegar í stað, en það er ekki trúlegt".

Séra Tómas andaðist 17. Maí 1841. „Laugardagskvöldið fyrir hvítasunnu **) var mér sagt látið hans", skrifar Jónas í bréfinu til Konráðs. Hann ritaði æviágrip Tómasar og birti í Fjölni, VI., 1 og frv., 1843; prentað hér í II. b., bls. 273—77. —

---

*) E. fr. eru til 2 gamlar uppskriftir; á dr. theol. Jón Helgason biskup, dóttursonur séra Tómasar, aðra þeirra, en hin er í J. S. 129, fol., hvor um sig á sérstakri smáörk; hin fyr-nefnda er án fyrirsagnar, en fyrir ofan hina stendur: „Þegar ég frétti lát séra Tómasar". Hún hefir ekki tilheyrt J. S. 129, fol., frá fyrstu; skrifað er á hana efst: „Frá Halld. Jónssyni 12./11. '89".

**) Þ. e. 29. Maí.

Sbr. að öðru leyti t. d. Guðfræðingatal Hannesar Þorsteinssonar, bls. 279—82, og þau rit, sem þar er getið um.

Bragarhátturinn á kvæðinu er spánskur, „redondilla", settar saman tvær í hvert er., án þess að ríma saman. — Sönglag er ekki kunnugt um.

*Bls. 92.* — VIÐBÓT. — Ehr. fyrrum í eigu mag. Boga Th. Melsteds, nú í kgl. bókasafninu í Höfn, sent Bjarna amtm. Thorarensen sem sendibréf, að líkindum meðan stóð á nefndarfundinum 1841. Það er á smáörk (st. 20 × 15,2 cm.); eru vísur Bjarna á 1. bls. — Þær hefir Jónas sett á eftir æviminningu séra Tómasar í Fjölni, VI. árg., bls. 6, og fyrir ofan: „Svo kvað Bjarni amtmaður", en bætt þessari aths. við: „Hann fór á nefndarfund í Reykjavík, og mun þetta vera síðast ljóðmæla hans.*) Á 2. bls. eru þessar vísur Jónasar, og hefir hann sett við hliðina á síðari helming fyrri vísunnar athgr., sem er sett hér neðanmáls. — Vísur Jónasar voru prentaðar í Andvara, II. árg., 1875. — 3. bls. er auð; á 4. er utanáskriftin.

Um nefndarfundina sjá „Tíðindi frá nefndarfundum íslenzkra embættismanna í Reykjavík árin 1839 og 1841. — — — K.-höfn 1842". — Um það, hvar alþingi skyldi haldið, sjá einkum síðari deild, bls. 20—35. — Nefndarmenn voru 10, en þeir Bjarni amtmaður og Jón sýslumaður Jónsson voru tveir einir fylgjandi því, að þingið skyldi haldið á Þingvelli.

*Bls. 93—95.* — FJALLIÐ SKJALDBREIÐUR. — Ehr. í J. S. 129, fol., á lausu blaði (st. 33,2 × 20,7 cm.); er það sýnilega rifið upp úr ferðabók Jónasar frá sumarferðinni 1841, Bmf. 10, fol. Í 8. og 9. er. hefir hann gert dálitlar breytingar í hr. — Orðið „reiðar-slóðir" í 4. l. í 2. er. er ritað svo og haft þannig í öllum útgáfum, en líklega ætti þó að lesa og prenta „reyðar-slóðir".

Skömmu áður en Jónas dó, lét hann prenta þetta kvæði í Fjölni, VIII., 50—53; var það áður lesið á fundi í Fjölnisfélagi 10.(?) Apríl 1845. (Sjá Eimr. 33. ár, bls. 187).

Jónas hefir í ehr. sett innan sviga fyrir neðan yfirskriftina fyrst „ferðakvæði frá 1841", en síðan breytt því í „ferðavísa frá sumrinu 1841"; í útg. í Fjölni hefir þetta verið haft eins og hér er sett.

Jónas lýsir greinilega í ferðabók sinni, þeirri sömu, sem handritsblaðið er úr, þessari ferð, sem hann á við í 2.—3. og síðasta er. Hann fór frá Þingvöllum um morguninn, miðvikudaginn 14. Júlí, eins og leið lá (um Skógarkot og Hrauntún),

*) Hann dó 25. Ág. s. á.

upp á Hofmannaflöt; þaðan upp á Biskupsflöt, Eyfirðingaveg, um Goðaskarð, norður með Gagnfelli. Þaðan reið hann yfir að Sandgíg og fór að skoða hann. Fylgdarmennirnir, Gunnar Hallgrímsson skólapiltur og Páll Eyjólfsson í Skógarkoti, áttu að vera á eftir með lestina (4 kofforta-hesta). En þegar Jónas var búinn að athuga Sandgíg, fann hann hvergi lestina; hún hafði villzt frá honum. Hann hafði ætlað sér að fara umhverfis Skjaldbreið þennan dag, og í Efri-Brunna, veginn, sem þangað liggur af Eyfirðingavegi, fram-með Skjaldbreið að norðanverðu. Þótt hann missti af lestinni, hélt hann leiðar sinnar, — aleinn. Þennan dag hefir kvæðið sennilega orðið til. — Eftir að Jónas hafði lokið athugunum sínum um daginn, komst hann í ákveðinn áfangastað, en fann þar ekki lestina. Hann var mjög ferðlúinn, lagðist niður í döggvotu grasinu og sofnaði. — Næsta morgun fann hann lestina, góðan spöl frá.*) — Sennilega hefir hún farið upp-eftir að vestanverðu við Skjaldbreið. — Jónas fór svo upp á Kaldadal og ofan að Húsafelli um kvöldið; var þar 2 næstu daga um kyrrt og mun þá hafa skrifað þar bæði ferðaskýrsluna og kvæðið. — Hannes Hafstein lýsir þessu atviki einkar-fallega í ævisögu Jónasar, framan-við 2. útg., bls. XXXI—XXXIII. — Segir hann, að kvæðið hafi fallið í stuðla í Efri-Brunnum um nóttina, en hvorki er það líklegt né kemur vel heim við orð Jónasar í dagbók hans og kvæðinu sjálfu. Af því má helzt ráða, að hann hafi byrjað það, er skein „á tinda morgunsól“, og lokið við það, er hann trað einn „með hundi og hesti hraun — og týnd er lestin öll“. — Hann nefnir hest sinn í 1. l. 3. er.; segir Páll Eyjólfsson, sem var fenginn Jónasi til fylgdar þennan dag, að Baldur hafi verið ljósskjóttur,**) sérlega fallegur og góður hestur, sem móðir Jónasar hafði gefið honum (sbr. Dvöl, 6. ár, bls. 8). Jónas gat um hund sinn í bréfi til Konráðs síðar, sjá II. b., bls. 90—91 (m. aths.).

Kvæðið hefir verið lagt út á dönsku af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 97—100, Udv. isl. Digte, 115—181, og á þýzku af J. C. Poestion (Isl. Dichter d. Neuzeit, 351—53, Eislandblüten, 38—40).

Kvæðið má syngja með mörgum lögum, en er venjulega sungið með lagi eftir J. H. Stunz.

*Bls. 96.* — ALDARHÁTTUR. — Frumútg. í Fjölni, VIII., 54. Lesið á fundi í Fjölnisfél. 10.(?) Apríl 1845. Vísan er vafa-

*) Sbr. ferðabók Jónasar frá þessari ferð, III. b., bls. 147—52, og bréf til Jap. Steenstrups, II. b., bls. 77—79.

**) Mun þó vera sá, er Jónas nefndi sjálfur ljósgráan, sjá III. b., bls. 261.

laust frá ferð Jónasar um Snæfellsnes 1841; hann fór frá Ólafsvík inn að Krossnesi 11. dag Ágústmánaðar það ár og hefir þá riðið fyrir neðan Fróðá, enda ber næsta kvæði vott um, að hann reið þangað heim. — Í fyrri hluta vísunnar á Jónas við frásögnina í Eyrbyggja-sögu (22. og 29. kap.) um Björn og Þuríði á Fróðá, systur Snorra goða.

*Bls. 96—97.* — Á GÖMLU LEIÐI. — Ehr. í J. S. 129, fol., komið „frá Páli Melsteð til Landsbókasafnsins 23./7. 1890"; hefir hann skrifað á blaðið (sem er 15,8 $\times$ 10 cm.), neðan-við kvæðið: „Þetta ritaði Jónas Hallgrímsson sjálfur og gaf mér. — P. Melsteð. — Þá var hann í Rvík., en eg á Brekku". — Frumútg. í Skírni, 16. árg., 1842, bls. 133.

Í Ísl. þjóðlögum, bls. 559, er lag við þetta kvæði, talið vera úr Vatnsdal. Bragarháttur „redondilla".

Jón Kjærnested (Kjernesteð) var sonur Þorláks dannebrogsmanns Hallgrímssonar á Skriðu í Hörgárdal, en Þorlákur var eitt af hinum mörgu börnum Hallgríms smiðs Jónssonar, bróðir séra Gunnars í Laufási, Jóns málara og þeirra systkina. Jón Kjærnested tók upp þetta nafn eftir Friðfinni, föðurbróður sínum, sem kenndi sig við fæðingarstað sinn, Kjarna í Eyjafirði; þar bjó Hallgrímur, afi Jóns, um hríð, og þar dó Jón, langafi hans. Jón Kjærnested var mikill hagleiksmaður, eins og þeir ættmenn fleiri, en kunnastur varð hann fyrir sundkennslu sína. Jón var um hríð erlendis og nam akuryrkju og garðrækt, og sund. Hann hélt uppi námskeiðum í sundi víða norðanlands, og í laugunum við Reykjavík vorið 1824.*) Hann skrifaði „um áburðarauka" í Klausturpóstinn 1820, og leiðarvísir til jarðyrkju kom út eftir hann 1824 í Viðey. Hann hélt Möðruvallaklaustur 1825—28, en flutti eftir það vestur undir Jökul; bjó á Munaðarhóli 1828—35, en dó næsta sumar, 25. Júní 1836, í Ólafsvíkurbæ, 38 ára að aldri (f. 23. Sept. 1797). Jónas hefir komið að leiði hans í Fróðár-kirkjugarði 11. dag Ágústmánaðar 1841.

*Bls. 97—98.* — BJARNI THORARENSEN. — Tvö ehr.,**) frumritið sjálft, skrifað með blýanti í ferðakver Jónasar frá sumarferðinni 1841 (bl. 11—13), sem verið hefir í vörzlu þeirra feðga, Jap. og Joh. Steenstrups, prófessora, og annað ehr., sem var í eigu mag. Boga Th. Melsteds og nú kgl. bókasafnsins í

*) Sbr. Árb. Esp., XII., bls. 132 (sbr. og bls. 156), Ann. 19. aldar, I., 328 og 343, og Sundreglur próf. Nachtegalls (Kh. 1836, bls. VII og 13), sjá II. b., bls. 227 og 229; e. fr. Klausturp. 1823—24 og Þrótt, 4. ár, 57—58.

**) Eða 3, sbr. Nýtt Kirkjubl., 10. árg., bls. 86.

Höfn; e. fr. er eitt er. (3.) í bréfi frá Jónasi til Jap. Steenstrups, sjá II. b., bls. 116—17. — Frumútg. í VI. árg. Fjölnis, 20.—21. bls.,*) og er kvæðið sett hér eftir henni, nema að því leyti, að í 4. er., 3. og 5. l., er f. „þá“ sett „er“, eins og stendur í 1.—3. útg.

Bjarni amtmaður dó heima á Möðruvöllum 25. Ágúst.**) Jónas var þá á leið norður. Í bréfi, sem hann skrifaði Jap. Steenstrup 5. Nóv. um haustið (sjá II. b., bls. 114—19) og getið var hér á undan, segir hann, að hann hafi 28. Ág. mætt á Reykjabraut sendimanni, sem flutti honum fregnina um lát Bjarna, og sama dag hafi hann ort á hestsbaki kvæði („en Vise“), sem sé ekki með þeim lökustu o. s. frv., og síðan setur hann í bréfið eitt er. (3.) úr kvæðinu. Eftir áfangaskránni í vasakverinu hefir hann komið 27. Ág. að Steinnesi og 28. að Hnausum, næsta bæ; hafi hann verið á ferð á Reykjabraut þann dag, þá hefir hann farið til rannsókna eitthvað á þær slóðir og síðan að Hnausum aftur um kvöldið. Þann dag eða hinn næsta hefir hann dregið upp mynd af Reykjanibbu í vasakver sitt, á bl. 11 (sjá III. b., bls. 202), en hins vegar á sama blaði byrjar kvæðið. — Næsta dag, 29. Ág., fór hann að Reykjum, sennilega um Reykjabraut, og eftir það hélt hann rakleiðis áfram, til þess að geta verið við jarðarförina.***) — Það er því ekki alls kostar rétt, sem segir í ævisögu hans framan-við 2. útg., bls. XXXIII, og enn í greinilegri frásögn í N. Kbl., 10. árg., bls. 86, að hann hafi frétt lát Bjarna, þegar hann kom að Glaumbæ (1. Sept.) og ort kvæðið þar, á leið þaðan yfir að Flugumýri eða heima á Flugumýri.****) Hann kann að hafa skrifað það í vasakver

---

*) Í 2. útg., bls. 395 (og í 3. útg., bls. 144), er sagt, að þetta kvæði hafi verið prentað sérstakt og að Jónas hafi skrifað vísuna „Skáldið mitt var skjótt í leik“ o. s. frv. (sem hér er á bls. 168) á eitt blaðið (þ. e. eintakið). Þetta mun ekki rétt, heldur farið skakkt með aths., sem er nm. á bls. 123 í 1. útg. og er svona: „Á eitt skrifað exemplar af þessum erfiljóðum hafði Jónas sett þessa stǫku“, og síðan kemur hún.

**) Svo stendur í prestsþjónustubókinni (ekki 24.). Hann dó nóttina milli 24. og 25. Sbr. Ann. 19. aldar, II., 140.

***) Sjá áfangaskrána frá þessari ferð, III. b., bls. 206—208.

****) Í sögunni í N. Kbl. segir, að Jónas hafi verið „nokkra daga um kyrt á Flugumýri hjá Ara vini sínum, og þar orti hann minningarljóðin um Bjarna“. Þetta er missögn; Jónas fór frá Glaumbæ að Kotum, þ. e. Ytri-Kotum (Þorbrandsstöðum), 2. Sept. og næsta dag að Steinsstöðum, en 4. Sept. var hann við jarðarförina á Möðruvöllum, og fór inn að Dunhaga á eftir. Ekki var hann heldur lengi um kyrt á Flugumýri, þegar hann fór suður aftur; kom þangað 16. Sept. og fór næsta dag að Mælifelli; sjá e. fr. áfangaskrána, III. b., bls. 208.

sitt í Glaumbæ og þá lofað þeim séra Halldóri Jónssyni (síðar að Hofi) og Ara lækni Arasen á Flugumýri að sjá það eða heyra manna fyrstum. — Þá er hún ekki sannari að þessu leyti sagan, sem er í Ísafold, XVIII., 294 (og síðan í Ann. 19. aldar, II. b., bls. 149—50), talin höfð eftir fylgdarmanni Jónasar, Gunnari Hallgrímssyni. Segir þar, að þeir Jónas hafi að áliðnu þessu sumri verið staddir á Mývatnsöræfum;*) „lágu þeir í tjaldi sínu, eins og þeirra var siður á ferðum þessum. Þá var það einn morgun, að Jónas vaknar venju fyr, því að Gunnar kvað hann að öllum jafnaði hafa verið morgunsvæfan. Vakti hann nú Gunnar og biður hann sækja hesta sína hið bráðasta; „dreymdi mig svo í nótt“, sagði Jónas, „að eg veit það víst, að Bjarni amtmaður er dáinn“. Gunnar sótti hestana, svo sem hinn beiddi, og söðlaði þá; gengur að því búnu inn í tjaldið. Þá er Jónas að öllu ferðbúinn. Hann kvað það hafa verið venju Jónasar, þá er hann hafði ort nýtt kvæði, að kveða sér það, og hefði boðið sér að hlusta á með þessum orðum: „Viltu heyra mér dálítið!“ Svo var og í þetta sinn. Hafði þá Jónas ort hin snilldarlegu erfiljóð sín um Bjarna, meðan Gunnar sótti hestana og söðlaði þá. Síðan tóku þeir sig upp og riðu svo sem leið lá norður til Eyjafjarðar. Og svo var Jónas berdreyminn að þessu sinni, að Bjarni amtmaður hafði andazt hina sömu nótt, er Jónas dreymdi drauminn“.

Frásögn sú, sem er í Lýð, II., 23, höfð eftir Hallgrími Tómassyni, systursyni Jónasar, er ekki heldur rétt, — að Jónas hafi frétt lát Bjarna, er hann var kominn norður í Öxnadal, og því þá fyrst ort kvæðið; hitt getur verið rétt, er þar segir, að hann hafi beðið Hallgrím að skrifa það þar upp.

Í frásögninni í N. Kbl., 10. árg., bls. 86, er m. a. sagt, að Jónas hafi marg-ritað kvæðið, verið að breyta og bæta. Þótt ekki sé takandi mikið tillit til þessa, er vert að athuga, hverjar breytingar hann hefir gert á kvæðinu frá því er hann hripaði það fyrst í vasakverið. Þá er þess fyrst að geta, að hann hefir skrifað sem fyrirsögn að eins: „Amtmaður Bjarni“. Þar næst hefir hann sett þessa vísu, eins og nokkurs konar formáls-erindi:

| | |
|---|---|
| Hézt þú að mæla | Guð hefir skipt |
| eftir mig liðinn, | og til góðra funda |
| er eg til himna | hetju sína heimt |
| hafnar þreytti. | úr harki veraldar. |

Þetta er. er skrifað óljóst, og er vafi á um sum orð, hvort rétt

*) Þeir komu ekki þangað það sumar; fóru ekki lengra norður (austur) en í Eyjafjörðinn. — Það var 2 árum áður, að Jónas var á Mývatnsöræfum eða þeim slóðum.

sé lesin. Fyrir „sína“ hefir hann fyrst sett „vora“, en dregið síðan yfir það orð. Þessu er. hefir Jónas síðan sleppt algjörlega, og marg-strikað yfir það í vasakverinu, en notað síðustu línurnar af því í 4. er. (5.—6. l.).

Í 1. er. hefir hann enga breyting gjört, nema þá eina, að hann hefir í 5 l. skrifað fyrst „tárþögull“, en síðan dregið yfir „tár“ og skrifað „grát“. — Í 2. er. hefir hann fyrst haft 5. og 6. l. þannig:

„Áður sátu ýtar glaðir
og orðum vel skiptu“.

Síðan hefir hann breytt orðunum og bætt „með“ inn-í.*)

Þá er 3. er., — sama og hér, og sýnir það, að getgáta sú, sem sett var fram í Tím. Bmf., 12. árg., bls. 55, um að það væri ort síðar en hin erindin, er ekki rétt. — Hann hefir fyrst haft upphafið (1.—2. l.) svona:

„Hlægir mig eitt, það, að engin
því ugla þarf fagna“.

En hann hefir breytt þessu í frumritinu, á líkan hátt og hinu. — Í 6. l. hefir hann einnig breytt „bjargi“ í „bergi“. — Í 4. er. hefir hann gert smábreyting á 3. og 4. l., látið orðin „sá“ og „oss“ skiptast á um stað.**) 5. l. hefir hann fyrst byrjað að öllu leyti öðruvís, en dregið vandlega yfir þá byrjun aftur og skrifað línuna eins og hún er í Fjölni og hér, að öðru leyti en því, að orðin „hetja“ og „heimtir“ hafa verið látin skiptast á um stað, fyrir ríms sakir. — Í 5. er., 8. l., hefir Jónas fyrst skrifað „Farðu“, en breytt því, sömuleiðis rímsins vegna, í „Far nú“. — Þetta er nú allt og sumt, og er bæði fátt og smátt.

Jónas hefir séð fyrir, hvernig þingstaðarmálið myndi fara, og því verið svo bituryrtur í 3. er. En þeir létu þetta bytna illa á honum, höfðingjarnir syðra; sjá bréfið til Jap. Steenstrups 5. Nóv. s. á. (II. b., bls. 117).

Bragarhátturinn er hinn alkunni forni hexameter-háttur, — sem Jónas skreytir oft með hendingum að íslenzkum sið; endurminningin um kvæði Bjarna „Kysstu mig aftur“, sem Jónas hafði birt í Fjölni, III., I., 32, hefir sennilega átt þátt í, að hann orti þetta kvæði um Bjarna undir þessum bragarhætti. — Gamalt, íslenzkt þjóðlag við kvæðið er í Ísl. þjóðl., bls. 566.

---

*) Í 3. l. er í hr. B. Th. M. „ástvinur“ f. „ástmögur“, og í 4. l. er í frumr. „blómi“ f. „blóminn“.

**) Í ehr., sem B. Th. M. átti, er þetta eins og það hefir verið upphaflega í frumr.

Til er dönsk þýðing af kvæðinu, eftir Olaf Hansen (Udv. isl. Digte, 72—73, sbr. Isl. Renæssance, 122), og þýzk, eftir J. C. Poestion (Isl. Dichter der Neuzeit, 345—46).

*Bls. 98—100.* — SÉRA STEFÁN PÁLSSON. — Ehr. (sem mun hafa verið í eigu Hallgríms prófasts Jónssonar á Hólmum) er til í Þjóðminjasafninu, skrifað í 3 dálka á samanbrotna kvartörk. Frumútg. í Fjölni, VI., 24—25. — Séra Stefán var sonur Páls sýslumanns Guðmundssonar, sýslumanns í Krossavík, Péturssonar, bróðir séra Siggeirs á Skeggjastöðum, Páls stúdents og Sigríðar, konu séra Þorsteins Helgasonar. Hann var fæddur 15. Júlí 1812, útskrifaðist úr Bessastaðaskóla 1836, sigldi samsumars, var í Höfn við nám 2 næstu vetur, og hafa þeir Jónas kynnzt þá. Stefán vígðist 19. Júlí 1840 aðstoðarprestur Guttorms prófasts Þorsteinssonar á Hofi í Vopnafirði, sem hafði alið hann upp og kostað hann til náms; átti séra Stefán Björgu, dóttur hans. Dó 4. Júlí 1841.

Fyrri hluti 1. er. er með tilvitnunarmerkjum í frumútg. og er óvíst hvers vegna; ef til vill eru þau orð höfð eftir Stefáni sjálfum eða öðrum. Í ehr. eru engin tilvitnunarmerki. Stefán fór úr foreldrahúsum fárra mánaða gamall, og var að eins þrevetur, er faðir hans dó.

*Bls. 100—102.* — VIÐ JARÐARFÖR JÓNS SIGHVATSSONAR. — Frumútg. í Skírni, 16. árg., 1842, bls. 131—32, og í Æfi- og Útfarar-Minning Dannibrogsmanns Jóns Sighvatssonar. Viðeyjar-kl. 1842, bls. 97—99. Í 1. útg., og síðan 2. og 3., er í næst-síðasta er., 2. l., sett „manns (h)ins“, f. „mannsins“, og í síðasta er., 6. l., „sorta“, f. „sortanum“.

Jón Sighvatsson var bóndi í Höskuldarkoti í Ytri-Njarðvík. Svb. Egilsson setti grafskrift eftir hann; er hún í æviminningu Jóns, bls. 84, og í Skírni, prentuð framan-við kvæðið. Sveinbjörn kallar Jón þar merkisöldung og öðling bænda; telur hann fæddan 6. Marz 1759, hafa kvænzt 5. Ág. 1792, orðið dannebrogsmann 1833 og dáið 28. Nóv. 1841. — Sbr. að öðru leyti æviminninguna.

*Bls. 102—104.* — SÉRA ÞORSTEINN HELGASON. — Ehr. í J. S. 129, fol. En á því stendur efst: „Frá Halld. Jónssyni 12./11. '89“. — Er átt við H. J. bankagjaldkera. — Ehr. er lítil örk (st. 21,2 × 17 cm.); á 4. bls. eru að eins 2 síðustu línurnar af síðasta er. Frumútg. í Fjölni, VI., 22—3. Jónas gat um kvæðið á fundi í Fjölnisfél. 4. Marz 1843, og las það upp á næsta fundi, 11. s. m., en hann kann að hafa verið búinn að yrkja það löngu fyr, ef til vill skömmu eftir lát séra Þorsteins. Þó er það ekki víst. Hann kom að Reykholti, þar sem séra Þorsteinn var

jarðaður, 13. Júlí 1840, og dvaldi þar næsta dag, og síðan kom hann þar aftur 20. Júlí 1841, á leið vestur og norður, og á suðurleið, um haustið, fór hann loks enn yfir Reykholtsdalinn 21. Sept. Þá hefir hann skrifað í vasakver sitt, efst á 15. bl.: „Minning séra Þ. Helgasonar". Það gæti bent til, að hann hafi ætlað að skrifa þar kvæði með því nafni. — Páll Melsted yngri skrifaði Jóni Sigurðssyni 2. Marz 1842, að hann hefði þá séð (þetta) kvæði Jónasar eftir séra Þorstein; sbr. Bréf P. M., bls. 26.

Séra Þorsteinn var fæddur 12. Febr. 1806, sonur Helga Sigurðssonar, fyrv. konrektors í Skálholti, útskrifaður úr Bessastaðaskóla 1823, áður en Jónas gekk inn; hann stundaði síðan guðfræði við háskólann, en hætti námi, varð styrkþegi við stofnun Árna Magnússonar og fékkst nokkur ár við norræn fræði í Höfn. Árið 1830 (3. Ág.) kom hann heim og mun hafa dvalið hér næsta vetur, og Jónas þá kynnzt honum. En veturinn 1831—32 mun hann hafa verið aftur í Kh.*) Næsta ár, 1833, mun hann hafa komið aftur til Rv. snemma um vorið, og þeir Jónas þá enn verið þar nokkra mánuði samtímis, unz Þorsteinn var vígður prestur að Reykholti, var honum veitt það 15. Marz. Var hann þar prestur að eins 6 ár. Hann drukknaði í Reykjadalsá nóttina milli 7. og 8. Marz 1839.

Síðustu orðin í 3. er., „þessu trúið", eru svo í Fjölni, en í ehr. er „þetta skeður". Breytinguna mun höf. hafa gert sjálfur.

Á 4. bls. ehr. hefir Jónas skrifað þessa vísu:

Hver veit, nema komi svo — að kotkarl hafi kyrtla tvo,
kviðlings ævihraki, — en kraki á hurðarbaki?

Bragarhátturinn er hrynjandi, og notaði Jónas hann að eins þrisvar sinnum, svo kunnugt sé (sjá bls. 129—30 og 138—39).

*Bls. 104—105.* — GUÐMUNDUR KAUPMAÐUR GUÐMUNDSSON. — Ehr. í K. G. 31 a I, smáörk (st. 20,5 × 17 cm.); frumútg. í Skírni, 17. árg., 1843, bls. (11)—(12), og er hún, svo að segja, eins og ehr. Aths., sem hér er sett fyrir neðan fyrirsögnina, er ekki í ehr. né frumútg.; í ehr. stendur fullum stöfum „Pétur Guðmundsson", en í Skírni standa einungis upphafsstafirnir, P. G.

Í ehr. hefir Jónas gert ýmsar breytingar; í 2. er., 1. l., hefir hann fyrst skrifað „æginn", 3. l. „né" fyrir framan „systur", 4. l. „minn" á eftir „bróður", 5. l. „hvarfla" f. „sjá", 6. l. „hvarma —" f. „sjón —", 7. l. „útum öldur að leita", breytt fyrst í „útá öldur og leita" og loks í „öldur á og leita", — og hefir

*) Sbr. Bréf Tóm. Sæm., Rvík. 1907, bls. 79.

þá rímið orðið út-undan, en þess konar og enn aðrir rímgallar eru víðar í kvæðinu. — Í 3. er., 7. l., fyrst skrifað „þokan". — Í 4. er., 3. l., fyrst svo: „ástin ein, sem mesta", svo bætt inn „að" á eftir „sem", en strikað út aftur; síðan breytt orðaröðinni og sett „bezta" f. „mesta"; 4. l., sett fyrst „þig" á eftir „ól"; 8. l. er svo í ehr.: „hennar svo í faðm renni", en þeirri línu hefir Jónas sennilega breytt sjálfur, þegar kvæðið var prentað í Skírni.

Guðmundur var kaupmaður á Búðum, bjó í Bentsbæ með móður sinni, Steinunni Sveinsdóttur, sem þá var ekkja. Hann fórst 1841 á útsiglingu með skipi frá Búðum; ætlaði til Hafnar, að ganga að eiga danska stúlku. Hann var þá 34 ára gamall og talinn mannvænlegur maður (sjá Ann. 19. aldar, II., 153). Pétur, bróðir hans, var þá verzlunarstjóri á Búðum, en síðar var hann á Ísafirði. — Þriðji bróðirinn var Sveinn, aðstoðarmaður hjá bróður sínum, síðar kaupmaður á Búðum, tengdafaðir drs. Bjarna Sæmundssonar.*) — Guðrún, systir þeirra bræðra, átti þá einnig heima í Bentsbæ.

Línurnar, sem eru með tilvísunarmerkjum, í 1., 2. og 4. er., eru teknar úr vísum í Víglundarsögu (2. og 11. vísu), en með nokkrum breytingum.

*Bls. 106.* — ÁSTA. — Frumútg. í Fjölni, VI., 15. Lesið fyrst á fundi í Fjölnisfél. 4. Marz 1843. — Í frumútg. er 5. l. í 3. er. með tilvísunarmerkjum. — Fyrstu línurnar í því er. eru teknar nær því óbreyttar úr kvæðinu „Kysstu mig aftur" eftir Bjarna Thorarensen, frumpr. í Fjölni III., I., 32.

Kvæðið hefir verið útlagt á þýzku af J. C. Poestion (Eislandblüten, 58—59). — Lag er við það (eftir Holger Wiehe) í Eimreiðinni, 6. ár, bls. 199—200.

*Bls. 106—108.* — ÓHRÆSIÐ. — Frumútg. í Fjölni, VIII., 22—23. Lesið fyrst á fundi í Fjölnisfél. 26. Okt. 1844. — Í 2. útg., bls. 396, er sagt, að þetta sé „sönn saga að austan". Er það líkara til að vera rétt **) en það, sem frændur Jónasar eiga að hafa sagt, eftir því sem Hallgrímur Tómasson frá Steinsstöðum, systursonur Jónasar, kvað hafa látið í ljósi, að kvæðið væri stílað upp á þá, sem hefðu reitt efnin af Guðrúnu frá Hvassafelli, móðursystur Jónasar, svo að hún varð félaus í elli sinni. Sbr. Lýð, II., 23.

Olaf Hansen þýddi þetta kvæði á dönsku (Isl. Renæssance, 113—15, Udv. isl. Digte, 99—101).

---

*) Á dr. Bjarni góða, málaða mynd af Guðm. Guðmundssyni.
**) Sbr. e. fr. kvæðið „Líkur sínum", bls. 146, 2. er., 5.—6. l.

*Bls. 108—111.* — GRÁTITTLINGURINN. — Frumútg. í Fjölni, VI., 11—13. Lesið á fundi í Fjölnisfél. 11. Febr. 1843. „Ungur var eg“ o. s. frv. Ef til vill má fara nærri um, hve gamall hann var; þegar faðir hans dó, og dánarbúið var skrásett, haustið 1816, var framvísað tvævetrum hrúti og þrevetru trippi, dökkgráu. — Ætli þetta hafi ekki verið „óvitringarnir ungu“, og yrkisefnið sé bernskuminning frá því að skáldið var á áttunda árinu?

Grátittlingur er sami fuglinn, sem venjulega er nefndur þúfutittlingur, sbr. V. b., bls. 44 og 63.

Bragarhátturinn er eins konar afbrigði eða tilbreyting af dróttkvæðum hætti; eru sjö samstöfur í hverju vísuorði og vísuhelmingarnir aðgreindir þannig, að hver myndar er. Mun hátturinn nýr og mætti kenna hann við Jónas.

*Bls. 111—112.* — ANDVÖKUSÁLMUR. — Frumútg. í Fjölni, VI., 16—17. Getið á fundi í Fjölnisfélagi 4. Marz 1843. Kvæðið er ort undir hinu gamla sálmalagi „Guðs vors nú gæzku prísum“ og því hefir það verið nefnt sálmur.

*Bls. 112—113.* — Á SUMARDAGSMORGUNINN FYRSTA. — Frumútg. í Fjölni, VI., 14. Lesið á fundi í Fjölnisfél. 14. Marz 1843. — Í 3. er., 2. l., er „dal“ í frumútg., en „dali“ í 1.—3. útg. — 3. er., 5.—8. l.; Jónas hafði í hyggju að fara rannsóknarferð þetta sumar suður og austur um land. Hann fékk ósk sína uppfyllta.

*Bls. 113.* — TIL FINNS MAGNÚSSONAR. — Ehr. á skjólblaðinu framan-við eintak af „Stjörnufræði eftir Dr. G. F. Ursin“, sem Jónas hefir gefið Finni prófessor Magnússyni, en nú er í Landsbókasafninu. Yfirskriftin er þar svo, og á bæði við bókina og vísuna: „Til herra Finns Magnusen“. Jónas hafði búið til útlegginguna, og var hún prentuð í Viðey 1842. — Vísan mun fyrst hafa verið prentuð í Sunnanfara, I., bls. 3, og síðan í 3. útg., en síðasta orð í 2. l. rangt á báðum stöðum, „fyr(r)“ f. „bezt“. — Afskrift er til í hrs. J. S., 401, 4to, á litlum miða, með hendi Jóns Sigurðssonar, vitanlega laukrétt.

Vísan kann að vera ort í Höfn, en ekki í Reykjavík.

*Bls. 115.* — ORT ERLENDIS EFTIR 1842. — Þau kvæði, sem hér eru talin til þess flokks, munu vera frá síðustu árum Jónasar, ort eftir síðustu burtför hans frá Íslandi, haustið 1842. Öll eru þau sennilega ort í Höfn, nema þau 7, sem eru á bls. 128—133, og líklega síðara er. af kvæðinu á bls. 134 (til G. Th.), er munu ort í Sórey. Ekki verður fullyrt, að röð kvæðanna, svo sem hún er hér, sé algjörlega rétt eftir aldri þeirra.

*Bls. 117—118.* — ANNAÐ KVÆÐI UM ALÞING. — Frum-

pr. í Fjölni, VI., 9—10, neðanmáls, svo sem athugasemd við kvæðið „Alþing hið nýja“ (sjá bls. 79—81), fyrirsagnarlaust. Lesið fyrst á fundi í Fjölnisfélagi 12. Apríl 1843, og er skýrt þannig frá því í fundabókinni (sjá Eimr., 32. ár, bls. 361): „Forseti las upp tvö kvæði, er hann hafði tekið utan fundar, af því þörfin var svo bráð; annað var nokkurs konar nóta við alþingiskvæðið; kvaðst Jónas, eins og nú væri komið, ekki geta látið fyrra kvæðið fara frá sér viðbótarlaust“; o. s. frv. Kvæðið er sett hér eins og það er í Fjölni, nema að því leyti, að sett er „þennan“ f. „þenna“ í 2. er. 5. l., og orðinu „að“ á eftir „sem“ í næst-síðustu l. er sleppt, eins og í 3. útg.

Kvæðið er orðið til vegna tilskipunar konungs um alþing 8. Marz, rúmum mánuði áður en fundur þessi var í Fjölnisfél. Tilskipunin er í Lovsaml. f. Isl., XII., 469—525. Í 2. gr. var þar ákvæði um, að á alþingi skyldu eiga sæti 20 þjóðkjörnir þingmenn, 1 fyrir hvert lögsagnarumdæmi, og allt að 6 konungkjörnir, og í 40. gr. var ákveðið, að alþingi skyldi fyrst um sinn haldið í Reykjavík. Vakti tilskipunin megna gremju, ekki sízt hjá Fjölnismönnum, eins og kvæðið ber með sér og e. fr. grein Brynjólfs Péturssonar í Fjölni, VII., 110 o. frv.*) — 2. er., 2. l., „fjórtán manns“ o. s. frv.; Jónas virðist eiga við, að svo geti farið, að einir 14 menn, er væru í meiri hluta á alþingi (14 á móti 12), gætu ráðið niðurlögum þjóðarviljans; 5. l., „þeir sem að hittu á þennan veg“ o. s. frv.; embættismannanefndin í Reykjavík, er ráðgaðist um alþingismálið samkvæmt fyrirmælum konungs, sbr. bls. 345, varð öll ásátt um, „að það mundi nóg“, að þjóðkjörnir þingmenn yrðu 20 og konungkjörnir 6 (sbr. Tíð. fr. nefndarf. 1841, bls. 13). Var þetta álit nefndarinnar mörgum mikil vonbrigði, einkum þjóðræknum Íslendingum í Höfn, er allir vildu hafa meira en helmingi fleiri (42) þjóðkjörna þingmenn“.**) — 6. l., „sigldir“ voru nefndarmenn allir (sbr. Tíð. fr. nefndarf. 1839, bls. 13—14).

*Bls. 118—120.* — KVEÐJA TIL UPPSALAFUNDARINS 1843. — Frumpr. í skýrslunni um fundinn, „Beretning om Studentertoget til Uppsala i Juni Maaned 1843. Kbh. 1844“. Tekið eftir henni í 1. útg., sem farið er eftir hér. — Í 1. er. er átt við Völuspá; 1.—2. l. er úr henni. — Uppsalir standa við Fýrisá (2. er.). — 3. er. var í fyrstu í kvæðinu um „Alþing hið nýja“, að nokkru leyti, sjá aths. við það kvæði hér að framan, bls. 341. Óðinshæð (8. er.) er einn hinna fornu konungahauga, sem eru

---

*) Sbr. e. fr. ævis. J. Sig., II., 164—83 (einkum).
**) Sbr. e. fr. ævis. J. Sig., II., 143—63.

skammt frá Gömlu-Uppsölum, haugur Egils konungs Tunnadólgs, sjá Skírni 1921, bls. 46—47. — Uppsalafundurinn var fyrsti almenni stórfundurinn, sem norrænir stúdentar héldu, til að efla bræðraþel með Norðurlanda-þjóðunum.

*Bls. 120—121.* — ÚTI Í VESTMANNEYJUM. — Ehr. í K. G. 31 a, aftan-við nokkrar af vísunum, sem eru hér í næsta kvæðaflokki á eftir („Annes og eyjar“), — í grápappírskveri, sem vísan eftir Maren Havsteen er á aftast (sjá bls. 129 og 364); Jónas hefir ekki tölusett þetta kvæði með kvæðunum í þeim flokki, sem eru í heftinu, enda á það ekki heima í honum. Fyrirsögn er engin í ehr. — Í 1. og 6. er., 4. l., hefir Jónas fyrst skrifað „Sæmundar“, en síðar leiðrétt það. Sigmundarsteinn er stór steinn í svo-nefndri Sigmundarurð, sem er neðan-við Kervíkurfjall, sunnarlega á Heimaey og að austanverðu. Sjá um hann í IV. b., bls. 284. — Í 1. er., 6. l., hefir Jónas einnig fyrst skrifað „háum“, en strikað yfir það og sett „votum“ fyrir ofan. — Í 7. er., 4. l., hefir Jónas strikað yfir „Maður“ og bætt aftan-við l. í staðinn orðinu „Babel“, og enn „Abel“, en strikað aftur yfir síðara nafnið. Í 1.—3. útg. hefir l. verið höfð svo sem hún var í fyrstu, og nú er hún bezt svo. — Abel mun vera Johan Nicolai Abel, sýslumaður í Vestmanneyjum 1821—52; Jónas segir, að hann hafi verið „en dygtig Jæger“ (sbr. V. b., bls. 74).

*Bls. 122—128.* — ANNES OG EYJAR. — Ehr. eru til af öllum kvæðunum í þessum flokki; 1.—10. eru í grápappírsheftinu í K. G. 31 a, og hefir Jónas tölusett þau þar sjálfur, fyrst með bleki, þegar hann skrifaði þau í kverið, en síðan hefir hann breytt töluröðinni dálítið með blýanti; 1.—4. hefir hann einnig hreinskrifað síðar á hvíta smáörk (st. 22,8 × 18 cm.), sams konar og kvæðaheftið, sem er í Bmf. 13 fol., sbr. aths. við „Ferðalok“ (bls. 322) og víðar, og mun þessi örk hafa tilheyrt því hefti í fyrstu. 8. kvæðið er einnig í gamla ljóðakverinu, K. G. 31 b I, skrifað á aftasta blað. Af 11. eru 2 blýants-frumrit í grápappírsheftinu í K. G. 31 a, og er hvorugt eins og kvæðið er sett í 1. (og 2.—3.) útg., enda hefir Jónas strikað yfir þau bæði, og ekki tölusett kvæðið þar með hinum kvæðunum í heftinu. Hann hefir skrifað það á ný, og 12. kvæðið hjá, á laust grápappírsblað, sem er einnig í K. G. 31 a; það er jafnstórt örkunum í grápappírsheftinu og hefir líklega tilheyrt því í fyrstu, en svo hefir það verið brotið í smáörk á hinn veginn (20,6 × 8,4 cm.); á 1.—2. bls. hefir Jónas skrifað með blýanti háðklausu á dönsku um ráðning bandrúna, 3. bls. er auð, en á 4. eru þessi 2 smákvæði, fyrirsagnarlaus, skrifuð langsum. Á hreinskrifuðu

örkinni hvítu, í K. G. 31 a, þar sem 1.—4. kvæði eru í réttri röð, er fyrirsögnin „Annes og eyjar“. Hún á vel við þau kvæði, en að sönnu ekki við 7.—12. kvæði, og hefir þó verið sett hér. — Í 1. (—3.) útg. er yfirskriftin „Á sjó og landi“; er hún ekki höfð hér, því að hún á ekki alls kostar vel við heldur. — Neðan-við fyrirsögnina „Annes og eyjar“ hefir Jónas skrifað með blýanti: „Með motto: „Hann er farinn að laga sig eftir Heine“.“ Því eru þau orð sett hér einnig. — Hefir einhver sagt þetta um Jónas, hann heyrt það, vitað, að nokkuð var hæft í því og sett það hér að gamni, því að helzt gat það átt við um þennan kvæðaflokk. — Kvæðin eru öll, 12, jafnlöng, hvert 3 er., og sami bragarháttur á öllum, sá er Heine notaði mikið, sbr. VII. kvæði (á bls. 22) í kvæðaflokknum „Smákvæði eftir Heine“ hér.

1. ÓLAFSVÍKURENNI. — Jónas hefir farið fyrir Ólafsvíkurenni 8. Ág. 1841. Farið er undir hamrinum (2.—3. er.). — Eggert, — sbr. „Hulduljóð“ (bls. 82—88). Hann fórst á Breiðafirði 30. Maí 1768. — 1. er., 1. l., í frumr. „fram í“, í afskr. (á örkinni) „fram um“; í 2. er., 2. l., „brosir“ í frumr., en breytt þar í „blikar“.

2. HORNBJARG. — Jónas kom aldrei á þær slóðir, sem hann nefnir í þessu kvæði, en að vísu nokkuð í grennd við þær sumarið 1840, 27. Ág., að Látrum (við Látravík vestari). — Aths. neðanmáls eru eftir Jónas; hin fyrri er skrifuð með blýanti á afskriftina, hin síðari er í frumr. Um Jón lærða Guðmundsson sjá Landfræðiss. Ísl., II., bls. 73—93, og Safn til sögu Ísl., V., nr. 3. Þetta um hvíta örninn er í þeim kafla í riti Jóns „um Íslands aðskiljanlegu náttúrur“, sem er um selakyn við Ísland. Jón segir þar svo (sbr. „Annotationsbog“ Jónasar 20. Jan. 1841, III. b., bls. 125—35, m. aths.): „Hafísnum fylgja og hvítir birnir, hvítir fálkar og refar, hvítflekkóttir hrafnar, og ein alhvít örn hreiðraði sig í fuglabjargi á Hornströndum“. — Síðari aths. (neðanmáls á bls. 123) er einkunnarorðin, sem letruð eru á framhlið háskólans í Kaupmannahöfn og merkja: „Hann lítur á hið himneska ljós“, eða „horfir í himinljómann“, og því hefir Jónas sett þau orð innan tilvitnunarmerkja í frumr. — Í 2. er., 1. l., hefir Jónas fyrst skrifað „þá“ í frumr., en strikað yfir og sett „er“ fyrir ofan; svo myndi hann þá hafa viljað breyta víðar í eldri kvæðum sínum.

Olaf Hansen lagði 1.—2. er. út á dönsku (Isl. Renæssance, bls. 120).

3. DRANGEY. — Þegar Jónas reið suður aftur 1841, fór hann upp á Mælifellsdal, 18. Sept., skoðaði þá Mælifellshnúk og

dró upp mynd af honum (sjá III. b., bls. 204). — 3. er., sbr. Grettissögu, sérstaklega upphaf 74. kap. og endi 80.

2. er. var þýtt á dönsku af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, bls. 120).

4. KOLBEINSEY. — Hvanndalabræður svo-nefndir, þeir Bjarni, Jón og Einar Tómassynir, fóru út í Kolbeinsey fyrir Guðbrand biskup Þorláksson sumarið 1616. Komust þeir þar í lífsháska um stund, því að þeir misstu frá sér skip sitt, en þeir náðu því aftur og komust heim heilu og höldnu. Ekki mun getið neinnar systur þeirra í sambandi við ferð þeirra, og ekki beruðu þeir beinin á Kolbeinsey.*) — 3. er., sbr. vísu Styrbjarnar, er fór með Hrólfi rauðsenzka að leita Gunnbjarnarskerja, Landnb., útg. 1925, bls. 86. Þeir Hrólfur og Styrbjörn vógu tvo af félögum sínum þar nyrðra, er þeir höfðu vetursetu, en ekki voru þeir menn bræður; bræður tveir, er voru með í förinni, „svörðu eiða til lífs sér". Mun því ekki átt við þessa frásögn, þó stældar séu 3. og 4. l. í vísu Styrbjarnar í fyrri helming 3. er., enda segir ekki í Landnb., að þeir Hrólfur hafi hafzt við á Kolbeinsey.

Gömul munnmæli eru um það í Grímsey, að þeir Grímur, sem hún er kennd við, og Kolbeinn, sem sú ey ber nafn af (sbr. Svarfdælasögu, 21. kap.), hafi verið bræður,**) en engin saga mun segja neitt því líkt um þá og það, sem er í vísunum. Í 1. og 3. er. er eflaust átt við sömu bræðurna. — Getur verið, að skáldið hafi vikið dálítið við sögunni um Hvanndalabræður eða hér sé átt við aðra.***

Utan-með 1.—2. er. hefir Jónas skrifað langsum á hreinskrifuðu örkina þessa gömlu vísu:

Margur sundur molar stinn
mein svo lund ei kvartar;
getur undir glaðri kinn
grátið stundum hjarta.

Í 1.—3. útg. er sett „hlessa" í 2. er., 3. l., f. „hissa", sem er í báðum ehr.

5. MÁNEY. — Hér felst annað undir en orðað er.

Í 2. er., 3. l., hefir Jónas skrifað fyrst „fjöru", en strikað yfir það og sett „grjótið" fyrir ofan. — Í 3. er., 3. l., er orðið „bringubrotinn" undirstrikað í ehr.

---

*) Sjá t. d. Esp. Árb., V., 35, Ísl. þjóðs., II., 125—27, Landfrs. Ísl., I., 215—17, Lýs. Ísl., I., 131—32, og Blöndu (Sögurit XVII.), I., 149—62.

**) Sjá sóknarlýsing Grímseyjar í hrs. Bmf., nr. 21 fol. (í Landsbókas.).

***) Sbr. þó Eimreiðina, 39. ár, bls. 298—99; en ekki er sú vísa, sem þar er sett, líkleg til að vera gömul, heldur nýort og nokkuð í líkingu við þessar vísur Jónasar.

Olaf Hansen lagði út á dönsku 1.—2. er. (Isl. Renæssance, 120—21).

6. SKRÚÐURINN. — Jónas hefir skrifað lýsing á Skrúðnum í ritgerð sína „Eyjar og sker“, sem hann ætlaði í Íslandslýsinguna, sjá IV. b., bls. 262—64. Segir hann þar, að í helli miklum í eynni eigi „að búa bjargbúi einn, sem kallaður er Skrúðs-bóndi“, og að margar sögur gangi enn af honum.*) Margt fé er látið ganga í eynni, en hann tekur „alla hornótta hrúta í hagatoll, sem settir eru í Skrúð, og var það lengi siður Vattarness-bænda,**) að gefa honum einn hrút á ári, því satt er það, þeir hverfa fremur öðru fé úr Skrúðnum, — því hornin munu stjaka þeim frá berginu, svo þeir hrapa í sjóinn, þegar þeir tildra sér á hillurnar“. E. fr. segir hann, að séra Ólafur Indriðason, prestur á Kolfreyjustað, hafi 1838 fundið „litla uppsprettulind norðanmegin hellisins, skammt frá sjávarmáli, með væmið vatn og saltkennt, svo sem því svarar, að helmingi eður fjórðungi lóðs væri blandað í 1 pott af hreinu vatni“.***) Þetta mun nú nægja til að skýra vísurnar rétt og sjá, hvað Jónas á við, en bæta má því við, eftir bréfi frá Br. Brynjólfssyni á Eskifirði, að „það var algeng sögn og trú í Reyðarfirði og Fáskrúðsfirði fram um 1860, að væri hrútur látinn með ám í Skrúðinn að hausti, yrðu ærnar málbærar að vorinu. Skrúðs-bóndinn sá um það“. — Sami maður (Br. Br.) hefir einnig gefið þessa lýsing á „pæklinum“: „Það var líka gömul trú og sögn í Reyðarfirði og Fáskrúðsfirði, að vatnið í Skrúðs-hellinum væri sá bezti svaladrykkur, sem maður gæti fengið, en væri eldaður matur í því, þá þyrfti ekki að láta salt í, því að maturinn yrði mátulega saltur úr því vatni“. — Mun þarna blandað málum. Jónas segir í Skrúðslýsingu sinni: „Inn-við stafn í hellinum er lítil stöðuvatnstjörn, með tæru vatni, ísköldu og bragðlausu“. Kemur þetta heim við það, að það sé sá bezti svaladrykkur, sem menn geta fengið; en vatnið, sem var mátulega salt til að sjóða mat í, mun vera úr lindinni, er séra Ólafur fann, þ. e. „pækillinn“. — En á síðari hluta 3. er. gefur Br. Br. þessa skýring: „Það er Gísli læknir Hjálmarsson og Ólafur prestur Indriðason, sem Jónas á

---

*) Sbr. Þjóðsögur Jóns Árnasonar, I., 196—97, Þjóðsögur Jóns Þorkelssonar, bls. 150—51, Sagnakver Björns Bjarnasonar, II., 33—37, Þjóðsögur Sigfúsar Sigfússonar, IV., 241—46, og Nönnu (Jóns Ólafssonar), I., 16—20. — Fyrir minni Skrúðs-bónda. Kvæði eftir séra Ólaf Indriðason.

**) Skrúðurinn liggur undir Vattarnes.

***) Lýsing Jónasar á Skrúðnum er öll dregin út úr Skrúðslýsingu séra Ólafs Indriðasonar, sem er í lýsingu Kolfreyjustaðarsóknar eftir hann (í hrs. Bmf., nr. 18, fol.).

við; þeir höfðu báðir sagt Jónasi þetta o. fl. um Skrúðinn og þjóðtrúna, en þeir voru báðir manna kátastir og smáhæðnir, þegar þeir vildu hafa það við, og hentu þeir gaman að þjóðtrúnni við Jónas. — Þetta sagði mér móðir mín, Siggerður Jónsdóttir frá Dölum í Fáskrúðsfirði, en hún heyrði föður sinn og séra Ólaf eiga tal um þetta“.

Þetta síðasta mun vera rétt. Í aths. framan-við kvæðið í 3. útg. er einnig sagt, að Jónas eigi hér við þá Gísla lækni og séra Ólaf á Kolfreyjustað.*) En hitt mun ekki rétt, sem þar stendur, að séra Ólafur hafi farið með Jónasi út í Skrúðinn, og að Jónas hafi þá séð þar „pækil þenna **) og hrút einn ferlega mikinn“ (3. útg., bls. 222—23, sbr. Fjallkon., XI., 33). Jónas fór aldrei út í Skrúðinn. Í ferðabók sinni frá 1842, þegar hann fór um Austfjörðu, nefnir hann ekki Skrúðinn á nafn. Hann kom ekki heldur að Kolfreyjustað, en þeir séra Ólafur og hann hafa sennilega hittzt einhvers staðar í þessari ferð. Jónas fór Reynidalsheiði frá Gilsá í Norðurdal að Dölum í Fáskrúðsfirði 12. Ág.; þaðan fór hann næsta dag Stuðlaheiði að Stuðlum í Reyðarfirði, og svo næsta dag þar á eftir, sunnud. 14. Ág., frá Stuðlum um Hólma og Eskifjörð út að Helgustöðum, o. s. frv. (sjá dagb., III. b., bls. 236—37). — Gísli Hjálmarsson bjó á móti föður sínum á Hallormsstað þetta sumar. Jónas kom þangað 29. Ág. og var þar nótt. En Gísli mun þá hafa verið farinn til Hafnar nokkru áður; hann sigldi þetta sumar aftur til þess að halda áfram námi við háskólann. En næsta vetur voru þeir, Jónas og Gísli, saman í Höfn,***) og þá hefir eflaust margt borizt í tal frá ferðinni um átthaga Gísla. — Frá þessum vetri munu vera vísurnar um Skrúðinn, og að líkindum allur þessi vísnaflokkur, „Annes og eyjar“, og sennilega hefir Jónas skrifað kaflann um „Eyjar og sker“ (sjá IV. b., bls. 260—302) um sama leyti.

7. SUÐURSVEIT. — Jónas fór um Suðursveit í Hornafirði 28.—29. Júlí 1842. — Það er jafnvel svo að sjá sem vísurnar séu gerðar þar, eða svo á það að líta út. — 1. er., 4. l., lýtur líklega að sögunni um hornfirðinginn, sem kom í kaupstaðinn og þótti þá allt lítilmótlegt heima, jafnvel einnig tunglið, það var eitthvað stærra í kaupstaðnum „en helvítskur Hornafjarðar-máninn“. — 3. er., 1. l., hefir fyrst verið svo: „Og burstin á bænum

---

*) Sama fullyrðir einnig Sigfús Magnússon (Toppenish, Washington) í bréfi til Bókmfél., dags. 2. Júlí 1929. — Hann fæddist 1845.

**) Sem sagt er í þessari sömu skýringargrein, að sé uppþornaður sjór í klettaskálum.

***) Sbr. Æfiminning Gísla Hjálmarssonar, Kh. 1880, bls. 13—14.

sjálfum“, en Jónas hefir breytt henni í ehr.; 4. l., aths. nm. hefir Jónas skrifað sjálfur hjá vísunni. — Mun nú erfitt að gefa rétta skýring á þessu, og ekki var neinn Sigfús í Suðursveit um þetta leyti. — Á einum bæ á Rangárvöllum (Keldum) hafa sauðarleggir verið settir saman í garðvegg um langa hríð; er þarna nú orðinn álitlegur stafli, og er hann hluti af veggnum. Það kvað hafa átt sér stað víða í Skaftafellssýslu, að stafla þannig sauðarleggjum. Bæjardyraburstin, sem Jónas á við, kann að hafa verið hlaðin á sama hátt, úr eintómum sauðarleggjum, eða þeim staflað í burst upp yfir bæjardyrnar.

8. RÉTTARVATN. — Arnarvatnshæðir eru sunnan-við Arnarvatn, á Arnarvatnsheiði, og liggur Norðlingavegur um þær. Jónas mun hafa farið þar um á skólaárum sínum. Þegar hann fór norður sumarið 1828, hefir hann farið þar um, sbr. „Ferðalok“ og aths. á bls. 323. Þegar hann fór norður seint í Ágústmánuði 1837, fór hann þar um (sbr. III. b., bls. 59 og 287). Þegar hann reið að norðan sumarið 1841 og fór upp á Mælifellsdal, 18. Sept. (sbr. aths. við 3. kvæði, Drangey, bls. 357), fór hann hér um í síðasta sinn; 19. Sept. hélt hann að Sauðafelli og næsta dag um Stóra-sand að Réttarvatni. — Í vasakveri hans frá ferðinni er mynd, sem hann hefir þá dregið upp, af Jökulkróknum og Eiríksjökli (sjá III. b., bls. 203). Eiríksjökull er um 10 km. fyrir sunnan vatnið.*) — Í 1. er., 2. l., hefir Jónas strikað út „fáki“ í K. G. 31 a og skrifað með blýanti „klári“ yfir, en það hefir ekki verið farið eftir því í 1.—3. útg. né hér. — 2. er. Með orðinu „norður-ásnum“ á Jónas við Svörtu-hæð, er nefnist svo (eða fyrir norðan Svart(a)-hæð og fyrir sunnan stundum Svartarhæð); Hvannamór er sunnan-undir henni, og lækurinn.

9. HESTKLETTUR. — Jónas á hér við kláfferjuna við Hestaklett (svo heitir hann nú) hjá Flatatungu í Skagafirði. „Jón í Tungu“ mun vera Jón Sveinsson, sem þar var vinnumaður fram til 1840, eða þar um bil. Jónas mun hafa farið hér um á ferðum sínum norður og norðan, þegar hann fór Sand, ef til vill í síðustu ferðinni (sjá aths. við næstu vísur á undan), þá fór hann frá Flugumýri 17. Sept. að Mælifelli. — Þessi „ás“ hinumegin (þ. e. að vestanverðu) við árgljúfrin („þessa geil“) hefir verið úr tré. Nú er þar hlaðinn stór steinstöpull, og hefir sennilega verið þá jafnframt.

---

*) Sjá um Arnarvatnshæðir og Arnarvatnsheiði ritgerð Kristleifs Þorsteinssonar í Andv., LVIII., 65—80, og enn fremur Árbók hins íslenzka Fornleifafélags 1933—1936, bls. 49—56 og 125—131, og Þorv. Thoroddsen, Ferðabók, IV., 93—94.

Jónas hefir gert breytingar í ehr. Í 1. er., 4. l., hefir hann fyrst skrifað „byrgt fyrir“, f. „brú yfir“. Í 2. er., 4. l., „við“ („í“), f. „um“. Í 3. er. hefir 1.—2. l. fyrst verið svona:

„En Jón minn í Tungu telur
þær „taki solítið feil“.“

Síðan þannig:

„En Jón minn, tetrið, í Tungu
tróð upp í þessa geil, —“.

Loks hefir Jónas breytt þessu (með blýanti).

10. ARNARFELLSJÖKULL. — Jónas á við ferð J. C. Schythe 1840. Skýrsla um hana kom út næsta ár, í H. Krøyers Naturhist. Tidsskr., III., bls. 331—94, „En Fjældrejse i Island i Sommeren 1840“. Jónas getur um hana í bréfi til Jap. Steenstrups, dags. 4. Okt. 1841, sjá II. b., bls. 102—3. Þeir Schythe og fylgdarmenn hans riðu 1. Júlí upp undir Arnarfellsjökul; „um kvöldið kl. 11 settust þeir að undir Arnarfelli, og dvöldu þar næsta dag“, o. s. frv., sjá Landfrs. Ísl., IV., 55.*) — Jónasi hefir ekki fundizt mikið til um frásögnina af Arnarfellsjökli. — Þorv. Thoroddsen segir einnig, að ferð þessi hafi haft „lítinn sem engan vísindalegan árangur“. Hrepptu þeir Schythe mikið illviðri og komust í hann full-krappan áður en þeir náðu mannabyggðum.

Í 1. er., 4. l., hefir Jónas fyrst skrifað „framandi“ og síðan „Danir“ yfir. Í 3. er., 3. l., hefir hann fyrst skrifað „þér ættuð“, en breytt því síðan í „þeir ættu“.

11. SOGIÐ. — Jónas, og Jap. Steenstrup með honum, var um kyrt á Úlfljótsvatni mánud. 6. Júlí 1840 og daginn eftir fór hann niður-með Soginu, og austur að Hjálmholti um kvöldið.**) Þá mun hann hafa orðið fyrir mýinu. — Þórður, sem Jónas nefnir, er bóndinn á Úlfljótsvatni; hann var Gíslason.***) — Jónas fór yfir Sogið aftur 26. Sept. s. á., en þá var orðið of áliðið til þess, að mýmökk bæri fyrir sólina. — Mý kemur ekki upp fyrir Jónsmessu og ekki eftir 20. Ág.

Í ehr. hefir Jónas gert nokkrar breytingar. Í 1. er., 1. l., hefir fyrst staðið „Sogið sá“, f. „Við sogið sat“. Í 2. er., 1. l., „kom“, f. „reis“, og í 2. l. „sveipar“, f. „sveipaði“. Í 3. er., 1. l., „er“ f. „var“, og í 3. l. „sortnar“ f. „sortnaði“. — Blýantsfrumritin í grápappírsheftinu eru dálítið frábrugðin, og ekki eins bæði. Hið fyrra hefir eftir ýmsar breytingar orðið svona:

---

*) Sbr. Ann. 10. aldar, II., 145—47.
**) Sbr. áfangaskrá í vasakveri Jónasar frá 1840, III. b., bls. 121.
***) Afi Magnúsar Jónssonar, próf. í lögfræði.

„Sogið sá eg í veðri,
sækaldri norðanátt;
harðlega hristust þá allar
hurðir á hverri gátt.

En sólin kom hin sæla,
sveiflaði kuldanum burt,
og upp komu allar skepnur
með yndi og fegurð og kurt.

Þar var of margt af mýi,
margt dýrið fyrir ber.
Þórði sýnist það sanngjarnt
og sópar framan úr sér“.

Í síðara frumr. hefir 1. er. orðið eins, en í 2. er. hefir 2. l. orðið svona: „sveiflaði kulda frá“; og hin 4. svona, að því er helzt virðist: „yndis-lifandi þá“. Í 3. er. er 2. l. svona: „mökk fyrir sólu ber“. Að öðru leyti hefir síðara frumritið orðið eins og hið fyrra.

12. TÓMASARHAGI. — „Vorið 1835 ætlaði Tómas Sæmundsson með konu sinni suður Sprengisand, en villtist af leið austur undir Tungnafellsjökul; þar fann hann grashaga þann, sem síðar er kallaður Tómasarhagi“, segir Þorv. Thoroddsen í Landfrs. Ísl., IV., 52. Og í Skýrslum og reikningum Bókm.fél. 1843, bls. XXIII (sbr. Landfrs., III., 315—16), segir Björn Gunnlaugsson svo frá Tómasarhaga: „Mitt undir þeirri síðu Tungnafellsjökuls, er snýr að Arnarfellsjökli, stendur fell nokkuð hnöttótt, hæzt af öllum hnúkum þar, og þétt við jökulinn, með þröngu skarði á milli. Undir fellinu þeim megin, sem snýr frá jöklinum, eru sléttir melar, og á þeim miðjum er grasflötur, fram-undir kýrvöll að stærð, sem er Tómasarhagi“.

Jónas fór aldrei Sprengisand og kom aldrei í Tómasarhaga.

„Tungnajökli“ stendur í ehr., fyrir „Tungnafellsjökli“. — Í 1. er., 4. l., hefir Jónas fyrst skrifað „blessunar“, en strikað yfir það og sett „fróunar“ fyrir ofan. Í 2. er., 1. l., hefir hann sömuleiðis skrifað fyrst „eitt sinn“, en strikað það út og sett „áður“ fyrir ofan; í 4. l. virðist hann fremur hafa breytt „á“ í „í“ en „í“ í „á“.

*Bls. 128.* — EINBÚINN. — Ehr. í K. G. 31 b I, frumrit, á sama blaðinu og „Réttarvatn“, sem er 8. kvæðið í flokknum „Annes og eyjar“ hér á undan. Í 1. er. hefir 6. l. verið svona fyrst: „á öldum, á fjöllum, í gjótum“, en er breytt í ehr. Í 2. er., 2. l., hefir Jónas breytt „hef orðið“ í „er orðinn“, og í 3. l. „það“ í „þar“. Í 5. l. „og á“ í ehr.; „ég“ skotið inn rímsins vegna í 3. útg., og er því haldið hér.

*Bls. 128—129.* — MÓÐURMISSIR. — Ehr. í K. G. 31 a, á litlum miða (st. 8 × 14 cm).*) Er. er þar fyrirsagnarlaust, en

*) Fyrst hefir Jónas skrifað á hann með blýanti nokkrar aths.

undir því stendur „P. J. Havstein".*) Prentað fyrst í 1. útg. með þeirri fyrirsögn, sem hér er, en án nokkurra aths., og ekki er þess getið heldur í 2.—3. útg., að það sé ort undir nafni Péturs Havsteins. Sbr. að öðru leyti næsta kvæði. — Einkennilegt er, að vanta skuli fyrri stuðulinn í 5. l. og hinn síðari í 7.

*Bls. 129.* — EFTIR MAREN HAVSTEEN. — Tvö ehr. í K. G. 31 a, bæði skrifuð með blýanti, og eru þau uppköst að grafskrift eftir frú Havsteen. Annað er aftast í grápappírskveri (st. 16,8 × 10,3 cm), sem nokkrar af vísunum úr kvæðaflokknum „Annes og eyjar" eru á, en hitt er á 2. bls. í smáörk (st. 18,2 × 11,5 cm), sem er auð að öðru leyti. Þar er grafskriftin nokkru fyllri og er svona:

H. h.**)
góð kona og guðhrædd:
Maren Havsteen, fædd Birch,
borin í þenna heim í Friðriksborg á
Sjálandi .. d. Febr.-m. 1776
giftist Jacobi kaupmanni Havsteen
d. ...... mán. 1796
og ól honum 8 börn, er öll komust
til þroska;
andaðist ekkja á Hofsósi 3. d. ....***) mán. 1843.

---

„Eg mun uppljúka gröfum þeirra", segir drottinn.

Síðan kemur er. Á eftir því stendur þetta í hinu ehr. (kverinu):

Börn hennar misstu ástríka móður,
vinir og vandamenn unað sinn
og margur fátækur aðstoð sína.

Frú Maren Havsteen (eða Marin Havstein) var móðir Péturs Havsteins (Peter Havsteens), síðar amtmanns, sem Jónas hefir ort fyrir næsta kvæði hér á undan. Sbr. að öðru leyti aths. við það. — Jónas hefir að líkindum gert grafskriftina alla, með þessu er., fyrir Pétur Havstein.

---

eða leiðréttingar, líklega við Íslands-uppdráttinn, sem Bókm.-fél. var að láta prenta.

*) Þ. e. Jørgen Peter Havstein (eða Havsteen), síðar amtmaður, faðir Hannesar ráðherra Hafsteins. — Um hann og ætt hans sjá mánaðarblaðið Heimdall, Kh. 1884, bls. 129—32 og 146—50.

**) Í hinu ehr. stendur „Hér hvílir".

***) Hún dó 3. dag Ágúst-mánaðar.

Er. er eins, að heita má, í báðum ehr.; að eins fyrstu orðin eru öðruvísi í kverinu: „Svo sem“, f. „Sem þá“. — Það er ort undir hinu gamla sálmalagi „Til þín, heilagi herra guð“ (eða „Hver sem að reisir hæga byggð“).

*Bls. 129—30.* — TIL MÓÐUR MINNAR. — Ehr. í K. G. 31 a, frumrit, skrifað í flýti, og 2. er. óljóst, á síðari hluta sendibréfs frá Þórði Jónassyni (Jonassen) yfirdómara, líklega frá haustinu 1843; er getið í bréfinu fráfalls ýmsra, sem þá voru nýlega dánir. Jónas skrifaði Þórði 26. Sept. það ár (II. b., bls. 151—53); minnist hann þar ekki á þetta bréf; hefir sennilega fengið það síðar um haustið. Kvæðið er fyrirsagnarlaust, en Jónas virðist hafa ort það til móður sinnar. Ekkert bendir til, að það hafi verið eða átt að vera lengra. Fyrra er. er nokkurn veginn skýrt og mun rétt lesið; það er í 1.—2. útg.; en 2., 4. og 8. l. í 2. er. eru óskýrar, og er vafasamt, hvort rétt séu lesnar (sbr. 3. útg.); einkum er það svo um 1. orð 2. l., 4. í 4. og 3. í 8. Síðustu línurnar 3 í 2. er. hafa í fyrstu verið öðruvísi, en Jónas hefir strikað yfir þær og skrifað aðrar ofan-við. Hinar upphaflegu eru mjög ógreinilegar. — Bragarhátturinn er hrynhenda og bæði er. heil.

*Bls. 130—131.* — DALVÍSA. — Tvö ehr. eru til; annað á lausu blaði, smáörk (st. 12,5 × 9,5 cm), J. S. 129, fol.; það hefir Jónas sent frá Sórey, þar sem kvæðið er ort, til Fjölnismanna í Höfn; það var lesið á fundi þeirra 20. Jan. 1844 og gefið út í Fjölni það ár, VII. árg., bls. 27—28; hitt er í skrifbókinni, sem „Hulduljóð“ eru í (K. G. 31 b V), og er þar sett við það dagsetningin $^{15}/_{1}$*); þar er kvæðið hreinskrifað, en við fyrirsögnina yfir kvæðinu á smáörkinni, sem send var Fjölnismönnum, hefir Jónas sett í sviga: „Se Noten!“, og hún er neðst á 3. bls., neðan-undir síðasta er.: „Nóta! — Það er bezt að hreinskrifa þetta fyr en maður les það sér til uppbyggingar“. E. fr. hefir Jónas skrifað þetta hjá aths.: „Eg ætla að biðja ykkur**) að láta búa til fallegt lag, ekki of dýrt, við vísuna mína“.***)

---

*) Brynjólfur Pétursson hafði skrifað Jónasi 13. Jan. m. a.: „Þú verður, blessaður, að gefa okkur kvæði, ef þú átt nokkurt til“, — nefnil. í Fjölni. Jónas hefir fengið þessa áskorun næsta dag eða sama daginn og hann ritaði þetta kvæði í minnisbók sína.

**) „atl' að biðj ukkur“, skrifar hann í spaugi.

***) Brynjólfur Pétursson svaraði þessu svo, í bréfi, dags. 12. Febr.: „Ég skrifaði upp Dalvísuna þína eins og þú baðst mig. Ekki hefi ég látið búa til lag við hana, því það er ekki hægt að leggja hana út, af því hún er nokkuð „ejendommelig og original“. Ég las hana upp á fundi (þ. e.: Fjölnismanna) og fundarmenn sögðu hún væri falleg og skrítin, og báðu mig að biðja þig að gefa Fjölni

Jónas kallaði kvæðið „Dalvísu" í báðum ehr., og sama fyrirsögn er í Fjölni. Sömuleiðis nefndi hann næsta kvæði „Sláttuvísu" og enn síðar eitt „Vorvísu" (sjá bls. 143.*) Þessum fyrirsögnum hefir verið breytt í 1.(—3.) útg.; hafa ekki þótt koma heim við gamla og góða, íslenzka málvenju, er um kvæði með mörgum er. eða vísum var að ræða.

Jónas hefir gjört nokkrar breytingar í frumr. í J. S. 129, fol. Í 3. er. hefir hann fyrst haft 5. l. svona: „allri skepnu ertu kær", og byrjun 6. l.: „uni eg bezt" (og svo: „ann eg þér"). Í 4. er., 6. l., „oss", f. „dal". Í 5. er., 1. og 7. l. „sveitagull", f. „sveitin bezt", 3. l.: „svo sem mörg er sauðarull", 4. „prýðigull", f. „prýðin bezt"; 5. l.: „svo er grund þín gæðum full". — Í K. G. 31 b V er kvæðið hreinskrifað með öllum leiðréttingum og er eins, nema að því leyti, að „yður" er sett þar í 3. er., 5. l., f. „ykkur" („ukkur"). — Í Fjölni er sett „ykkur", sem réttara er, en í 1. er., 5. l., er þar sett „yður" (sem er einnig réttara þar), f. „ykkur" („ukkur") hjá Jónasi. — Í Fjölni er einnig sett „er" í 4. er., 6. l., f. „þá"; og í 3. l. í 5. er. er „þú", f. „þá", sem er í ehr., en „þú" er prentvilla, sem er leiðrétt framan-við; í 1.—3. útg. og hér er sett „er" f. „þá", eins og víðar, er eins hefir staðið á.

Bragarhátturinn er sami og á kvæðinu „Eg vil kyssa" (bls. 229—30), sem er nokkrum vikum yngra, en Jónas hefir sennilega þekkt frumkvæði Chamissos, er hann orti „Dalvísu".

Í Ísl. þjóðl. eru 2 lög við þetta kvæði, á bls. 606—7 og 617—18. Þau hefir Jónas sjálfsagt ekki kunnað. Árni Thorsteinsson tónskáld hefir einnig búið til fallegt lag við þetta kvæði, og hefir það náð mikilli útbreiðslu, en ekki er það með þeim léttleik, sem er á kvæðinu.

Kvæðið hefir verið lagt út á dönsku af Carl Rosenberg (sbr. Valt. Guðm., Isl. Kultur, 133—34) og af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 106—7, Udv. isl. Digte, 106—8), og á þýzku af J. C. Poestion (Isl. Dichter d. Neuzeit, 353—54, Eislandblüten 57—58).

*Bls. 131—132.* — SLÁTTUVÍSA. — Tvö ehr. eru til; annað í J. S. 129, fol., smáblað (st. 13,2 × 7,5 cm), sent Fjölnis-mönnum; hitt ehr. er skrifað rétt á eftir „Dalvísu" í K. G. 31 b V, sama dag, að því er virðist (15. Jan.). Lesið fyrst á fundi í Fjölnisfélagi 2. Marz 1844; frumpr. í Fjölni þ. á., VII., 28—29. Þar og í báðum ehr. er kvæðið kallað „Sláttuvísa", en í 1.—3.

---

hana. Þú gerir það! Nicht wahr? Þú verður blessaður að senda okkur eitthvað meira. . . .".

*) Sbr. e. fr. fyrirsagnirnar fyrir kvæðunum „Skrælingjagrátur" og Kaupfararskál (bls. 176—78).

útg. „Sláttuvísur"; sbr. aths. við „Dalvísu", næsta kvæði hér á undan.

Fyrir neðan þessi kvæði hefir Jónas skrifað í K. G. 31 b V: „Það er annars ógjörningur að eiga sér ekki lög til að kveða þess konar vísur undir; svona komast þær aldrei inn hjá alþýðu".

*Bls. 132—133.* — ALSNJÓA. — Tvö ehr., í J. S. 129, fol. og í K. G. 31 b V; hið fyrra sent Fjölnismönnum, en hið síðara hreinskrifað í skrifbókina 25. Febr. 1844, eða næst á eftir öðru kvæði, sem hefir verið skrifað þar þann dag. Sbr. aths. við 2 næstu kvæði hér á undan. Í J. S. 129, fol., er það síðast af 3 kvæðum á smáörk (st. 22,3 × 13,5 cm). Í 1.—3. útg. og hér er kvæðið prentað eins og það er í K. G. 31 b V; í J. S. 129, fol., hefir Jónas strikað yfir „út" í 1. er., 3. l., og í 2. er., 1. l., hefir hann haft „er" fyrir framan „snjór".

*Bls. 133.* — ÉG BIÐ AÐ HEILSA. — Ehr. í K. G. 31 b IV, sem er skrifbók eins og K. G. 31 b V; er þetta eina kvæðið í henni og sett inn á milli greina um hvalakyn við Grænland. — Aftan-í henni er Selaflokkurinn, sbr. V. b., bls. 17—20, en að mestu er hún auð og óskrifuð. Jónas sendi kvæðið frá Sórey til Fjölnismanna um mánaðamótin Marz—Apríl 1844, og eftir því hr. hafa þeir látið prenta það í Fjölni þ. á., VII, 105—6. — Jónas minnist á þetta í bréfi til Páls Melsteds yngra 5. Júlí s. á. (sbr. II. b., bls. 188, m. aths.). — Á bréfi frá Brynjólfi Péturssyni til Jónasar, dags. 10. Apríl, má sjá, að í því hr. hefir staðið „þau" f. „og" í 1. er., 3. l., og „Söngvarinn" f. „Vorboðinn" í 3. er., 1. l. Brynjólfur skrifar nefnilega, að þeim Konráði líki ekki þessi orð; en annars segir hann: „Mesta gull er hún, kveðjan þín, góði minn". Nú má sjá, að Jónas hefir fyrst skrifað „og" í 1. er., 3. l., í K. G. 31 b IV, en sett síðar „þau" fyrir ofan, og þó aldrei strikað yfir „og". — Í K. G. 31 b IV er kvæðið að þessu leyti frábrugðið því, sem það er í Fjölni og hér: 1. er., 3. l., „út", f. „heim". Í 2. er., 2. l., „haf", f. „hæð", og „land" f. „sund", og í 3. l. „leiði", f. „kyssið". Í 3. er., 1. l., „Söngvarinn" f. „Vorboðinn", 3. l. „lágan (fyrst „grænan") dal", f. „sumardal", 5. l. „grænan", f. „rauðan".

Kvæðið er með „sonettu"-hætti, sem er ítalskur að uppruna. Eru 2 er. með 4 l. („kvartettur") og 2 með 3 („terzettur"), og svo hefir kvæðið verið prentað í öllum útg., en í K. G. 31 b IV hefir Jónas skrifað síðari erindin saman, svo sem eitt óskipt er., enda mynda þau óslítandi heild. — Hann hefir látið línurnar ríma saman í fyrri er. fyrir sig og í hinum síðari fyrir sig á svipaðan hátt og algengast var, en þó ekki fyllilega eins, enda var oft brugðið út frá því.

Kvæðið hefir verið þýtt á dönsku (tvisvar) af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 108, Ny-isl. Lyrik, 51, og Udv. isl. Digte, 159) og á þýzku af J. C. Poestion (Isl. Dichter d. Neuzeit, 361—62, Eislandblüten, 49—50) og Margr. Lehmann-Filhés (sbr. Valt. Guðm., Island, 176—77); tvær enskar þýðingar eru einnig til, eftir Jakobínu Johnson (í Rich. Beck, Icel. Lyrics, 57—59) og W. Kirkconnell (Icel. verse, 133—34).

*Bls. 134.* — TIL GÍSLA THÓRARENSENS. — Síðara er. er til í ehr. í K. G. 31 a, skrifað á sendibréf frá Gísla, dags. 5. Apríl 1844, þar sem hann sendir Jónasi ljóðabréf eða kvæði, er hann hafði ort til móður sinnar skömmu áður en hún dó; biður hann Jónas segja sér, hvernig honum líki kvæðið, og breyta því fyrir sig þar sem honum sýnist betur mætti fara, því hann ætli að láta prenta það í Fjölni; og svo segir Gísli e. fr.: „Gjörðu nú bón mína, vinur, gjörðu eitt eða tvö erindi aftan-við hjá mér eða í nótu, eftir því, sem þér líkar bezt, undir sjálfs þín nafni; þú þekktir hana, þegar þú þekktir amtmanninn,*) og hafðir líka séð hana, — eða gjörðu það til mín; ég þekki hjartað í þér og veit, hvaða tilfinningar þú átt innan í því; hún hafði svo oft blessað þig fyrir kvæðið eftir amtmanninn, meðan hún lifði, en nú blessa þau þig bæði saman uppí himnaríki, ef þér ferst nú aftur eins vel“. Jónas hefir þegar gert lítils háttar tilraunir til að laga kvæði Gísla, en aldrei sent honum þær, og var kvæðið prentað í Fjölni, VII., 106—8, eins og Gísli hafði ort það. Eftir lestur bréfsins hefir Jónas einnig reynt að verða við bón Gísla, að gjöra eitt eða tvö erindi til hans, og hann hefir skrifað á bréfið frá honum það erindið, sem hér er síðast. Sennilega hefir hann þó ekki sent Gísla það áður en kvæði hans kom út í Fjölni. En Gísli hefir þó síðar meir fengið það, sem hann bað um og hér er prentað, og munu þeir Brynjólfur og Konráð hafa haft það frá honum í 1. útg. — Sbr. e. fr. aths. við gamanvísurnar „Hugnun“ (bls. 181—82) og bréf þeirra Gísla og Jónasar til Konráðs næsta sumar, 13. Ág., II. b., bls. 188—92.

Móðir Gísla hét Guðrún; hún var dóttir Vigfúsar sýslumanns Þórarinssonar og fyrri kona séra Sigurðar Thorarensens í Hraungerði, frænda síns, Gíslasonar prófasts Þórarinssonar. Synir þeirra, auk Gísla, voru þeir Vigfús sýslumaður í Strandasýslu og séra Stefán á Kálfatjörn. — Frú Guðrún dó 6. Febr. 1844. — Gísli var einn af Fjölnismönnum og góður kunningi Jónasar. Hann var fæddur 1818, útskrifaður frá Bessastaðaskóla 1840. Hann varð prestur, vígðist til Sólheima-þinga 1848. Dó á

---

*) Þ. e. Bjarna Thorarensen, bróður hennar.

jóladag 1874; var þá nýlega orðinn prestur í Stokkseyrar-prestakalli. Hann þótti vel hagmæltur; ljóðmæli hans voru gefin út í Rv. 1885, og er ævisaga hans framan-við. Sbr. e. fr. Sunnanfara, XI., 27—29.

Fyrsta vísubrotið er tekið úr kvæði Gísla til móður hans, síðari hluti 3. er.

*Bls. 134—135.* — HVÍ SKYLDI ÉG EI VAKNA VIÐ. — Ehr., frumrit, á sama smáblaði og 1. er. af „Líkur sínum“ (sbr. aths. á bls. 372), í K. G. 31 a. Þessi miði og sá, sem brot úr „Formannsvísum“ eru á, heyra saman, hafa verið rifnir hvor frá öðrum og eru hlutar af stærra blaði. Kvæðið er yfirskriftarlaust í ehr., en ekki verður séð, að það hafi verið lengra. Það virðist ort til einhvers ættingja skáldsins (sbr. 1. er., 7. l.). Það og annað á þessum blöðum er sennilega frá síðari hluta ársins 1844.

Í ehr. eru nokkrar breytingar: Í 1. er., 1. l., hefir fyrst staðið „skyldi eg ekki“, f. „skyldi ég ei“. Í 6. l. „nema minnst til“ skrifað fyrst, en síðan sett, og þó í sviga, fyrir ofan „sleppt að m.“. — Í 2. er., 1. l., hefir fyrst staðið „það er“, en því breytt í „þá“; í 3. l. fyrst „þú“, svo „hún“, og fyrir „hvarf“ hefir í fyrstu verið skrifað „hneig“, og það sett fyrir annað, sem verið hefir áður á eftir orðinu „þú“ og nú er ógreinilegt vegna yfirstrikunar. — Í orðið „skrýða“ í 6. l. vantar r. — Bragarháttur hinn sami og á er. „Eftir Maren Havsteen“ á bls. 129.

*Bls. 135—139.* — FORMANNSVÍSUR. — Frumpr. í Fjölni, VIII., 34—38. Lesnar áður á fundi í Fjölnisfélagi 18. Jan. 1845. Á smámiða í K. G. 31 a er frumrit af inngangser. úr II., síðari helmingi 3. er. og öllu 4. er. úr III. Inngangser. er skrifað með blýanti, en gerðar síðar breytingar á 3 stöðum í því með bleki; í 1. l. hefir fyrst staðið „Gufa mín“ og síðan „Móðir“, fyrir „Mardöll“; í 2. l. er þar „mar“-, f. „myrk“-; í 3. l. fyrst „sendu mér á“, síðan eins og hér er; í 4. l. er þar „sjó“-, f. „sæ“-, og í 6. l. „-þurfa“, f. „-sælan“. — Í 4. er. af III. hefir í 1. l. staðið fyrst „það nægir“ og síðan „í náðum“, og loks „í næði“; í 4. l. er í frumr. „Þökk sé“, f. „Þökkum“, og í 8. l. „þungum“, f. „fermdum“.

I. er dróttkvætt, II. undir gömlu sálmalagi (sbr. „Kross á negldur meðal manna“), III. hrynhent.

Þessi kvæði hafa verið þýdd á dönsku af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 108—12, Udv. isl. Digte, 145—49).

*Bls. 139—140.* — ÉG ÆTLAÐI MÉR AÐ YRKJA —. — Þetta kvæði er á lausu blaði í J. S. 129, fol., meðal nokkurra annara kvæða eftir Jónas, sem þeir Brynjólfur og Konráð hafa

látið skrifa upp, en ekki látið prenta í 1. útg. Ehr. er nú ekki til, og þessi uppskrift virðist vera mjög óvönduð, einkum á 3. og 4. er.; sennilega hefir hún verið gerð eftir óljósu frumriti, og er sýnilega röng, einkum 4. er., 1.—3. l.*) — Í 3. er., 4. l., sem ekki er eðlilega kveðin, er „-grúa“, f. „-gráa“; í 4. er., 1. l., er „mig“ sett aftast í l.; hefir líklega verið merkt óljóst inn í hana í frumr.; í 2. l. er „á“ sett fyrir ofan yfirstrikað „með“; á eftir „að“ í fyrra skiftið hefir verið hlaupið yfir, sennilega þau orð, sem hér hafa verið sett: „fara að“. Í uppskriftinni er 3. l. svo: „Þú skulir muna mig aftur“. Vantar þá annan stuðulinn, orð, sem hefir byrjað á þ. Hér er gerð tilraun til að bæta úr þessum göllum á uppskriftinni. — Hin er. 4 eru sett hér eins og þau eru í henni. Hefir hér ekki verið gengið framhjá þessu kvæði, af því að því hefir af kunnugum mönnum verið skipað í flokk með kvæðum, sem áreiðanlega eru eftir Jónas. Engum getum skal leitt hér að því, hversu á kvæðinu kann að standa.

„Eg“ á að vera „ég“ alls staðar í þessu kvæði.

*Bls. 140—141.* — Ó, ÞÚ JÖRÐ —. — Ehr. á lausu blaði (st. 22 × 13,3 cm) í K. G. 31 a, hripað upp með blýanti, orðið mjög velkt, máð og óskýrt. Fyrirsögn engin. Fyrra er. prentað mest-allt í 1.—2. útg., og enn í 3. útg. ásamt mest-öllu 2. er. Hér eru sett bæði er., eftir því, sem næst verður komizt. — Í síðustu l. í báðum er. hefir Jónas skrifað fyrst „svei því, ef“, en strikað yfir þau orð aftur og skrifað fyrir ofan „sárt er, að“. Í. 2. er., 4. l., virðist hafa verið skrifað fyrst „máttgjafi“, en síðan strikað yfir „mátt-“ og skrifað „magn-“.

Kvæðið virðist vera heilt svo sem það er. — Hins vegar á þessu blaði er „Ein velmeint bænaráminning til G. M.“, þ. e. Gísla Magnússonar, skólakennara, sjá bls. 183—84. Hún mun hafa verið færð í letur, þegar Gísli fór heim frá Höfn 1844. Sennilega er þetta smákvæði litlu yngra.

*Bls. 141.* — STÖKUR. — Af þessu kvæði eru til 2 ehr. Hið fyrra er í K. G. 31 a; það er fyrirsagnarlaust og er skrifað með blýanti á grápappírsblað ( l. 21,3, br. 12,7—15,5 cm) og virðist vera frumrit; hið síðara er í ljóðaheftinu í Bmf. 13, fol., og er hér farið eftir því. Í frumr. er í 1. er., 3. l., „kring“ f. „í kring“; í 3. er., 1. l., „gleði“, f. „glaum“, í 3. l. „Um ógæfu mína“, f. „Í öngum mínum“, og í 4. l. „orti“, f. „yrki“. — Fremst í þessu ljóðahefti er „Ferðalok“; er lítill vafi á því, að Jónas hefir ort bæði kvæðin til hinnar sömu (sbr. aths. við „Ferðalok“, bls. 322).

---

*) Það er einnig grunsamlegt, að 2. og 4. l. enda á tvíkvæðu orði í þessu eina er.

Jónas hefir ort þessar vísur undir gamla kvæðalaginu sínu, Eyfirðinga-lagi, sbr. Ísl. þjóðl., bls. 876. — 1., 3. og 4. er. eru útlögð á dönsku, af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 113 og 116).

*Bls. 142.* — SÓLHVÖRF. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol. Á milli síðasta kvæðis hér á undan og þessa er „Skipkoma, 1830“. — Sólarkenningin í 7. l. er úr grísk-rómversku goðafræðinni.

*Bls. 142.* — JÓLAVÍSA. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., næst á eftir vísunni „Sólhvörf“. — Í 4. l. hefir Jónas fyrst skrifað „dæmin“, en sett strik yfir og skrifað „rökin“ fyrir ofan, — með blýanti. — Þetta er. er ekki alls kostar ljóst. Sbr. Eimr., 8. ár, bls. 120—21.

Lagið er gamalt íslenzkt þjóðlag, „Keisari nokkur, mætur mann“, sjá Ísl. þjóðlög, Kh. 1906—09, bls. 499 (fyrra lagið, a.).

*Bls. 142—143.* — Á NÝJÁRSDAG. — Ehr. í K. G. 31 a, á litlu blaði (st. 22,1 × 7,6 cm); fyrirsagnarlaust, en er óefað frá nýjársdag eða byrjun ársins 1845. Þetta merkilega kvæði er bersýnilega heilt; það er fullgerð „sonetta“, sbr. kvæðið „Ég bið að heilsa“ (bls. 133). Hefir þó verið kallað brot í 1.—3. útg. — Orðið „til“ í 3. er., 2. l., er ekki í ehr.; kann að hafa skorizt af, því að blaðið hefir verið helmingi breiðara, er kvæðið hefir verið skrifað á það.

*Bls. 143.* — AÐ VAÐI LIGGUR LEIÐIN —. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., næst á undan „Vorvísu“, sem hér er einnig næst á eftir. Uppskrift er í J. S. 129, fol., meðal uppskrifta (Ben. Gröndals) af öðrum kvæðum, sem sleppt var úr 1. útg. Þessi vísa hefir ekki verið prentuð fyr. — Í 1. l. hefir Jónas fyrst skrifað „Á vaðið“, en síðan breytt því. Milli vísuhelminganna hefir Jónas sett lítið strik, eins og hann vildi jafnvel skipta vísunni í tvö er., sams konar og er í kvæðinu „Grátittlingurinn“ (bls. 108—11), enda er bragarhátturinn sami.

*Bls. 143—146.* — VORVÍSA. — Tvö ehr.; hið fyrra í K. G. 31 a, skrifað með blýanti, nema 2 fyrstu er.; það er á 2 sundurlausum smáörkum (st. 17 × 10,3 og 14,3 × 9,4 cm); hið síðara er í kvæðasafninu í Bmf. 13, fol. Vafalaust frá vorinu 1845. — „A la Jón Þorláksson“. Sbr. gamankvæði séra Jóns til Bjarna Thorarensens (Ljóðabók J. Þ., II., 496—97):

„Tinda fjalla eg sé alla undir snjá;
til sín kallar Þorri þá“. O. s. frv.

Séra Jón kvað oftar undir þessum bragarhætti, t. a. m. þýðing af kvæði Horatíusar „Til Appollóns“ (Od. I, 31) og „Afturhvarfið“, sjá Ljóðabók J Þ. I., 236 og 339. — Lagið er „Krúsar

lögur kveikir bögur“, gamalt íslenzkt lag, sjá Ísl. þjóðlög, bls. 542. — Jónas hefir í báðum ehr. skipt hverju er. í 8 ljóðlínur og er því haldið hér; eins mætti þó skipta því í 9; en réttast myndi að skipta því í 6, eftir hljóðstöfunum. — Í Ljóðabók J. Þ. eru hafðar 4 l. í hverju er., eftir endarími, og þannig er einnig skipt í kvæðinu „Meðan lúinn blundar múgur“ í leikritinu „Útilegumennirnir“. — Nafninu „Vorvísa“ er haldið hér, sbr. aths. við kvæðin „Dalvísa“ og „Sláttuvísa“ á bls. 365–67. — Annað örlítið kvæði hér á eftir (á bls. 223) heitir „Vorvísur“.

Jónas hefir gjört nokkrar breytingar í ehr. Í frumr. hefir hann fyrst skrifað „græðir“ í 5. l., en „leysir“ fyrir ofan (með blýanti), og það orð er í ehr. í Bmf. 13, fol. — Í 2. er., 7. l., er „blóm“ í frumr., f. „lauf“.*) Í 4. er., 1. l., er „Fegnir“ í frumr., en í uppskriftinni hefir Jónas fyrst skrifað „Fríðir“, en strikað það út og skrifað „Prúðir“ fyrir ofan. Í 5. er., 5. l., „eður“ í frumr. Í 9. er., 4. l., „farið“ í frumr., en „vikið“ í uppskr. — Í 1.—3. útg. er ranglega prentað „á“ f. „hjá“ í 7. er., 8. l., og „sætt“ f. „sælt“ í 8. er., 5. l.

*Bls. 146.* — LÍKUR SÍNUM. — Jónas hefir fyrst haft þetta kvæði aðeins 1 er., 1. er., og eru til 2 ehr. af því; annað, sem mun eldra, á miða í K. G. 31 a (st. 13,5 × 11 cm.); þar hefir hann fyrst skrifað „hló“ í 3. l., strikað yfir það og skrifað „kvað“ fyrir ofan; og í 5. l. stendur þar „fara“, en ekki „stökkva“; — hitt ehr. er afskrift af þessu eldra (sem hann þá hefir strikað yfir), og er hún í kvæðaheftinu, sem er í Bmf. 13, fol., skrifuð næst á eftir „Ferðalok“ (sjá aths. um það kvæði á bls. 322). Í þeirri uppskrift hefir hann gert nýjar breytingar, strikað undir „bið“ í 3. l. og sett „saup“ fyrir ofan, skrifað „stökkva“ fyrir ofan „fara“ í 5. l. og gert nýja 6. l., þá sem hér er; í eldra ehr. er hún svona: „afa minna æviskeið“. Standa þessar breytingar í sambandi hver við aðra. — En svo hefir hann gert 2. er., strikað yfir uppskriftina af 1. er. og gert nýja uppskrift af báðum er. í þetta sama kvæðahefti í Bmf. 13, fol., næst á eftir þýðingunni af „Arngerðarljóðum“, sem mun vera frá því um vorið 1845. Í 5. l. í 1. er. hefir hann enn skrifað fyrst „fara“, en strikað yfir það aftur og sett „stökkva“ fyrir ofan. — Fyrra er. er varla yngra en frá haustinu 1844 og hið síðara ekki eldra en frá vorinu 1845.

Það er víst ekki af hendingu einni, að Jónas hefir kveðið þessar vísur undir sama lagi og „Kross á negldur meðal manna“,

*) Efstu línurnar 6 á bls. 144 hafa ruglazt í prentinu hér; 1. og 5. hafa skiptzt á, og sömuleiðis 4. og 6.

þýðing séra Jóns Þorlákssonar (á danska sálminum „Naglet til et Kors paa Jorden"), sbr. Ljóðabók hans, Kh. 1843, II., 38.

Afar Jónasar voru þeir séra Þorsteinn í Stærra-Árskógi, Hallgrímsson, prófasts, Eldjárnssonar, og Jónas bóndi Tómasson á Hvassafelli. Í æviminningu Jónasar Hallgrímssonar í Fjölni, IX., 1, segir höf. (Konráð Gíslason), að Jónas bóndi í Hvassafelli hafi verið skáld; lítið mun þó hafa verið um skáldskap hans, en séra Þorsteinn var talinn „liðugt skáld"; en um hvorugan þeirra hefir verið sagt, að hann hafi verið gefinn fyrir vínnautn. En Jónas á hér, ef til vill, ekki við þessa tvo afa sína bókstaflega. — Hallgrímur prófastur Eldjárnsson þótti einnig ágætt skáld. — Og sonarsyni hans og nafna hefir verið gefið að sök (og þó sennilega að ástæðulausu), að hann hafi verið drykkfeldur. — Sbr. e. fr. ævisögu Jónasar hér í V. b., bls. VII—XI.

2. er., 5.—6. l.: Sbr. „Óhræsið", bls. 106—8.

Nokkrar ljóðlínur af þessum vísum voru þýddar á dönsku af Olaf Hansen (Isl. Renæssance, 113).

*Bls. 146—147.* — HELVÍTI. — Ehr. á öftustu síðu í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., skrifað langsum. Í 1. er., 4. l., hefir Jónas skrifað fyrst „lyga", strikað yfir það og skrifað „voða" fyrir ofan, strikað það út einnig og skrifað „brennu" ofan-í. — Í 2. er., 6. l., hefir hann fyrst skrifað „síkvikar", en strikað yfir það og skrifað „Satan" fyrir ofan, — gleymt „og"; í 1. l. er einnig misritað „fjandfjöld", f. „fjandafjöld". — „Brennur og frís", sbr. t. a. m. Sólarljóð, 18. er. („millum frosts ok funa"); þetta var algeng kenning um helvíti á miðöldunum, sbr. Harmsól, 39. er., Lilju, 73. er., o. fl.

*Bls. 147—149.* — LEIÐARLJÓÐ. — Ehr. í K. G. 31 a, skrifað á grápappírsblað, úr ferðabókinni Bmf. 10, fol., samanbrotið. Frumpr. í Kh., sennilega til afnota í samsæti, sem íslendingar í Höfn héldu Jóni 29. Apr. 1845 við burtför hans heim til alþingis í Reykjavík. Prentað á smáörk (st. 19,6 $\times$ 12,6 cm.) í prentsmiðju S. L. Möllers. Virðist prentað eftir ehr. í K. G. 31 a. — Í 3. er., 8. l., er „hám" (f. „háum") í ehr., frumútg. og 1.—3. útg. — Rímgallarnir (í 4. er., 3. l., 5. er., 7. l., og 7. er., 8. l.) benda til, að orðið hafi að hraða kvæðinu í prentsmiðjuna.

Þetta kvæði mun vera hið síðasta, sem Jónas hefir ort. Eins og kunnugt er, fótbrotnaði hann þrem vikum síðar, 21. Maí, og dó af því slysi 26. s. m., sbr. ævisögu hans hér í V. b.

*Bls. 151—184.* — GAMANVÍSUR. — Mörg af þessum ljóðmælum eru þannig, að betur virtist fara á því að aðgreina þau í sérstaka deild frá hinum alvarlegu, frumsömdu ljóðmælum á

íslenzku, sem eru í fyrstu deildinni (bls. 3—149). Sumar af þessum gamanvísum eru kveðnar til ákveðinna manna og engum öðrum ætlað að þekkja þær, og sennilega eru mjög fáar þeirra ætlaðar til að birtast eða útbreiðast á nokkurn hátt. Verður að taka tillit til þess, er dæmt er um þær, en hins vegar þótti réttara að birta þær hér, og það því fremur, að þær hafa flestar verið birtar áður. Þær eru settar hér eftir aldri, að svo miklu leyti sem unnt var, en óvíst er um sumar þeirra, hve nær þær hafi orðið til.

*Bls. 153.* — FYRSTU VÍSURNAR. — 1. Eftir hr. Jóns Borgfirðings, og hefir hann skrifað þessa aths. fyrir ofan vísuna: „Hallgrímur Tómasson, — gamall, og mundi Jónas Hallgrímsson, — sonur Rannveigar á Steinsstöðum, systur skáldsins, segir, að Jónas hafi [gjört] þessa vísu á 6. ári, og muni hún [vera] sú fyrsta“. — Þetta hr., sem er á lausu smáblaði, er komið frá dr. Finni próf. Jónssyni. — Vísan var prentuð í 2. útg., eftir öðru hr. Jóns Borgfirðings, og er hún þar sögð kveðin af Jónasi, er hann „var á 7. ári (líkl. heldur 7 ára?). Hann var að klæða sig. Móðir hans heyrði hann mæla“ fram vísuna. Hún „sagði vísuna Rannveigu dóttur sinni, systur Jónasar, en hún aftur Hallgrími syni sínum, Tómassyni, er dó á Akureyri 1899“. — Orðið „hvíta“ í 4. l. mun eiga að bera fram „kvíta“, eins og títt er á Norðurlandi. — 2. Eftir hr. í sendibréfi Stefáns Árnasonar á Einarsstöðum í Kræklingahlíð (dags. 21. Júní 1925). Segir Stefán um vísuna: „Eina vísu hefi ég heyrt, sem hann á að hafa kveðið, þegar hann var mjög ungur, eitthvað á 5. eða 6. ári, og þótti honum vera seint farið í fjósið að mjólka kýrnar“. Vísan hefir verið prentuð áður í Sunnanf., V., 19, en að sumu leyti öðruvísi, og í Morgunbl. frá 18. Des. 1924. — Í 1. l. er „Farðu“ í hr. St. Á., en í Mbl. er „Mál er“. Í Sf. er 1. l. svo: „Í fjósið er svo furðu langt“.

Í kvæðasafni Árna H. Hannessonar, sem nú er í hrs. Lbs., er fremst í IV. b. (Lbs. 1405, 8vo) þessi vísa, kölluð þar „fyrsta vísa Jónasar Hallgrímssonar“:

Út á skóginn og heim aftur eg réð flakka.
Leit eg undir breiðum bakka
bjarndýr vera að fæða krakka.

Ókunnugt er að svo komnu um aðrar heimildir fyrir því, að vísan sé eftir Jónas og sömuleiðis um tildrögin til þess, að hún hefir verið búin til.

*Bls. 153.* — DALABÓNDINN Í ÓÞURKNUM. — Ehr. í K. G. 31 b I, 2. kv. Vísan mun vera ort heima á Steinsstöðum

sumarið 1826, sem var mjög rigningasamt, svo að hey skemmdust víða. Átt mun við einhvern ákveðinn bónda, en óvíst mun, hver hann hefir verið.

*Bls. 154—155.* — SKÓLAGLETTUR. — Eftir hr. séra Jóns Brynjólfssonar í Kálfholti; sent Páli Melsted sagnfræðingi með bréfi, dags. 10. Ág. 1882.

UM BENEDIKT SCHEVING. — Hann útskrifaðist úr Bessastaðaskóla 1827. Varð prestur í Danmörku. Sjá um hann í Guðfræðingatali Hannesar Þorsteinssonar, Rv. 1907—10, og riti drs. Jóns Helgasonar biskups, Íslendingar í Danm., bls. 21. Séra B. Sch. er getið í Fjölni, I., 96.

CURA TIL MAGNÚSAR FRATERS. — „Cura“ (lat.), Ástundunarsemin (við skólalærdóminn). Magnús frater (bróðir) er Magnús Eiríksson (frá Skinnalóni); hann útskrifaðist úr Bessastaðaskóla um leið og Jónas. Hann varð síðar alkunnur maður fyrir rit sín um trúmálaefni. Sjá um hann í Guðfræðingatali Hannesar Þorsteinssonar, bls. 121. E. fr. II. b., bls. 10—11 m. aths. og bls. 181—82 m. aths.

TIL BÚA JÓNSSONAR. — Búi var frá Hnúki í Dalasýslu; hann útskrifaðist með þeim Jónasi og Magnúsi; var prestur að Prests-Bakka og prófastur í Strandasýslu. Hann var hagmæltur, orti m. a. kvæði um Krist, sendi Jónasi það (1842) og þótti honum það afbragðsgott (sbr. Bréf Páls Melsteds, bls. 26). — „Valgerður“ mun vera Valgerður Brynjólfsdóttir, ein af vinnukonunum á Bessastöðum tvö síðustu skólaár þeirra Jónasar og Búa. — Í hr. er „þrumar“ í 7. l. og „geysi“ í 8. l.; sennilega ritvillur, en raunar er það ekki víst.

HJÖRLEIFS REIÐI. — „Einu sinni bar þeim á milli, Jónasi og Hjörleifi Guttormssyni; þá kastaði hann (þ. e. Jónas) fram þessari stöku“, skrifar Jón Brynjólfsson um fyrri vísuna; en um hina segir hann, að hún hafi orðið til um sama leyti. — Hjörleifur var sonur Guttorms prófasts Þorsteinssonar á Hofi. Hann útskrifaðist úr Bessastaðaskóla 1832, þrem árum síðar en Jónas. Hann varð prestur að Skinnastað og síðar að Völlum. — Í 4. l. stendur í hr. „Öxneyingar“; getur það varla verið rétt. — Sennilega er 3. l. einnig færð úr lagi.

*Bls. 155.* — UM STÚLKU, SEM REIÐ MEÐ SKUGGHATT. — Eftir hr. séra Jóns Brynjólfssonar í Kálfholti. — Skugg(a)hattar voru eins konar reiðhattar, með afarmiklu skyggni, er tíðkuðust á fyrri hluta 19. aldar.

*Bls. 155.* — SNÍKJUDALLURINN. — Ehr. í K. G. 31 b I, 9. kv., og er yfirskriftin á dönsku: „*Snyltegæsten*“. — Sýnilega

ort í Bessastaðaskóla, líklega vorið 1828. — „Cura“ (kúra), sbr. aths. við vísuna „til Magnúsar fraters“, bls. 375.

*Bls. 156.* — STAKA. — Ehr. í K. G. 31 b I, 22. kv. Líklega kveðin í skóla vorið 1829, óvíst um hvern, ef til vill Magnús Eiríksson. „Robbur“ er James Robb, kaupmaður í Reykjavík; var frá Liverpool; sjá um hann í „Rvík 14 vetra“ (Safn V., 2) eftir dr. Jón Helgason, biskup, Rv., 1916.

*Bls. 156.* — LÆKNIRINN. — Ehr. á lítinn grápappírsmiða (st. 10,3 × 8,3) í K. G. 31 a. Líklega frá 1829, er ófriðurinn var milli Rússa og Tyrkja, sbr. 2. er. Fyrirsögn er engin. — Fyrir ofan kvæðið er þessi borga-vísa á miðanum, og þó strik á milli:

Oxford, Basel, Erfurt, Salamanka,
Cöln, Padua, Prag, Wien,
Paris, Leipzig, Tübingen.

Fyrir „Basel“ hefir fyrst verið skrifað „Leipzig“, fyrir „Cöln“ „Basel“ og fyrir „Leipzig“ „Base(l)“. — Í aths. fyrir framan kvæðið í 2. útg. stendur: „Læknirinn, sem við er átt, var Jón Thorsteinsson landlæknir, er tíðræddara varð stundum við sjúklinga sína um almenn tíðindi, er honum voru hugðnæm, heldur en um sjúkdóma þeirra“. — Ekki var um neinn „Emanuel“ að ræða í Portúgal um þær mundir, en hér mun vera átt við Don Miguel.

*Bls. 156—157.* — MARSVÍNAREKSTURINN. — Ehr. í K. G. 31 b I, 24. kv. — Mun ort í Júlí 1829. Skýringargrein Jónasar, sem hann hefir sett fyrir neðan yfirskriftina, sýnir, hvað um var að vera í raun réttri, og að þær upplýsingar eru að nokkru leyti rangar, sem hafðar eru eftir Páli sagnfræðingi Melsted í 2. og 3. útg. viðvíkjandi þessari vísu. En það af þeim, sem kann að vera eitthvað rétt í, er á þessa leið:

„Eitthvert sumar, sem J. var hjá Úlstrúp, var það einn sunnudagsmorgun, að Magnús konferenzráð í Viðey sá í kíki sínum marsvína-vöðu vestur á sjó og sendi hingað fram eftir (til Rvíkur) að láta menn vita, hvað á ferðum sé. Menn fara hér á flot fjölda bátum, hafa grjót og, mig minnir, á sumum hunda, komast vestur fyrir fiskana og reka þá í hóp og ætla inn skipa-leið milli Akureyjar og Engeyjar; en bændur fram á Nesi réðu því, að menn fóru fyrir vöðuna og ætluðu að reka hana upp á Eiðsgranda. ... Þar var á einum bátnum Úlstrúp, Jónas og ég og tveir, sem réru“.

*Bls. 157.* — SKIPKOMA. — Ehr. í Bmf. 13, fol. — Um Lárus sjá aths. á bls. 331. — Sbr. e. fr. Bréf T. Sæm., bls. 32.

*Bls. 157—158.* — ÓSKARÁÐ. — Ehr. í Bmf. 13, fol. Mun

vera frá fyrri árum Jónasar í Rv. — Í ehr. eru þessi orð undirstrikuð: Í 1. er. „svarta skóna“, „þá“, í 2. er. ”„bombasessu“-kjólinn“, og í 3. er. 3. l. (nema orðið „fyrst“) og 4. l. Í 2. er., 1. l., hefir Jónas skrifað fyrst „skipast ei við“, en strikað yfir 1. og 3. orðið og skrifað „mýkist“ og „á“ fyrir ofan. Á sama hátt er breytt „hjálpa“ í 3. er., 5. l., í „heppnast“. — Ekki í 1.—3. útg. — „Bombasessu“-kjóll, þ. e. kjóll úr „bombazet“ (sbr. „bombasin“ og „bommesi“), sem er eins konar vefnaður.

*Bls. 158—160.* — TIL BRYNJÓLFS PÉTURSSONAR. — Ehr. í Lbs. 1065, 4to, frumritið, sem er sendibréf, ljóðabréf frá Jónasi til Brynjólfs; því stendur utan-á: „B. Peturs[s]on / 150“, og undir síðustu vísunni „Reg“. (þ. e. Regensen), „7. Nov. 1835“, og að því er virðist „Adieu“, og svo nafnið, „J. Hallgrims[s]on“. Talan 150 mun merkja tölumerkið (númerið) á bústað Brynjólfs og á Jónas við hana í 2. er. Fyrirsögn er engin, en raunar nefnir Jónas braginn í síðustu l. 10. er.: „*Rímur af Geógnósi*“. — En Geognosi er jarðefnafræði. Jónas var farinn að leggja stund á hana. — Að öðru leyti er 10. er. torskilið, ef til vill rímað rugl.*) En rímur nefnir hann þetta af því að það er skopstæling af rímum. — „Sauríar“, 6. er., 1. l., Saurier á þýzku og dönsku, nefndir á latínu *Saurii* eða *dinosauria*, trölleðlur, sem steingjörvingar hafa fundizt af í fornum jarðlögum. — Í 8. er., 3. l., hefir Jónas fyrst skrifað „óstöðug“, en strikað yfir það og skrifað „ómáttug“ fyrir aftan.

*Bls. 160.* — KVEIFAR. — Ehr. í Bmf. 13, fol., skrifað með blýanti á næst-öftustu síðu kvæðaheftisins þar, fyrirsagnarlaust. — Mun vera frá fyrri Hafnar-árunum, helzt vetrinum 1836—37, þá voru allmikil frost í Danmörku.

*Bls. 160.* — NIÐURLAGSORÐ ÚR BRÉFI. — Hr. séra Jónas Brynjólfssonar í Kálfholti, með bréfi hans til Páls Melsteds, sbr. aths. við „Skólaglettur“, bls. 375. „Niðurlagsorð úr bréfi til mín frá Kaupmannahöfn“, skrifar séra Jón, og á eftir vísunni setur hann þetta, eftir bréfi Jónasar: „Sjáðu þig við harmagrútnum“. — Sbr. prentvilluna alkunnu, „Harmagrútur Jeremiæ“ í biblíunni, sem prentuð var í Höfn 1813 („Grútarbiblíunni“).

*Bls. 160—161.* — VERZLUNARÓLAGIÐ. — Prentað í aths. við kvæðið Batteriski syndarinn í 2. útg., bls. 389, og sögð þar vera ort „við það tækifæri, að franski vísindamaðurinn Xavier

*) Benda má á, að til eru rímur, ortar af Bjarna Jónssyni skálda og séra Hallgrími Péturssyni, sem heita „Rímur af Flóres og Leó“.

(frb. Savíe) Marmier var á Íslandi". Hann var hér 1836, sjá Landfrs. Ísl., III., 244—47.

*Bls. 161.* — AFMÆLISVÍSUR TIL BR. P. — Prentaðar í 2. útg. og hér eftir Sunnanfara, IV., 60—61, en þar eftir hr. frá Páli Melsted (frá 2. Ág. 1894). Segir Páll þar, að þeir Konráð og Jónas hafi ort vísurnar 1837 eða 1838 (15. Apríl), að þær hafi verið margar, en hann hafi aldrei heyrt, nema þessar 3, sem hann lærði. Sbr. e. fr. „Endurminningar" Páls, bls. 37—38, og „Dægradvöl", bls. 161—62. Hefðu því ef til vill fremur átt heima í „brotum" (hér fyrir aftan, — eða helzt hvergi hér, þar eð þær eru eftir þessu ekki eftir Jónas einan. — 1. er., 1. l.; þeir Jónas lásu lög fyrstu árin í Höfn og eru enn 1838 skrifaðir „stud. jur." t. a. m. í félagatali Bókmenntafélagsins. Þó er fremur ólíklegt, að þeir segi það sjálfir enn í slíku kvæði 1837 eða 1838, að þeir lesi lög; væri líklegra, að kvæðið væri frá 1835, ef Páll hefði ekki sagt það yngra. — 1. er., 4. l. Uglan er tákn bókfræðanna. — 3. er., 2. l., „freilich", þýzkt orð, merkir „raunar". — Viðlagið er gamalt, úr Einsetumannskvæði og vikivakakvæði. Eggert Ólafsson notaði það við Lysthúskvæði, sjá kvæði hans, Kh. 1832, bls. 219—20,*) og þaðan hafa þeir Jónas og Konráð haft það. — 2. og 3. er. eru sennilega um einhverja atburði á bernskuárum Brynjólfs, sem hann hefir sagt Jónasi frá.

*Bls. 162—164.* — BORÐSÁLMUR. — Frumprentað í Kh. 1839 til afnota í samsætinu, sem haldið var 26. Apríl þ. á., þegar landar í Höfn kvöddu séra Þorgeir Guðmundsson, sbr. aths. á bls. 337. Kvæðið er á smáörk (st. 20 × 12,4 cm) í grænni kápu. — Í 7. er., 1. l., er átt við embættismannanefndina, sem skipuð var 22. Ág. 1838 og átti nú senn að koma saman í Reykjavík.

*Bls. 164.* — SÉRA BESSI. — Ehr. í Kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., næst á eftir kvæðinu „Óskaráð". — Í 6. l. er fyrir ofan orðið „dag" sett „tíð(?)", og hefir það verið tekið upp í 1.—3. útg. — Ókunnugt mun, hvern átt er við.

*Bls. 165.* — BÓSI. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol. — Í 1. er., 3. l., er fyrst skrifað „annars", en strikað yfir það og „ella" sett fyrir ofan (síðar).

*Bls. 165.* — SUNNAN-PÓSTURINN. — Eftir Sunnanfara, XI., 43. — Sunnanpósturinn kom út 1835, 1836 og síðast 1838. Sjá um hann Islandica, XI., 49—52. — „að sægja" (þ. e. „að segja") var orðatiltæki Jóns lektors Jónssonar. — 2. er., 1. l., er tekið nær óbreytt úr kvæði, sem kom út í Sunnanpóstinum 1835, bls. 127—28, eftir Árna prófast Helgason; það er kvæðið, sem

*) Sbr. Ísl. gátur, skemmtanir, þulur og þjóðkvæði, III., 343.

Jónas orti upp aftur, „Móðurást“, sjá bls. 49—50 og 332. En 4. l. er „úr erfiljóðum einum, er Þórður Sveinbjörnsson hefir kveðið“ (Sf., XI., 43, nm.). Þeir séra Árni og Þórður gáfu út Sunnanpóstinn.

*Bls. 165—166.* — HALLGRÍMUR VESLINGUR. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol. — Óvíst um hvern kvæðið er. — 1. er., sbr. Jóh. 18., 10.

*Bls. 166.* — FINGURBJÖRGIN. — Ehr. (á hálfu blaðinu) í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol.; á því eru einnig 2 næstu vísur og brotin úr kvæði Feuerbachs, sem hér eru á bls. 231. — Allt skrifað með blýanti, en skýrt enn.

*Bls. 166—167.* — BÁGINDI. — Tvö ehr. til, annað er skrifað með blýanti á sama blað og næsta vísa hér á undan; hitt er á sama smáblaði í K. G. 31 a, sem brotin úr Formannsvísum og vísan „Dyrri litli!“ eru á; er þessi vísa skrifuð þar með bleki og fyrirsögnin sett þar. Í fyrra ehr. er í 2. l. „er þér heimilt“ f. „efa máttu“, og í 5. l. „illa“ f. „arga“; í fyrstu hefir einnig staðið „illa“ í síðara ehr., verið strikað yfir það og skrifað „arga“ fyrir ofan. Ókunnugt er, hvaðan fyrri hlutinn er og hvað Jónas á við.

*Bls. 167.* — SPARNAÐUR. — Ehr. í Bmf. 13, fol., hripað upp með blýanti á eftir vísunum, sem hér eru næstar á undan; eru þær í kvæðaheftinu, sem „Ferðalok“ er í og getið er hér á bls. 322.

*Bls. 167.* — VALDI. — Ehr. í K. G. 31 a, á lausu blaði (st. 22,2 × 8,8 cm). — Á milli vísuhelminganna er dálítið stærra bil en milli línanna. — „Valdi hét hundur Jónasar. Jónas reiddi hann fyrir aftan sig yfir vatnsfall, er hann kvað vísuna“, segir í aths. á bls. 144 í 3. útg., sbr. nmgr. á bls. 201 í 1. útg. — Þetta er þó grunsamleg aths. — Óvíst er, hve nær Jónas hefir gert vísuna, en á síðasta ferðalaginu hans, 1842, var Þorvaldur Böðvarsson fylgdarmaður hans (annar). Var hann þá í Bessastaðaskóla að læra til prestskapar.

*Bls. 168.* — MÁLSVÖRN. — Ehr. í K. G. 31 a, á sama blaði og næsta vísa á undan. Tilefnið ókunnugt og við hvern er átt.

*Bls. 168.* — UM MOSFELLINGA. — Prentað fyrst í Óðni, I., 88. Fylgir vísunni þar þessi aths.: „Mosfellingar þóttu engir búhöldar um það leyti, sem Jónas dvaldi hér í Reykjavík á æskuárum sínum. Er svo sagt, að þeir reiddu heyið á sumrin ofan í Reykjavík og seldu þar fyrir kramvöru og brennivín. — — — Jónas var á ferð uppi í Mosfellssveit, þegar hann orti vísuna, og var þá einn bóndinn að búa sig á stað í heysöluför til Reykjavíkur“. — Vísan er í 3. útg., bls. 147. Segir útgefandinn þar, að

hann hafi ritað vísuna upp 1898 eftir Páli Melsted, og hafi hann þá sagt „vísuna orta á fullorðinsárum Jónasar, er hann ferðaðist hér um“. Mun það réttara, og vísan þá frá 1840 eða 1841. — Aðrir segja (eftir Páli Melsted), að vísan sé ort á Kjalarnesi, um bónda þar.

*Bls. 168.* — SKÁLDIÐ MITT. — Ehr., frumrit, í vasabók Jónasar frá 1841. Sett hér eftir 1.(—3.) útg.; segir nm. á bls. 123 , 1. útg., að Jónas hafi sett þessa stöku á eitt skrifað eintak af erfiljóðum sínum eftir Bjarna Thorarensen. Sbr. aths. á bls. 348, nm. Í frumr. er í 2. l. „brælu“ og er svo haft hér (ekki „pælu“, sem er í 1.—2. útg.). Í frumr. er 3. l. ógreinileg; hefir verið dálítið frábrugðin því, sem er í 1.—3. útg. og hér. Mun Jónas hafa breytt henni, er hann skrifaði vísuna upp. Í 4. l. er „bjarta“ f. „veldis“ í frumr. — Vísan er skrifuð í vasakverið aftar og síðar en erfiljóðin. Fyrri hluti hennar lýtur að því, að Bjarni varð bráðkvaddur, andaðist af slagi.

*Bls. 168—170.* — RÍMNA-STÆLINGAR. —

*1. Meyjar-hjarta.* — Ehr. í K. G. 31 a, á litlu blaði (st. 22 × 7,7 cm).*) Í 2. er., 2. l., hefir fyrst staðið „á“, en verið strikað út og „um“ sett fyrir ofan. — Í 3. er., 3. l., hefir staðið „öngvan“ og „ber“, en breytt „öngum“ („aungvum“) og „slær“; og 4. l. hefir fyrst verið svona: „alla hugga kýs það sér“, en breytt síðar í ehr. 4. l. af 5. er. hefir verið rifin af óvart; hún hefir byrjað á Þ, og sjást leifar af því; 3. samstafa hefir rímað á móti „gef-“ og síðasta á móti „á“. Eftir því má gizka á, að 4. l. hafi verið þannig: *Það á stefið mitt að fá.*

*2. Hárið.* — Ehr. á sama blaði og „Meyjar-hjarta“, hinu megin. — Í 1. er., 3. l., sýnist hafa staðið fyrst í hr. „hafnajafni“, en því síðan breytt. Aths. eru settar neðanmáls á blaðið. — Um Eirík í Vogshúsum sjá Ísl. þjóðsögur, I., 554—8). Hann var Magnússon; var prestur að Selvogs-þingum 1677—1716. — Skopið er stílað upp á Sigurð Breiðfjörð, höfund Tístransrímnanna.**)

*Bls. 170.* — RÍMNAERINDI. — Sett hér eftir 1.(—3.) útg.; ekkert handrit til nú. Er skopstæling eins og næstu vísur hér á undan.

*Bls. 170.* — NÝHENDA. — Tekin eftir 1.(—3.) útg.; ekkert hr. til. — Í 2. útg. er þessi aths.: „Sigurður Breiðfjörð fann

---

*) Fyrirsögnin „Rímna-stælingar“ er ekki í ehr.; tekin úr 3. útg.

**) Sbr. Rímur af Valdimar og Sveini eftir Sig. Brf.; þær komu út 1842. Í aths. á Jónas við 1. er. mansöngs 8. rímu, en sá mansöngur er aðallega ónot til Fjölnis.

upp þann hátt og þóttist af („Nýhendu má nefna þó | nokkuð þokkalega braginn"). Jónas kvað þetta við hann til að stríða honum og sýna, að einungis þyrfti að bæta tveim atkvæðum við jöfnu vísuorðin í ferskeytlu. Þegar Sigurður kom út frá þessu tali, mætti Páll Melsteð honum í dyrunum, og var S. þá að tauta fyrir munni sér: „Mikill skrattans maður er þessi Jónas". Sigurður átti heima á Eiði við Reykjavík síðari hluta árs 1841 og „flutti þaðan á næsta ári inn til bæjarins".*) Mætti helzt ætla, að þetta hafi átt sér stað um það leyti.

*Bls. 170—172.* — ÞORKELL ÞUNNI. Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol. Frumútg. í Fjölni, VIII., 24—26 (1845). — Lesið áður á fundi í Fjölnisfélagi 17. Jan. s. á. — Í 5. er., 2. l., skrifað fyrst „vösunum", en það strikað út og „nefinu" skrifað fyrir ofan. — Í 6. er., 4. l., sömuleiðis fyrst „hörmunga" f. „gjörninga"; í 7. er., 2. l., „hár" f. „hý". Í 13. er., 3. l. „fæturnar".

Í 3. útg. er sagt: „Þetta kvæði er ort um Pétur Gudjohnsen, en þeir Jónas og hann voru fjandmenn". Engin líkindi eru til, að þetta sé rétt, og mun nú óvíst, hvað Jónas hefir haft fyrir sér. — Viðv. nafninu „Þorkell þunni" sbr. ljóðabók Jóns Þorlákssonar, II., 588. — „skrimslinu góða", sbr. Kvöldvökurnar, 1794, 2. p., bls. 155 og áfram.

*Bls. 172—173.* — TÍKAR-MANGI. — Prentuð hér eftir 2. og 3. útg. — Hefir verið skrifað með blýanti utan-á kvæðaheftið í Bmf. 13, fol., líklega ekki alls fyrir löngu; í stað orðanna „þeir fáráðar" í 4. l. stendur þar „sér til ráða", sem er að sumu leyti betra. — Tíkar-Mangi var Magnús Pálsson, f. 1779, d. 1846, sonur Páls prófasts Magnússonar á Valþjófsstað og bróðir Guttorms prófasts Pálssonar í Vallanesi. Sjá um hann í Blöndu, IV., 1—46. — Vísan kann að vera ort 25.—28. Ág. 1842; 25. þess mánaðar fór Jónas alla leið frá Helgustöðum að Vallanesi, til Guttorms prófasts. Dvaldi hann og fylgdarmenn hans þar þá næstu 3 daga; sbr. dagbókina frá ferðinni, III. b., bls. 247—49. Líklegra er þó, að vísan sé frá því, er Jónas kom aftur að Vallanesi, 9. Okt., sbr. III. b., bls. 257. Þann dag kom hann einungis frá Brekku, og voru þá fylgdarmenn hans farnir suður. Magnús var í Vallanesi, hjá bróður sínum. Sagt er, að orðtök Magnúsar sé í vísunni. — Í 2. útg., þar sem vísan var prentuð fyrst, segir, að Jón Guðmundsson, sem þá var bóndi í Kirkjubæ á Síðu, síðar ritstjóri, hafi verið með Jónasi, er hann gerði vísuna. —

*) S. Brfj. Úrvalsrit, Kh. 1849, bls. XXVI—XXVII. — Vísa Sigurðar, með lagi, er í Ísl. þjóðl., bls. 895. — Vísa Jónasar er ekki alveg með sama nýhenduhætti og vísa Sigurðar, sem er 3. er. í 13. rímu af Tístrani og Indíönu.

Svo segir í 2. útg., bls. 394, að vísa þessi hafi verið sungin mikið hér á landi, og enn fremur, að vísan „Litla Dóra“ sé undir sama lagi. Lagið kunna menn enn, og mun það vera útlent; kannast sumir, ef til vill, bezt við það eftir lagboðanum „Ned til Rinen“. Orðin „Tíkar-Mangi“ (eða „Litla Dóra“) verður að tvítaka aftur á undan síðasta ljóðlínupari, og það er einnig tvítekið.

*Bls. 173.* — LITLA DÓRA. — Prentað fyrst í 2. útg., í aths. á bls. 394. Segir þar, „að vísan sé eignuð Jónasi á Austurlandi og að hann eigi að hafa kveðið hana, „er hann fór frá Hofi út í Vopnafjarðarkaupstað (1842)“. — En hann kom aldrei að Hofi og fór aldrei út í Vopnafjarðar-kaupstað. Hann kann eigi að síður að hafa kveðið vísuna, og jafnvel á Austurlandi, líklega þá á leið í Eskifjarðar-kaupstað 10. Okt. Sbr. III. b., bls. 258. Viðv. því og laginu við vísuna sjá aths. við næstu vísu á undan.

*Bls. 173—174.* — VEÐURVÍSUR. — Ehr. af 1.—6. vísu er í kvæðasafninu í Bmf. 13, fol., í sömu röð. 2. vísa er e. fr. í K. G. 31 a, á sama blaði og „Valdi“ og „Málsvörn“, skrifuð milli þeirra. — Þar er í 1. l. „er nú“ f. „enn er“. — 7. vísa er í bréfi til Konráðs Gíslasonar, sjá II. b., bls. 89, en 8. vísa er sett hér eftir 1.(—3.) útg. — Í 2. (og 3.) útg. er þessi aths., á bls. 395: „Veðurvísur eru kveðnar við ýms tækifæri, flestar á ferðaárum Jónasar; „Sumarhret“ t. d. er kveðið á Þóroddstöðum (sic), hjá séra Jóni Kristjánssyni. Prestur kom inn til Jónasar um morgun, og vakti hann með þeirri frétt, að hret væri komið. „Kveð ég á millum vita“ lýtur að því, að Jónas var í svefnrofunum“. — Séra Jón var aðstoðarprestur séra Eiríks Þorleifssonar á Þóroddsstað 1836—43. Jónas kann að hafa komið þangað 1839, þegar hann kom aftur frá ferðinni til brennisteinsnámanna.

Í 6. vísu, 4. l., hefir Jónas fyrst sett „a . . . . . , en strikað yfir það og skrifað „rækallans“ fyrir ofan (með blýanti). — Í 7. vísu, 3. l., stendur „seinn“ í ehr., og í fyrri útg. er því orði haldið, en í 3. útg. er sett svo sem hér, og með þeirri aths., að hitt sé stuðla-villa. Það er og svo, en raunar á betur við að kalla skuggavald (þ. e. þrumuguðinn) „hvergi seinan“ en „hvergi hreinan“.

Í Ísl. þjóðl., bls. 888, er 5. vísa sett undir lag, sem talið er algengt í Þingeyjarsýslu.

*Bls. 175.* — ROBB OG GRÍMUR. — Ehr. í K. G. 31 a, á lausu blaði (st. 20 × 16 cm), skrifað með blýanti og ógreinilegt. Það er., sem hér er 3. er., er skrifað utan-með, langsum, og ekki merkt inn. Nokkrar ómerkar breytingar eru í ehr., en sums staðar er mjög óljóst, hvað fyst hefir staðið og verður hér ekki gerð

grein fyrir breytingunum. Ókunnugt er um tilefni kvæðisins. Robb mun vera James Robb, enskur kaupmaður í Reykjavík, sbr. aths. á bls. 376. Grímur kann að vera Grímur Thomsen.

„Bosje, tsarja chrani“ (7. er., 2. l.) eru upphafsorðin á rússneska þjóðsöngnum gamla, sem ortur var 1834 af þjóðskáldinu Sjukovsky (f. 1783, d. 1852); þau þýða: Guð, blessa Zarinn.*) — En „Rule, Britannia“ (7. er., 3. l.) er nafn á enskum þjóðsöng eftir James Thomson (f. 1700, d. 1748); þessi orð eru í rauninni upphaf viðlagsins í kvæðinu og merkja: Drottna, Britannia.

*Bls. 176—177.* — SKRÆLINGJA-GRÁTUR. — Þrjú ehr.; eitt í skrifbókinni K. G. 31 b V; virðist skrifað þar 8. Febr. 1844, sama dag og „Illur lækur“, sem er skrifað þann dag og er næst fyrir framan þetta kvæði; annað er í K. G. 31 a, á smáörk (st. 21,6 × 13,3 cm), og þriðja á lausu smáblaði í J. S. 129, fol. (st. 20,3 × 13 cm). 1.—2. er. er e. fr. sem „motto“ á ljóðabréfi til Gísla Thorarensen, skrifuðu í Sórey í byrjun Marzmánaðar 1844. Fyrirsögnin er í öllum ehr. eins og hér er sett, nema að því leyti, að í K. G. 31 b V er Bárðarsyni. Í 1.(—3.) útg. er sett orðið „kviðlingur“ f. „vísa“ (og því „sorglegur“ og „samansettur“). Sbr. aths. við kvæðisheitið „Dalvísa“ á bls. 366. „Ívar Bárð(ar)-son“; svo hét maður einn, sem lengi var ráðsmaður við biskupsstólinn í Görðum á Grænlandi um miðbik 14. aldar. Hann gerði merkilega Grænlands-lýsing síðar og sagði m. a. frá afdrifum Vestri-byggðar, að hún væri eydd af Skrælingjum.

Prentsmiðjan í Viðey skyldi (og var) flutt þaðan til Reykjavíkur þetta ár, 1844.

Búið var að ákveða að halda alþingi í Reykjavík, en engir þingmenn voru til á landinu, nema „tómir dauðir menn“, og „ekkert þinghús“ var til, — ekki fremur í Reykjavík en á Þingvelli, þar sem Jónas vildi láta halda alþingið.

Í 6. er., 3. l., „er svo“; þannig í uppskriftinni í J. S. 129, fol., en „verður“ í K. G. 31 b V og 31 a, sem eru dálítið eldri uppskriftir.

*Bls. 177—178.* — KAUPFARAR-SKÁL. — Tvö ehr. eru til í K. G. 31 a; annað er blýants-frumrit á grápappírsblaði, eða lítilli örk, sem fleira er skrifað á (st. 20,7 × 12,2 cm); hitt er hreinrituð uppskrift á lausu blaði (st. 20,8 × 16,6 cm), sennilega ætluð til að prenta kvæðið eftir til afnota við kveðjusamsæti, er Brynjólfi skyldi haldið áður en hann færi heim. Honum hafði

---

*) Eftir upplýsingu frá Stefáni fulltrúa Stefánssyni í Kaupmannahöfn.

verið veitt Skaftafellssýsla 9. Apríl 1844, og skrifaði hann Jónasi það til Sóreyjar daginn eftir, en 21. s. m. skrifaði hann honum aftur og sagði, að konungur hefði nokkrum dögum síðar sett sig fulltrúa í rentukammerinu, svo að ekki yrði af heimferð.*) Kvæðið er því ort um miðjan Apríl 1844. — Fyrirsögnin er höfð hér eins og hún er í hreinritaða ehr.; í frumr. er fyrir ofan 1. er. fyrirsögnin: „Fyri skál Brynjólfs sýslumanns Péturssonar“. Neðar á blaðið eru sett nöfnin: „Vesturför, eður Kaupfarar-skál“; síðara nafnið undirstrikað. Fyrir ofan 1. er. í hreinr. ehr. hefir Jónas skrifað „Tón:“, ætlað að setja lagboðann. — En við þetta (og síðasta) kvæði eru til alþekkt lög. — Í 1. útg. er kvæðið kallað „Ein spány og gamansöm bindindiskviða“; stafar orðabreytingin eflaust frá útgeföndunum, sem vildu ekki hafa nafnið „—vísa“. Sömu fyrirsögn er haldið í 2.—3. útg.**) — Brynjólfur o. fl. Fjölnismenn stofnuðu bindindisfélag í Höfn 9. Sept. 1843. Brynjólfur var nú formaður og Jónas var genginn í félagið. Nú átti að fara að prenta í Fjölni skýrslu um þessa bindindishreyfing. Sjá Fjölni 7. árg., 1844, bls. 32—70, og Fundab. Fjölnisfél., Eimr., 33. ár, bls. 87—89; e. fr. bréf Jónasar, II. b., bls. 176 og 182, Bindindisfræði eftir séra Magnús Jónsson í Laufási, Akureyri 1884, bls. 181—88 o. s. frv., og Eimr., 21. ár, bls. 158.

Í 1. er., 3. l., er „tilsýndar“ í frumr., f. „mannsauga“. Orðin „ekkert af neinu“ í 4. l. eru undirstrikuð í báðum ehr.; sbr. 2. l. í 3. er., orðin „sem til var“; þau eru einnig undirstrikuð. Í 5. er., 3. l., er í frumr. „pyttlunum“ f. „vestkútnum“ og í 4. l. „þess höfðingja“ f. „svo höfðingjans“.

*Bls. 178.* — ÓLUND 2 OG ÓLUND 3 OG 15 ERU NÚ. — Ehr. í K. G. 31 a, frumr. á lausu blaði (st. 21,3 × 13,5 cm). — Uppskr. í J. S. 129, fol., meðal annara kvæða, sem sleppt hefir verið að taka í 1. útg. — Í frumr. hefir J. fyrst haft 3. l. í 1. er. svona: „skreytir faldi sköruglig“, en breytt því; í 4. l. hefir hann fyrst skrifað „hitta“, en breytt því sömuleiðis (í „kyssa“).

Kvæðið er eins konar skopstæling eftir kvæði Gríms Þorgrímssonar (Thomsens), „Ólund“, sem var prentað í Fjölni 1844,

---

*) Brynjólfur var skipaður fulltrúi ári síðar (25. Apríl 1845). Hélt hann því embætti, unz hann var skipaður forstöðumaður hinnar ísl. stjórnardeildar, 10. Nóv. 1848, er hún var stofnsett.

**) Í aths. í 2. útg., bls. 393, er það haft eftir Páli Melsted, að kvæðið „sje orkt til Brynjúlfs Benediktssonar (sic) í Flatey, þegar Jónas kom síðast þangað“, en aðrir álíti, „að það sé til Brynjúlfs Péturssonar“. Handritin taka hér af allan vafa; en þetta ber vott um, að útgef. 2. útg. hafi ekki athugað vel ljóðahandrit Jónasar, þau er Konráð Gíslason átti og þeir vissu af (sbr. bls. IV í formálanum). — En í Flatey kom Jónas aldrei.

VII., 104–105. – Cuvier er hinn alkunni náttúrufræðingur, George Cuvier (1769—1831). Í Fjölni, II. árg., II. fl., bls. 3—14, er dálítil grein um hann og lítil ritgjörð eftir hann, útlögð af Jónasi, „af eðlisháttum fiskanna“, brot úr stóru verki, sjá V. b., bls. 81—93.

*Bls. 179.* — GAMANVÍSUR TIL BR. P. — Ehr. á lausu blaði í K. G. 31 a (st. ca. 16 × 13,3 cm). Fyrirsögn er fyrir hvorri vísunni um sig, en aftan á blaðinu er, svo sem utanáskrift á sendibréfi: Til S. T. — Herra Brynj. Péturssonar, Grænl. — Privat. — Í 1. er., 2. l., hefir fyrst staðið „hreina“, en verið strikað yfir það og sett „glatt og“ fyrir ofan.

Það er ekki fyllilega ljóst, hvað Jónas hefir átt við í þessum vísum, einkum hinni fyrri, en rétt mun til getið af dr. Páli E. Ólasyni, að „alsherjargoðinn“ hafi verið Bardenfleth kammerherra, og að átt sé við umsögn hans nokkura á 20 örkum (skrifuðum), sennilega um alþingismálin; þau heyrðu undir Br. P. til undirbúnings sem fulltrúa í rentukammerinu. Geta má þess einnig, að Br. P. skrifaði grein um alþingi í Fjölni, VII., 110—136 (sbr. Fundabók Fjölnisfél., 15. og 17. fund, 1844 (27. Apr. og 9. Maí), sjá Eimr., 33. ár, bls. 182—83. — Carl Emil Bardenfleth (f. 9. Maí 1807, d. 3. Sept. 1857) varð hér amtmaður 1837 og síðar stiftamtmaður. Fór héðan 1841 og varð stiftamtmaður á Fjóni, en var þó hér aftur sem konungsfulltrúi á fyrstu tveim þingunum (1845 og 1847). Var merkur stjórnmálamaður og ráðherra.

„berum“, svo í ehr., s. s. „börum“ (þ. e. hjólbörum).

*Bls. 179—181.* — TIL GÍSLA. — Ehr. á lausu blaði (st. 21 × 13 cm) í K. G. 31 a. — Líklega frumritað uppkast og aldrei skrifað upp né sent Gísla, — Thorarensen. Kvæðið virðist vera sett saman í Sórey eða nokkru eftir að Jónas var kominn þaðan aftur; það er bágt að vita, við hvað er átt, og sumt mun vera út í loftið, — Absurd-Komik, sem þeir nefndu það. — En ljóst er, að þessar gamanvísur eru skopstæling af kveðskap rímara og leirskálda.

*Bls. 181—182.* — HUGNUN. — Tvö ehr. eru til í K. G. 31 a; annað er skrifað á laust blað, sem er raunar sendibréf eða skeyti frá Brynjólfi til Jónasar, ódagsett, en vafalaust frá sumrinu 1844; hitt er í sendibréfi frá þeim Gísla Thorarensen og Jónasi, sjá II. b., bls. 190; má vísa til ummæla Jónasar í bréfinu til skýringar á kvæðinu; sbr. einnig aths. við bréfið, og e. fr. kvæðið til Gísla hér fyrir framan, bls. 134, með aths. á bls. 368 *). Það

---

*) Með því kvæði, en ekki þessu, svaraði Jónas Gísla, er hann sendi Jónasi ljóðbréfið til móður sinnar. Sjá Sunnanf., XI., 28.

er óvíst, hvort ehr. er skrifað fyr, en þau eru ekki alveg samhljóða. Í 1. útg., og síðan í 2. og 3., hefir verið tekið tillit til beggja. 1. er. er eins og í bréfinu; í hinu ehr. er 4. l. svo: „hvað bóndi góður býr og slær", og er „hvað" skrifað sem breyting fyrir „hve". — 2. er. er eins í báðum ehr., en á lausa blaðinu hefir fyrst verið skrifað í 1. l. „Þúfuna", og því breytt í „Þúfu, sem", eins og það er í bréfinu. Þetta bendir til, að bréfið sé skrifað síðar. — 3. er. er eins og á lausa blaðinu; í fyrstu hefir það verið eins í báðum ehr. og byrjað svo: „Hvar er nú" o. s. frv., en á lausa blaðinu er „Hvar" strikað út og „Þar" sett fyrir ofan. Þetta bendir aftur á móti á, að bréfið sé skrifað fyr, að minnsta kosti fyr en þessi breyting var gjörð á lausa blaðinu. — 4. er. er einnig sett eins og það er á því blaði; í bréfinu stendur í 4. l. „þú veizt" f. „veiztu". — 5. er. er sömuleiðis tekið eftir lausa blaðinu; í bréfinu er 3. l. svo: „maðkur á bekki situr innar". — Kvæðið hefir þannig í 1.(—3.) útg. verið sett eftir ehr. á lausa blaðinu, allt nema 4. l. af 1. er., hún er sett eftir ehr. í bréfinu. Svo er gjört hér einnig, og þó með nokkrum efa um, hvort ekki hefði átt að fara alveg, eða því sem næst, eftir ehr. í bréfinu.

Þetta er að vísu gamankvæði, eins konar skopstæling, og er því sett hér í flokk. En það er blandað beiskju yfir tilfinningarleysi og ónærgætni örlaganna og mannanna, og kuldabrosið stirðnar í duldum hörmum og sárri meðaumkvun. Það nær þó vitanlega engri átt að ætla, að þetta kvæði sé ort sem „hugnun" í raun og veru til Gísla Thorarensen í hörmum hans, er hann missti móður sína. — Sjá að öðru leyti ævisögu Jónasar, V. b., bls. CLXIV—CLXV.

*Bls. 182—183.* — GAMANVÍSUR TIL H. KR. FR. — Prentaðar fyrst í Sunnanfara, IV., 58, og eru settar hér eftir því. Á sama blaðinu í K. G. 31 a, sem brot úr Formannsvísum eru á (sbr. aths. á bls. 369) er þessi vísa:

Dyrri litli, dreptu „sig"
í dag eða helzt í gær;
enginn kveður eftir þig,
ef þú ferð að lifa mig
og ég er nái nær.

Er 1. er. sýnilega gert upp úr þessari vísu.*) — Halldór var einn af Fjölnismönnum; hann var einna yngstur og lifði hina (d.

*) Fyrir „sig" í 1. l. hefir fyrst verið skrifað „þig", en strikað yfir það og sett „sig".

23. Marz 1902), sbr. Eimr. 32. ár, bls. 86—87. Hann virðist þó hafa verið að nefna við Jónas að yrkja eftir sig. — Í 1. er. er jafnframt skopazt að því, að kunna ekki að þéra. — Þriðja er. munu þeir skilja bezt, sem þekktu Halldór og háttu hans. Þess má geta, að hann tók í nefið. — Í 8. l. er átt við smell, sem líkist því, þegar mellu (merlu) er skotið í lás (mellulás), sbr. einnig 6.—7. l. — 2. er. er beint framhald af 1., — sagðar ástæður. — Í 3.—4. er. hugsar Jónas sér Halldór kominn „á skjáinn“ (sbr. 4. l. í 3. er.).

*Bls. 183—184.* — EIN VELMEINT BÆNARÁMINNING TIL G. M. — Ehr. í K. G. 31 a, á sama blaði og „Ó, þú jörð, sem er“ (sjá bls. 370). Fyrirsögnin hefir fyrst verið „Áminning“, og ofan-við skrifað: „Með lag: Nú bið eg, guð, þú náðir mig“, en síðan hefir verið strikað yfir þetta hvort-tveggja og skrifað (með blýanti) langsum, með-fram erindunum, það sem hér er fyrirsögn. Lagboðarnir eru sýnilega valdir að nokkru leyti með tilliti til orðalags þeirra sjálfra og ekki einungis sálmalagsins. En svo stendur annars á þeim, að séra Árni Helgason hafði birt í Sunnanpóstinum, 1. árg., bls. 75—76, vísu, sem hann hafði lagt út á íslenzku og byrjaði svo: „Vid urdar stendur uppi brunn“, og sett fyrir ofan lagboðann „Nu bid eg Gud þú nádir mig“. — Jónas hefir með lagboðunum jafnframt viljað minna á séra Árna og kveðskap hans, og annað því um líkt og skylt heima. — Þessar breytingar aðrar hefir Jónas gert e. fr. (flestar með blýanti): 1. er., 4. l., „tófubelgur“ breytt í „tófuvömb er“; í 1. l., „reiki“ breytt í „ringli“; í 8. l., „stefnir“ breytt í „snýr“, og því svo aftur í „horfir“; 2. er., 1. l. hefir fyrst verið svo: Gefðu þá illri bræði bið“ (sbr. 1.—3. útg.), en verið breytt svo sem hún er hér, og þá sett „byltu-“ f. „blundar-“ fyrst; í 2. l. hefir fyrst staðið „hröktu“ fyrir „skirptu“; 5. l. hefir fyrst verið svo: „lifandi þar sem leiðast er“, en breytt (með bleki) í „leitandi þess, hvar loginn er“, og því síðan breytt (með blýanti) í það, sem hér er. — Fyrir neðan kvæðið hefir Jónas skrifað: „Ærbødigst — Schnabelwofsky“. — Mun það hvort-tveggja hafa staðið undir kvæðinu eins og hann sendi G. M. það.*) — En G. M. í fyrirsögninni merkir án efa: Gísla Magnússonar (eins og talið er ekki ólíklegt í 3. útg.). Gísli var formaður í Fjölnisfélagi um eins árs bil líklega, til 25. Sept. 1843, og hafa þeir, Jónas og hann, verið góðir kunningjar og hitzt þráfaldlega frá því

---

*) Og sennilega hafa átt að standa undir því, hefði það þá verið prentað sérstakt. — E. fr. hefir Jónas(?) skrifað með blýanti neðan-undir kvæðinu, fyrir framan „Ærbødigst“, „Það verður“.

Jónas kom til Hafnar 1842 og þangað til hann fór út í Sórey, sumarið 1843. Eftir að hann kom þaðan aftur, hafa þeir hitzt oft í Höfn, sumarið 1844, unz Gísli fór heim, en það mun hafa verið í Ágúst-mánuði,*) og Jónas þá gert kvæðið skömmu áður.

Ef Jónas á í þessu kvæði við eitthvað sérstakt öðru fremur hér heima, þá á hann sennilega við Bessastaði, staðinn þar eða skólann.**) — Síðustu árin hafði verið allmikil óánægja með skólann, og var nú sama sem afráðið að leggja hann niður, enda hafði stjórnin farið að undirbúa um vorið bygging fyrir nýjan skóla í Reykjavík. Jónas mun hafa búizt við því, að Gísli yrði kennari, ef til vildi bráðlega, við Bessastaða-skóla, „og seinna, þegar sólin skín", við nýja skólann í Reykjavík, og hann langaði til að fá þá „boð" um, að hann ætti að komast þar að einnig. — Gísli var kennari við Bessastaða-skóla 1845—46, en þá einungis í stað drs. Sveinbjarnar Egilssonar, því að hann var þá erlendis; ****) en síðar varð Gísli kennari við Reykjavíkurskóla, frá 1850 til dauðadags, 24. Ág. 1878. — Sjá um hann í Sunnanfara, XI., 75—77.

*Bls. 185.* — BROT. — Í þessa deild hafa hér verið sett nokkur erindi úr 3 kvæðum, sem að öðru leyti eru nú glötuð, og öðrum 3 kvæðum, sem ekki hefir verið ort meira af, að því er virðist.

*Bls. 187.* — IÐRUNARVÍSUR. — Eftir hr. séra Jóns Brynjólfssonar í Kálfholti, með bréfi hans 10. Ág. 1882 til Páls Melsteds. Segir séra Jón svo m. a.: „Það, sem þú minnist á í bréfi þínu, Iðrunarvísur til Gísla Ísl. Einarssen, heyrði ég aldrei, nema fyrsta erindi. — — — Meira heyrði ég ekki; það fór dult".

Sbr. e. fr. aths. á bls. 320 við kvæðið „Ad amicum".

Með tilliti til þess, að þeir Páll og séra Jón tala um „Iðrunarvísur" (í fleirtölu), er þessi vísa sett meðal brota, þótt hún beri það ekki með sér, að hún sé brot. Hún er sennilega frá því um sama leyti og bréf Jónasar til Tómasar Sæmundssonar, II. b., bls. (5—)9, dags. 1. Marz 1829. — Vissulega hefir kvæðið verið til heilt, hvort heldur það hefir verið lengra eða ekki.

*Bls. 187—188.* — ÓLÁN! — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., við hliðina á „Líkur sínum", í aftara dálki; framhald hefir

*) Hann var á fundi í Fjölnisfélagi 27. Júlí.

**) Kennararnir voru 3 við skólann og lektor gamli að auki, en Jónas telur hann má ske ekki með. — Jafnframt kunna að vera einhverjar endurminningar í þessu („þrímennt" o. s. frv.) frá ferðalagi Jónasar og Steenstrups vestur í Aðalvík, sbr. II. b., bls. 60 (m. aths.), og Ferðabók Þorv. Thoroddsens, II., 141—42, og síðan í Eimr., 20. ár, bls. 65 og 140. — Sjá e. fr. V. b., bls. CIV.

***) Sbr. t. a. m. skólaskýrsluna, bls. 45—46, og Dægradvöl, bls. 123(—24).

verið á næsta blaði, en það vantar; hefir kvæðið efalaust verið heilt. — Þetta ehr. mun vera skrifað vorið 1845, en kvæðið virðist ort áður, sennilega í Reykjavík. Tilefnið óþekkt, og eins það, hvað átt er við í 2. er., 4. l. — Í 1. er., 2. l., „— fjandi“ breytt í „— skratti“ í ehr.

*Bls. 188—189.* — GRENIÐ. — Ehr. á stöku blaði (st. 21,2 × 18,3 cm.) í K. G. 31 a; það er hálf örk, og hefir verið rifinn frá því hinn helmingurinn, en framhald kvæðisins hefir eflaust verið á honum, og kvæðið heilt. Ehr. er skýrt og reglulega skrifað, kann að vera hreinrituð uppskrift, en þó er það með dálitlum breytingum. Í 1. er., 2. l., hefir fyrst verið skrifað „úti“, en strikað yfir það og sett „er úti“ fyrir aftan; í 3. l. hefir fyrst verið skrifað „skjótfær skotmaður“, en síðan dregið yfir fyrra orðið og bætt við „spyr:“. Í 4. er., 6. l., hefir fyrst staðið „í húsi“, en strikað yfir það og síðan sett „ungri“. Í 5. er., 5.—6. l., virðist „holur“ hafa verið tekið framan-af 6. l., þar sem það hefir verið skrifað fyrst, og sett aftast í 5. l., en 6. l. síðan höfð svo sem hún er. Í 6. er., 1.—2. l., hefir verið gerð sams konar breyting; „heita“ tekið úr upphafi 2. l. og sett aftast í 1. l. Í 3. l. er „þá“ í ehr., fremst í l., f. „er“. — Ehr. virðist vera frá síðustu árum Jónasar.

*Bls. 189—190.* — AUGUN ÞÍN. — Ehr. aftan-á sendibréfi frá Þórði Jónassyni (Jonassen), sjá aths. á bls. 365; er því frá síðari hluta ársins 1843 eða yngra. Það er skrifað með blýanti og mjög óljóst. Eyða er fyrir 4.—7. l. af 1. er. — J. C. Poestion lagði sívara, heila, erindið út á þýzku (Eislandblüten, bls. 41), og áður hafði Carl Rosenberg lagt það út á dönsku (sbr. Valt. Guðm., Isl. Kultur, bls. 130).

*Bls. 190.* — ÚR KVÆÐI UM VÍKINGAFERÐIR. — Ehr. á stöku smáblaði (st. 13,3 × 11,2 cm.) í Bmf. 13, fol. Sennilegt er af ehr., að nokkuð framan-af kvæðinu hefir verið skrifað á annað blað; en eyða er á þessu blaði fyrir framhaldinu. — Í 3. er., 5. l., hefir staðið „Og“ fremst, en verið strikað yfir það.

*Bls. 191.* — Í ÖXNADAL. — Ehr. á lausu blaði (st. 21,3 × 13,6 cm.) í K. G. 31 a, frumrit, skrifað með blýanti, ógreinilegt. Fyrirsögn engin. Þetta mun hafa átt að vera upphaf að kvæði um Öxnadalinn, eða Hraun, fæðingarstað Jónasar, og er það þó ólíklegra; — ef til vill um einhvern atburð í lífi Jónasar. — Virðist vera frá síðustu árum hans.

*Bls. 193.* — ÞÝÐINGAR. — Í þessa deild, bls. 195—235, hafa verið sett flest-öll þau kvæði, sem Jónas hefir þýtt eða stælt eftir útlendum ljóðmælum. Kvæðið „Skraddaraþankar um kaupmanninn“, bls. 10—11, sem Jónas kvað vera „breytt kvæði“,

hefði líklega einnig mátt vera í þessari deild, en þar á móti ekki kvæðið „Söknuður“, bls. 32—33, þótt Jónas segði einnig um það, að það væri „breytt kvæði“. — Kvæðið „Móðurást“, bls. 49—50, ekki heldur, þótt útlend kvæði liggi til grundvallar að sumu leyti fyrir þessum tveim kvæðum. — Hins vegar hefði kvæðið „Sólseturs-ljóð“, bls. 69—74, átt tvímælalaust að vera í þessari deild. Sjá aths. um þessi kvæði hér fyrir framan. — Reynt hefir verið að raða kvæðunum í þessari deild eftir aldri, án þess þó, að dreifa þýðingum af kvæðum eftir sama höfund; eru tvö kvæði eftir Horatius því sett saman, bls. 197—199, sömuleiðis þrjú kvæði eftir Schiller, bls. 203—215, og þrettán smákvæði eftir Heine, bls. 218—228. — Sjá að öðru leyti aths. við hvort kvæðið fyrir sig.

*Bls. 195—196.* — UPPHAFIÐ AF CARRIC-THURA.*) — Ehr. Í K. G. 31 b I, 4. kv. — Er fyrirsögnin á dönsku í ehr.: „Begyndelsen af Ossians Carric-thura. — (En Variation.)“ — Jónas hefir haft fyrir sér hina dönsku þýðing Blichers. Í bréfi til Tómasar Sæmundssonar, rituðu í Febrúar 1828, sbr. II. b., bls. 3, telur hann Ossían, þ. e. þessa þýðing Blichers, meðal þess, sem honum er þá helzt til ánægju í Bessastaða-skóla. Af bréfi Tómasar 1. Okt. s. á. til Jónasar (sbr. Bréf Tóm. Sæm., bls. 40) má ráða, að Rudolf Keyser hafi gefið Jónasi Ossían. Í æviminningu Jónasar í Fjölni, IX. árg., bls. 2, segir Konráð Gíslason, að það megi fullyrða, að Jónas hafi kunnað utanbókar kvæði Ossíans í þýðingu Blichers. — Þessi þýðing Jónasar er sennilega frá vetrinum 1826—1827.

Hinn skozki rithöfundur James Macpherson (1736—95) gaf út á unga aldri (1760—63) söfn af ljóðum í óbundnu máli, á ensku, og kvað þau vera þýðingar á forn-geliskum kvæðaflokkum eftir Ossian, keltneskt skáld, sem lifað hefði á 3. öld. Efuðu sumir menn strax, að þetta væri satt; lagði Macpherson þá fram all-mörg kvæði á gelisku, og nokkru áður en hann dó, ánafnaði hann mikið fé (1000 pd. sterl.) til útgáfu þeirra, ef honum sjálfum entist ekki aldur til að gefa þau út. Álitu nú sumir, að hann hefði gert þessi kvæði einnig, en haft þó einhver gömul brot að styðjast við, þó varla eldri en frá því um 1100. Víst er um það, að lýst er í þessum kvæðum mjög fornum lifnaðarháttum, sem þau munu á einhvern hátt eiga rót sína að rekja til. Hitt er einnig víst, að bæði á Írlandi og Skotlandi eru til forn kvæði, frá því á 12. öld, er geta um þá feðga, Osckar, Ossian og Fingal, og Macpherson hefir eflaust ritað upp mjög forn kvæði á Skot-

*) „Darriethura“ í 1.—3. útg. stafar af mislestri.

landi. Þar á móti er samsetning þeirra í stórar heildir hans verk og gerð frekar en tilefni var til.

Carric-thura er 3. (í sumum útg. 4.) kvæðið í ljóðum Ossians; það er all-langt og hefir Jónas að eins tekið upphafið fyrir, eins og hann tekur fram. Hjá Macpherson er upphafið, fyrsta málsgreinin þannig: Hast thou left thy blue course in heaven, goldenhaired son of the sky! The west has opened its gates; the bed of thy repose is there. The waves come to behold thy beauty. They lift their trembling heads. They see thee lovely in thy sleep; they shrink away with fear. Rest in thy shadowy cave, O sun! let thy return be in joy. — En í þýðingu Blichers, sem Jónas hafði fyrir sér, er það svona: Har du forladt dit blaa Løb i det Høje, Himlens guldlokkede Søn? Vesten har aabned sine Porte, dit Hvilested er der. Bølgerne komme at beskue din Skønhed: de løfte deres bævende Hoveder, de se dig yndig i din Slummer, men rulle skælvende bort med Forbavselse. Hvil, o Sol, i din skyggefulde Hule, og lad din Genkomst være i Fryd!

Carric-thura, sem kvæðið er kennt við, var ein af Orkneyjum.

Grímur Thomsen gerði einnig þýðing í bundnu máli af upphafinu á Carric-thura og nefndi kvæði sitt Sólarlag (og síðar Sólarljóð), sjá Ljóðmæli hans, Rv., 1934, I., bls. 204—205.

*Bls. 196—197.* — PHYSICA NECESSITAS. — Ehr. í K. G. 31 b I, 7. kv. — Líklega frá haustinu 1827. — Vísan er útlegging af þessari grísku setningu, sem Jónas tilfærir neðanmáls, úr ævisögu Caj. Jul. Cæsars eftir Plutarkos. — Höf. leggur hinum örþreyttu hermönnum Cæsars þessi orð (meðal annara) í munn, þegar Cæsar fór á móti Pompejusi um hávetur, rétt í ársbyrjun 48 f. Kr. — Þeir voru þá á leiðinni til Brundisium og Cæsar var farinn á undan. En er þeir komu þangað, var Cæsar farinn yfirum til Dyrrhachium (Durazzo í Albaníu); iðruðust þá hermennirnir orða sinna og dugleysis, og ásökuðu liðsforingja sína fyrir, að þeir hefðu ekki rekið meira á eftir.

Þar sem hér er um útlegging að ræða, verður ekki neitt byggt með vissu á þessu um trúarskoðun Jónasar; sbr. Eimr., 8. ár, bls. 118. Sama máli gegnir um kvæðið Nihilismi á bls. 231 hér fyrir aftan.

4. l. „þeim er", ehr. „sjá at". — 7. l. „þeim er", ehr. „þærs". Í 1.—3. útg. er kvæðið nefnt „Náttúrulögmálið".

*Bls. 197–199.* – KVÆÐI EFTIR HORATIUS. – I. CUR ME QUERELIS ETC. — Ehr. í K. G. 31 b I, 13. kv. Fyrirsögn eins og hér, og þar fyrir ofan: „Horatii 2. bókar 17. kvæði". — Líklega frá vetrinum 1827—28.

Þetta er þýðing af fyrstu 3½ er. (14 línum), en kvæðið allt er 8 er. Úr þessu kvæði er tilvitnunin, sem er neðanmáls á bls. 21, sbr. aths. á bls. 321. Jónas sleppir henni úr þýðingunni.

Í 1. er., 4. l., „um“, ehr. „of“; 3. er., 6. l., „má eg“, ehr. „mák“; 5. er., 1. l., „sú“, ehr. „sá“; 4. l. „eldgálkn“, ehr. „eldgálpn“.

II. QUIS MULTA GRACILIS. — Ehr. í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol. Frumpr. í Fjölni, VIII., 26—27 (1845); lesið áður á fundi í Fjölnisfélagi 17. Jan. s. á. — Kvæðið er sett hér eftir frumútg., enda hefir það í ehr. fyrir nokkrar breytingar orðið svo sem það er í henni; verður hér ekki gerð grein fyrir þeim. — Kvæðið er 5. kvæði í 1. bók kvæða Horatiusar. Óvíst, hve nær þýðingin er gjörð, en víst ekki fyr en árið 1832.

Jónas mun að gefnum tilefnum hafa kjörið þessi tvö kvæði Horatiusar öðrum fremur til þýðingar. Hin innilega vinátta hans til Gísla Ísleifssonar hefir að líkindum verið ofarlega í hug honum, þegar hann gjörði fyrri þýðinguna, líklega vorið 1828, en vonbrigði, sem honum mun hafa fundizt hann verða fyrir í sambandi við stúlku í Reykjavík (Christiane Knudsen), kynnu að hafa valdið nokkru um, að hann þýddi síðara kvæðið.

Í síðustu er. er átt við þann sið, að hengja upp í hofin heitspjöld — og jafnvel föt, sem menn höfðu verið í —, er þeir höfðu komizt lífs af úr sjávarháska eftir að hafa unnið heit. — Svipaður siður helzt enn í kaþólskum löndum, eins og víða má sjá í kapellum og bænahúsum þar. Sbr. að nokkru leyti áheitin á Strandar-kirkju hér.

Qvintus Horatius Flaccus var fornrómverskt skáld og ritböfundur, f. 65 f. Kr. og d. 8 f. Kr., fám vikum eftir að Mæcenas dó, og voru þeir vinir til dauðadags.

*Bls. 200—201.* — LOFSÖNGUR. — Ehr. í K. G. 31 b I, 19. kv., líklega frá sumrinu 1828, gert heima á Steinsstöðum. — Claus Frimann var norskur prófastur og skáld, f. 1746, d. 1829. Í ehr. er sleppt fornafninu, en lagboði er settur: „Lagið er: Bý eg sveitasóknum í, etc.“ stendur fyrir neðan nafn höf. Sama lag og er við „Flýttu fjalla yfir brún“, sjá bls. 21—22 og aths. á bls. 321. — Í 2. er., 2., 5. og 7. l., er í ehr. „hvareð“ f. „þar er“, og í 4. l. „aldanna“.

*Bls. 201—203.**) — Í KIRKJUGARÐINUM. — Frumpr. í Fjölni, IX., 16—18 (1847) í „Grasaferð“, sjá bls. 275 hér fyrir aftan;**) þótti einnig rétt að taka með ljóðmælunum þau kvæði,

*) Bls. 203 hefir verið sett á undan bls. 202.

**) Þar kemur einnig fram dómur Jónasar sjálfs á þessari þýðing hans, og raunar fleirum.

sem eru í þeirri sögu. „Aladdin, eller Den forunderlige Lampe, Dramatisk Eventyr af A. Oehl." kom fyrst út 1805.*) Efnið er úr „1001 nótt". Þetta kvæði heitir „Kirkegaarden". Aladdin syngur það á leiði móður sinnar; lætur sem hann vaggi henni. — Ad. Oehl. var skáldkonungur Dana á fyrri hluta 19. aldar, en var þýzkur í báðar ættir, f. 1779, d. 1850. Hann unni mjög fornbókmenntum vorum og sótti til þeirra efnið í sum af verkum sínum.

*Bls. 203—215.* — KVÆÐI EFTIR SCHILLER.

Þessi 3 kvæði voru frumpr. í Fjölni, VI., 26—37 (1843). Ehr. er til af 1. kvæðinu, 1. og 2. er. (= 1. er. frumkvæðisins) í Bmf. 13, fol., á stöku blaði (st. 21 × 12,7 cm), og af 3. kvæðinu, 5 síðustu er., á öðru stöku blaði (st. 21 × 17 cm) s. st. 2. kvæði var prentað aftur í „Grasaferð" í Fjölni, IX., 19—20, dálítið frábrugðið. — Áður en kvæðin voru prentuð í Fjölni 1843, las Jónas þau á fundi í Fjölnisfélagi, 4. Febr. s. á., sjá fundabókina, Eimr. 32. ár, bls. 269—70. Um 1. kv. sagði Jónas þá, „að farið væri nærri í útleggingunni, því er Schiller hefði ort". Er það orð og að sönnu. En bragarhátturinn er allur annar á kvæði Jónasar en frumkvæðinu, svara 2 er. í þýðingunni til hvers 1 í frumkvæðinu, nema í eitt skipti: Næst-síðasta, 14., er. í frumkvæðinu svarar til þriggja, 27.—29. er., í þýðingunni. — Á næsta fundi í félaginu var rætt enn um þessi kvæði (sjá Eimr., 32. ár, bls. 271—72); sagði Jónas þá, að erindi yrði skotið inn í Dagrúnar-harm; „það er til", sagði hann, „og hefir það orðið eftir af vangá, þeiar kvæðið var skrifað upp". Þetta er. mun hafa verið það, sem sjá má, að vantar í kvæðið í öllum útg.; það svarar til síðara helmings 2. er. í frumkvæðinu. Hefir gleymzt að setja það inn í frumútg. En „það er til"; dr. Sig. Nordal, prófessor, hefir fundið það í bréfi frá Sveini Skúlasyni til Konráðs Gíslasonar, dags. 5. Maí 1888, og er það prentað hér (4. er.) eftir uppskrift drs. Nordals. Sveinn kveðst hafa séð ehr. Jónasar af kvæðinu hjá Stepháni Thordersen. — Í því hafði staðið „Ylfagur, ástfagur" í 1. l. 16. er.; hefir Jónas breytt þar, þegar kvæðið var prentað. — Erindaröðin hefir ruglazt dálítið í frumpr., og verið síðan röng í 1.—3. útg.; það er., sem hér er 2. er., hefir verið 3. er.

Á ehr. af 1. og 2. kv., sem séra Sveinn Ögmundsson í Kálfholti átti og nú mun glatað, stóð að sögn, að þau væru útlögð 10. Marz 1841. Dagrúnar-harmur hefir þó vissulega verið orðinn til nokkru fyr, því að 2. s. m. segir Páll Melsted yngri í bréfi

---

*) Í II. b. af „Poetiske Skrifter"; kallað þar „Et Lystspil", en í 2. útg. (1820) „Dram. Eventyr".

til Jóns Sigurðssonar (Bréf P. M., bls. 26), að hann hafi þá séð það kvæði. Líklega er 3. kv. frá sama tíma eða því sem næst. Það er sett næst á eftir 1. kv. í útg. af frumkvæðunum, í 1. flokk („Gedichte der ersten Periode“), en 2. kv. er úr 3. flokki; hér eru þau sett í sömu röð og í Fjölni, en raunar las Jónas þau ekki upp í þeirri röð, heldur það fyr, sem hér er síðast. Um það kvæði, „Alheims-víðáttan“, sagði hann þá, að það væri lengra en frumkvæðið og mætti ekki kalla það útlegging. Þó má kalla frumkvæðinu fylgt allvel. Bragarhátturinn er vitanlega allur annar, en hver 2 er. í þýðingunni svara til eins í frumkvæðinu, nema aftast, þar svara 3 síðustu er. til síðasta er. (5.) í frumkvæðinu. — Um 2. kvæðið, „Meyjargrát“, sagði Jónas, að það væri „beinlínis útlagt eftir Schiller, en bragarhættinum sagði hann, að breytt væri nokkuð „ad modum“ Bjarna amtmanns“. Thorarensens.*) Raunar er bragarhátturinn hinn sami, en í frumkvæðinu er ein eða tvær áherzlulausar samstöfur í upphafi hverrar ljóðlínu, svo sem er í 5. l. í 2. og 4. er. í þýðingunni; sbr. kvæðið „Móðurást“, bls. 49—50, sem er með sama bragarhætti.**) — Þess vegna á lag Schuberts við frumkvæðið ekki eins vel við þýðinguna og lag Weyse, sem er þá einnig haft við hana hér ætíð.

Johann Christoph Friedrich Schiller er einn af ágætustu rithöfundum Þjóðverja að fornu og nýju; f. 1759, d. 1805.

I. DAGRÚNAR-HARMUR. — Í frumútg. stendur nafn höf. fyrir aftan þýzka nafnið á kvæðinu, innan sviganna. Í ehr. eru orðin „er það nú“ í 2. er., 6. l., undirstrikuð og „allt er þér“ skrifað aftan-við línuna; en 7. og 8. l. er þar svo: „býsn banneitruð — barnalegs hjarta“. — Í frumútg. er í 7. er., 5. l., „þeim er“ f. „er“. — 8. er., 7. l., „Dagrúnar“; í frumkvæðinu heitir hún „Luise“, — og „Friðþjófur“ heitir þar „Joseph“. — Í frumútg. er í 12. er., 1. l., „þá“ f. „er“. Þar er sömuleiðis í 13. er. „ber“ f. „bar“ í 6. l., og í 24. er., 2. l., „stjörnum“ f. „stjörnu“, en hér er sett eins og í 1.(—3.) útg. — Getur verið, að Jónas hafi sjálfur gjört lagfæringarnar eftir að kvæðið var prentað í Fjölni.

II. MEYJAR-GRÁTUR. — Í frumútg. eru upphafsorð kvæð-

---

*) Jónas á sýnilega við kvæði Bjarna eftir Þórarinn Öfjörð, sem byrjar líkt:

„Drynur und fjallsrótum, dimm eru ský,
döpur er sunna, en náfölum í“ — o. s. frv.

**) Hefði verið eins rétt að gera hér eitt er. úr tveim svo sem þar er, en frumkvæðið er í 4 er. eins og hér, og eftir því hafa sönglögin við það einnig verið gjörð.

isins sett innan sviga fyrir neðan nafnið á því, og því er það hér, en ekki þýzka nafnið á kvæðinu: „Des Mädchens Klage“. — „Frumkvæðið er eftir Schiller“ stendur einnig innan sviganna, fremst, en því er sleppt hér. Við orðið „Heilaga!“ í 2. er., 3. l., er aths. nm.: „María, guðsmóðir“. — Sbr. kvæðið svo sem það er í „Grasaferð“, bls. 276—277; sú þýðing mun vera eldri, og hefir Jónas breytt henni til bóta. — Kvæðið hefir verið þýtt á dönsku, svo sem það er í „Grasaferð“, af Margr. Løbner Jørgensen (Til Fjælds efter Mos, Kh. 1927, bls. 28).

III. ALHEIMS-VÍÐÁTTAN. — Orðin, sem eru innan sviga fyrir neðan nafnið, eru sett þar í frumútg. — Þýzka nafnið á kvæðinu er „Die Grösse der Welt“. — Í ehr. er 1.—2. l. í 7. er. svo: „Fer þá farandi — flughraða úr geimi“; og 4. l.: „mælandi svo“; 7. l.: „hermdu mér heldur“. Í 8. l. hefir fyrst verið skrifað „halda“, en strikað yfir það síðan og sett „leita“ fyrir ofan (með blýanti). — 8. er., 6. l., í ehr.: „merkis steini“. — 9. er., „þú“ sett aftast í 3. l. í ehr. — 10. er., 3. l., í ehr. „ónýtis-leið“; en 5.—6. l. hafa fyrst verið svo í ehr.: „hef eg mér á baki — himin-strauma“, en síðan hefir því verið breytt, sett „belja“ f. „hef eg“ í 5. l. og 6. l. höfð svo: „blástraumar himins“. — Í 11. er. er 2. l. svo í ehr.: „hættu að sveima“, og er „að“ skotið inn í; í 4. l. hefir fyrst staðið „í geimi“ f. „niður“, breytt með blýanti, og síðari hluti er. hripaður allur með blýanti; — þetta er uppkast. — Í 6. l. hefir fyrst staðið „— afl“, en strikað er yfir það og skrifað „magn“ fyrir aftan.

*Bls. 215—16.* — KVÆÐI EFTIR JOSEPH ADDISON. — Frumpr. aftan-við formála Jónasar fyrir þýðing hans af Stjörnufræði eftir G. F. Ursin, Viðeyjar-klaustri 1842. Kvæðið hefir ekkert heiti þar, enda hefir frumkvæðið ekki annað nafn en „An ode“. Jónas hefir haldið bragarhætti frumkvæðisins, — einungis næst-síðasta ljóðlínuparið er frábrugðið, og hann hefir þýtt allt kvæðið. — Joseph Addison var ágætur enskur rithöfundur og skáld; hann komst til mikilla mannvirðinga í föðurlandi sínu, bæði lífs og liðinn; f. 1672, d. 1719.

Í frumútg. er í 2. er., 1. l., „þá“ f. „er“ og í 4. l. „þöglri“ f. „þögulli“.

*Bls. 216—218.* — ÚR LEIKRITINU CARL DEN FEMTES DØD. — Ehr. í K. G. 31 a, á hálfri og heilli smáörk (st. 13,3 × 10,6 cm.), í 5 litlum dálkum; framhald hefir ekki orðið, en eitthvað kann að vanta framan-af. Mun vera frá því Jónas var í Sórey (1843—44), þar sem hann kynntist höf., sbr. bréf til Páls Melsteds, dags. 5. Júlí 1844, II. b., bls. 186—187. Í ehr. eru ýms-

ar breytingar, sem hér verður ekki gerð grein fyrir; það er sýnilega frumrit (uppkast).

Johannes Carsten Hauch var einn af beztu skáldum og rithöfundum Dana á 19. öld; f. 1790 í Noregi, og var móðir hans norsk, en faðir hans var af austurríkskri aðalsætt; d. í Rómaborg 1872. — Leikritið „Carl den Femtes Død“ kom út 1831. — Þetta er upphaf lokaþáttarins. Filippus er Filippus 2. Spánarkonungur. Carranza er erkibiskup af Toledo. Þeir hafa hjálpazt að því, að loka keisarann, Karl 5., föður konungs, inni í leynifangelsi í klaustrinu, — og er nú órói í þeim út af því. Hafði keisari gengið í klaustur, en þóttist vanhaldinn og vildi ná völdum aftur. Hafði hann notið aðstoðar tryggra vina sinna, m. a. þeirra Gonzalesar og Alonzos, sem vilja nú bjarga honum úr fangelsinu. Biskup hafði ekki ætlazt til, að keisari yrði fangelsaður og gefur Filippusi sök á því, iðrast hlutdeildar sinnar og vísar þeim Alonzo og Gonzales á aðalinnganginn að dýflissunum, en þær voru neðanjarðar. Það tekst að bjarga Karli og bera hann upp í keisarahöllina, en þetta fékk allt svo mikið á hann, gamlan manninn, að hann sálaðist í höndunum á þeim eftir örskamma stund.

*Bls. 218—228.* — SMÁKVÆÐI EFTIR HEINE. — Svo nefnir Jónas sjálfur flokk af þessum kvæðum, sem ehr. hans er til af í K. G. 31 a, en það eru þau 6, sem hér eru 8., 6., 10., 1., 9. og 11.*) Við þessa fyrirsögn hefir hann sett: „Neue Gedichte. — Hamb., 1844“. Þau eru einnig öll úr því safni, og sömuleiðis hin öll, nema 13., sem er úr „Buch der Lieder“.**) Neðst á öftustu bls. í þessu ehr. hefir hann skrifað: „Til Fjölnis“. Hann hefir sennilega ætlað þau í Fjölni 1846, en hann lifði ekki undirbúning þess árgangs. — Enda varð ekki af útgáfu Fjölnis það ár, ekki fyr en 1847, og þá gáfu þeir Brynjólfur Pétursson og Konráð Gíslason út 1. útg. og í henni þessi kvæði öll. — En í Fjölni 1843, VI. árg., hafði Jónas birt þau 4, sem hér eru 3., 4., 5. og 13. Þau mun hann hafa verið búinn að þýða í byrjun Marz 1842, því að 2. þ. m. segir Páll Melsted yngri í bréfi til Jóns Sigurðssonar, að hann hafi séð meðal kvæða Jónasar „nokkur smákvæði eftir Heine“. Sbr. Bréf P. M., bls. 26. — Auk þessara 10 er eitt, 7., í kvæðaheftinu í Bmf. 13, fol., og tvö, 2. og 12. (brotið), á stökum blöðum í K. G. 31 a.

Heinrich Heine var einn af þekktustu rithöfundum Þýzkalands á fyrri hluta 19. aldar; f. 1798, af Gyðinga-ættum; d.

---

*) Frumrit af 1. (síðara er.) og 9. eru einnig í K. G. 31 b I.

**) 12. kvæði virðist ekki heldur vera úr N. Ged.

1856, í Parísarborg, þar sem hann hafði dvalið síðustu 25 ár ævi sinnar. — Mörg af smákvæðum hans hafa verið þýdd á íslenzku, síðan Jónas reið á vaðið, og hafa þau flest verið gefin út í safninu „Ljóð eftir Heine“, Rv. 1919. Þar í formálanum og í Fjölni, I. árg., 1835, er sagt nokkuð frá honum.

Kvæðunum er raðað hér eftir „Neue Gedichte“. Það, sem er gert eftir kvæði í „Buch der Lieder“, er sett síðast. Frumkvæðin eru flest-öll nafnlaus, en Jónas hefir gefið sumum af þýðingum sínum nafn. Frumkvæðin eru einnig flest-öll með sama bragarhætti, þeim, sem er á 7. kv. hér, og nokkurn veginn á 5. og 8.

I. — Þýðingin nafnlaus.*) Frumkv. er 6. kv. í flokknum „Neuer Frühling“. Í K. G. 31 b I hefir Jónas skrifað frumrit þessa kvæðis með blýanti aftast, og öfugt við æskukvæðin, sem eru fremst í bókinni. En örk hefir verið tekin úr bókinni, og eru ekki eftir nema 5 síðustu línurnar af 2. er. Þar er „glóa“ f. „gróa“ í 4. l. 2. er. — Þetta er 4. kv. í flokknum í K. G. 31 a. Hann er skrifaður á 2 smáarkir, 1.—4. kv. á hvíta örk (st. 18,3 × 11,4 cm.), 5.—6. á gráa (st. 18,3 × 12 cm.).

II. — Kvæðið er nafnlaust; frumkv. er 18. kv. í „Neuer Frühling“. Ehr. í K. G. 31 a er á smáblaði (st. 15,7 × 12,6 cm.); frumrit; 1. er., 1. l., hefir fyrst verið svo: „Titrar þá mitt hjarta“. Í 3. l. hefir fyrst staðið orðið „mínum“ aftast, en strikað yfir það og sett „munni“ fyrir aftan.

III. ÁLFAREIÐIN. — Frumkvæðið er 32. kv. í „Neuer Frühling“. — Í frumútg. í Fjölni, VI., 38, er í 2. er., 4. l., „austur“ f. „suður“. — Lagið kann hvert mannsbarn á Íslandi. — Carl Rosenberg lagði þessa þýðing Jónasar út á dönsku (sbr. Valt. Guðm., Isl. Kultur, bls. 134).

IV. NÆTURKYRÐ. — Frumkv. er 37. kv. í „Neuer Frühling“. — Í frumútg. í Fjölni, VI., 40, er í 2. er., 3. l., „blöð“ f. „lauf“, og í 3. er., 1. l., „það“ f. „það er“.

V. STRANDSETAN. — Frumkvæðið er í flokknum „Verschiedene“, 3. af „Seraphine“-kvæðunum.

VI. MÁRINN FORVITNI. — Frumkv. er 6. í „Seraphine“-kvæðunum í flokknum „Verschiedene“. Þýðingin er 2. kv. í flokknum í K. G. 31 a; í 2. er. hefir þar fyrst staðið „sér“ f. „spyr“ og „dimma“ f. „ljósa“.

VII. — Nafnlaust sem frumkvæðið; það er meðal „Verschiedene“, 11. af „Seraphine“-kvæðunum. Ehr. í Bmf. 13, fol.,

*) Stgr. Thorsteinsson hefir einnig þýtt kvæðið og nefnt það Vorljóð.

er skrifað með blýanti á næst-öftustu bls. í kvæðaheftinu. — Í 1. er., 3. l., hefir fyrst verið skrifað „seig í ægi“ f. „var að setjast“.

VIII. — Nafnlaust í ehr. Frumkv. er meðal „Verschiedene“, 5. í „Katharina“-kvæðunum. Ehr. er 1. kv. í flokknum í K. G. 31 a; í 2. er., 2. l., hefir fyrst staðið „fjöld“ f. „her“.

IX. VORVÍSUR. — Frumkv. er 9. af „Katharina“-kvæðunum í „Verschiedene“, 1. og 3. er. Ehr. er 5. kv. í flokknum í K. G. 31 a og frumr. neðan-við línurnar úr I. Þar hefir fyrst staðið í 2. er., 2. l., „kær er“ f. „kvikur“; í 3. l. er þar „fýsir“, en í K. G. 31 a hefir fyrst staðið „langar“. — Í frumkv. eru 5 er. Jónas hefir talið þetta meðal þýðinga, en að mjög miklu leyti er það frumlegt. — Bragarhátturinn er algengt rímnalag, og lagið auðvitað einnig; það var kallað Eyfirðinga-lag, og hefir Jónas líklega lært það í æsku. Páll Melsted sagnfræðingur lærði það af honum og kenndi það við hann, kallaði það „kvæðalag Jónasar Hallgrímssonar“; eftir Páli er það sett í Ísl. þjóðlög, bls. 876. — Jónas orti skammdegisvísurnar sínar, „Stökur“, bls. 141, með þessu kvæðalagi sínu.

X. — Nafnlaust. Frumkvæðið er í „Romanzen“, 20. kv., og heitir „Fortuna“; er með sama bragarhætti. Þýðingin er 3. kv. í flokknum í K. G. 31 a.

XI. — Nafnlaust, er 6. kv. í flokknum í K. G. 31 a; fyrir neðan tölumerkið, VI., stendur það innan sviga, sem hér er sett fyrir neðan tölumerkið, XI. Frumkvæðið er 12. kv. í flokknum „Zeitgedichte“ og heitir „Lebensfahrt“.*) Bragarhátturinn á því er hinn sami og á síðasta kvæði. — Í 1.—3. útg. (og í „Ljóð“) stendur í 2. er., 2. l., „á“ (!) f. „í“; sprottið af mislestri á ehr.

XII. STRIT. — Ehr. á sömu smáörk og gamankvæðið „Kaupfararskál“, bls. 177—178. Fyrir neðan kvæðið hefir Jónas skrifað „Strit (brot úr kvæði eftir Heine)“. Hefir svo verið litið á sem þetta hafi átt að vera fyrirsögn (í útgáfu). Heitið á við, en ekki hefir tekizt að benda á frumkvæðið meðal ljóða eftir Heine. Í 3. er., 1.—4. l., er átt við hinar alkunnu grísku fornsagnir um Sisyfus, sem verður að líða þá hegning í undirheimum að velta æ og æ sama steininum upp sömu brekkuna, og dætur Danausar, sem alltaf verða að ausa vatni í götótt ker. — Í ehr. (og 1.—3. útg.) stendur Dana-u (og Daná-u), en hún (móðir Persevs) átti engar dætur, svo sögur fari af.

XIII. SÆUNN HAFKONA. — Frumútg. í Fjölni, VI., 41—

---

*) Heine orti það í Parísarborg 4. Maí 1843, sjá H. C. Andersen, Mit Livs Eventyr, Kh. 1926, I., 244—45.

